# RIT

# Sveinbjarnar Egilssonar,

Rektors og Drs. Theol.

---

ANNAÐ BINDI.

## LJÓÐMÆLI.

## I.

---

# RIT

# SVEINBJARNAR EGILSSONAR,

REKTORS OG DRS. THEOL.

ANNAÐ BINDI.
LJÓÐMÆLI.

ÚTGEFENDUR:
TH. JOHNSEN. E. ÞÓRÐARSON. E. JÓNSSON.
J. ÁRNASON.

REYKJAVÍK 1856.
EINAR ÞÓRÐARSON.

# LJÓÐMÆLI

## SVEINBJARNAR EGILSSONAR,

REKTORS OG DRS. THEOL.

FYRRI DEILD.

ÚTGEFENDUR:
TH. JOHNSEN. E. ÞÓRÐARSON. E. JÓNSSON.
J. ÁRNASON.

REYKJAVÍK 1856.
EINAR ÞÓRÐARSON.

## ÆFISAGA[1].

# Drs. SVEINBJARNAR EGILSSONAR.

---

Sveinbjörn Egilsson, var fæddur í Innri-Njarðvík í Gullbríngusýslu 6. dag marzm., eða fimtudaginn annan í góu[2], 1791. Faðir hans var Egill bóndi Sveinbjarnarson, en móðir hans hèt Guðrún Oddsdóttir; voru þau bæði af bændum komin í ættir fram. Egill Sveinbjarnarson var maður greindur vel, og mjög fyndinn í orði, eins og sonur hans og

¹) Þar sem ekki er annars við getið, er frásagan bygð á ritum Sveinbjarnar sjálfs, einkum æfi-ágripi hans, sem hèr er prentað aptan við, o. fl., og er hvervetna bent til þess, er klausur eru teknar orðrèttar úr þeim, með merkinu „—", á sögusögn hans sjálfs og kunnugs manns, sem þekti Sveinbjörn bæði úngan og aldraðan, en ekki vill láta sín getið.

²) Þannig segir bæði Sveinbjörn sjálfur í æfiágripi sínu, prófessor P. Pètursson í „Hist. eccles. Isl., Havniæ 1841, 382. bls., og prófastur Á. Jónsson í líkræðunni eptir hann, 10. bls.; en í almanaki sínu fyrir 1846 hefir Sveinbjörn heitinn sjálfur skrifað við 24. d. nóvemberm.: „Skírnarseðill frá Útskálum; eptir honum er eg fæddur 24. febr., skírður 25. s. m. 1791"; og á öðrum stað hefi eg orðið þess var, að hann hefir sett „fyrsta fimtudag í góu".

ættmenn aðrir, er voru mestu gáfumenn, t. d. *séra* Þorsteinn Sveinbjarnarson á Hesti. Hann var og aðfaramaður og búmaður mikill, og einhver mesti auðmaður af bændum hèr á landi í þá daga. Á meðan Sveinbjörn dvaldi í föðurhúsum, mentaðist hann ekki í öðru að tilstuðlun föður síns, en því, sem börnum er títt að nema á únga aldri, í bóklestri og „stóra stílnum í Balles lærdómsbók"; en af sjálfsdáðum var hann farinn að læra að skrifa og að draga upp, svo hann var farinn að skrifa almanök og þess háttar, áður en hann fór úr föðurhúsum. Má vera, að ekki hafi verið undið bráðara að mentun hans, bæði af því, að þá var venja, að börn væru orðin eldri, en nú, þegar þau voru sett til menta, og af því, að faðir hans ætlaði ekki með fyrsta, eptir því sem Sveinbjörn sagði síðar, að setja hann til náms, heldur að eins ala hann upp til búskapar og við bændastörf. En þegar Egill heitinn sá, að syni sínum voru miður lagin sum störf, en honum þókti góðu bóndaefni hæfa, og að hugur sonarins hneigðist meir til annara sýslana, fór hann að leita annara bragða með hann.

Egill bóndi var skynsamari maður, og lèt sèr annara um velferð barna sinna en svo, að hann vildi, að þau ælust upp í sjóþorpinu Njarðvík, og með því hann þekti eingan betri stað, til að menta þau, en hjá yfirdómara Magnúsi sál. Stephensen, sem þá bjó á Leirá, fór hann þángað með bæði börn sín, Sveinbjörn og Guðrúnu, og kom þeim þar fyrir með rausnarlegri meðgjöf. Guðrúnu, dóttur sinni,

hafði hann komið þángað nokkru fyrir aldamótin, til menníngar, og þar eð bæði henni vegnaði þar vel, og staðurinn var ekki miður fallinn til menníngar karla en kvenna, leitaði Egill enn fyrir sèr hjá M. Stephensen, að koma syni sínum fyrir til meiri mentunar, en kostur var á í heimahúsum. Tók þá M. Stephensen við Sveinbirni 10 vetra, árið 1801, til uppfósturs og menníngar, og gekk honum að öllu í föður stað, enda þurfti Sveinbjörn þess því heldur, sem hann misti föður sinn fáum árum síðar (1810). Sveinbjörn skildi og ekki við fóstra sinn, fyr en hann sigldi.

Brátt komst Stephensen að því hinu sama, sem Egill heitinn hafði komizt að, að Sveinbjörn var betur laginn til bókiðna en bústarfa, og lèt því þegar veturinn eptir, að Sveinbjörn kom til hans fara að kenna honum undirstöðu skólanáms. Kennarar Sveinbjarnar voru þessir, eptir því sem hann segir sjálfur frá: „Grímur Pálsson, síðar prestur á Helgafelli, var látinn kenna honum *Donat* (þ. e. undirstöðu latínskrar málfræði), en Hákon Jónsson, síðar prestur og prófastur á Eyri við Skutulsfjörð, kendi honum úr því, nema einn vetur, sem hann var á Reynivöllum hjá sèra Þorvaldi Böðvarssyni, og tvo síðustu veturna var hann til kennslu hjá sèra Árna Helgasyni, þá presti til Vatnsfjarðar, síðar presti á Reynivöllum, svo í Reykjavík, seinast í Görðum á Álptanesi, og var dimitteraður af honum 1810“.

Allra þessara kennara sinna mintist Sveinbjörn jafnan með virðíngu, en þó einkum þriggja hinna

síðast töldu. Hann tók einatt til þess, hversu séra Hákon hefði verið vandvirkur að öllu, sem hann lagði hendur að, eða fór að hugsa um, einkum hvað skáldskap snerti, og dáðist mjög að kveðskap hans. Tvo hina síðast nefndu lofaði hann að maklegleikum fyrir lærdóm þeirra, og hefir hann kveðið til beggja þeirra ljóðabrèf á latínu, eitt til sèra Þorvaldar (sjá bls. 252), en þrjú til stiptprófasts sèra Árna (sjá 255., 260., 263. bls.), öll áður en hann sigldi í fyrsta sinn 1814.

Skólabræður og fóstbræður Sveinbjarnar innan lands og utan voru þeir Ólafur Magnússon Stephensen, sekritèri í Viðey, og Ólafur Stephánsson Stephensen, sonur amtmanns Stepháns á Hvítárvöllum; Ólafur Stephánsson varð síðar *Over-Auditeur,* bæar- og hèraðs-fógeti fyrst í *Ebeltoft* og síðan í *Varde* á Jótlandi, og dó þar hálfu öðru ári síðar en Sveinbjörn, 1854. Þeir Sveinbjörn og Ólafur Stephánsson voru mestu gáfumenn; stiptprófastur sèra Árni Helgason gefur þeim þenna vitnisburð: „Ólafur var fljótskarpari; hann hafði *intuitiv*-gáfur; Sveinbjörn var meir *circumspect*". Þeir Ólafur og Sveinbjörn áttu svo vel saman, að hvorugur þurfti annað en byrja klausu, því svarið frá hinum kom svo fljótt; þeir voru ein sál í tveimur kroppum, og hèldu vináttu til dauðadags, og kváðust á[1], því Ólafur

---

[1]) Má því telja víst, að Sveinbjörn hafi ort til hans miklu fleiri vísur í brèfum, en menn vita nú af, og sem prentaðar eru í ljóðmælum hans á 93.—96. og 266. bls.

heitinn var og prýðilega hagmæltur. Ólafur sekritèri og Sveinbjörn voru og aldavinir.

Eptir það að Sveinbjörn var útskrifaður, dvaldi hann enn 4 vetur hjá fóstra sínum á Innra-Hólmi og í Viðey, því þau árin gekk styrjöld mikil í norðurálfunni, og við hana bendluðust Danir, er þeir veittu Napoleon lið í móti óvinum hans, en meðal þeirra voru Einglendíngar þá sem optar hinir skæðustu. Af þeim ófriði var Dönum illa fritt að fara landa í milli, því að Einglendíngar tóku skip þeirra hernámi, og af því þá voru litlar samgaungur milli Danmerkur og Íslands, dróst utanferð þeirra Sveinbjarnar; því þó faðir hans væri fallinn frá, skorti hann eigi fè sèr til mentunar og forlagseyris, enda sá fóstri hans, að þau not fjárins mundu verða honum happasælust, að verja því þannig sèr til menníngar og frama erlendis, þar sem slík lyst og alúð var fyrir til bóknáms.

Af hinni fyrstu ferð sinni landa í milli segir Sveinbjörn þannig í minnisblöðum, er mèr hafa borizt eptir hann: „Laugardaginn í 20. viku sumars (það var 10. september 1814) lèttu skipverjar akkerum á húkkortunni *Seyen* (Sæun); en 3 dögum áður geingum við um borð, eg og skólabræður mínir; Finnur Magnússon var og með okkur, og sjálfur kaupmaður W. Petræus; bróðir hans, Andres, var skipari. Fyrstu tvo dagana feingum við logn, en eptir það þvervinda og storma, og urðum einatt að láta drífa fyrir vindi. Eptir 8 daga volk komumst við djúpt af Fuglaskerjum. Þá feingum við vind af

norður-útnorðri, sem hljóp þó í kríng til vesturs, útsuðurs, og síðan landsuðurs með stórum veðrum og óstöðugum og miklum sjó. Á öðrum degi eptir Mikíálsmessu sáum við hnúkana á Færeyum. Þá höfðum við hægan vestanbyr. 3. októher um kvöldið fórum við norður um Fagurey, það er milli Hjaltlands og Orkneya; þar er leið hálfnuð til Kaupmannahafnar. 8. tókum við landsynníngsstorm um birtíngu; sá hèlzt tvö dægur; það var fyrir sunnan Líðandisnes. 11. sigldum við í hægvindi gegnum flota af kaupförum; þar voru með svenskir fallstykkisbátar. Um nóttina dreif okkur í snarvindi á móti aptur út úr Jótlandshafi. 12. sáum við vitaturninn á Vendilskaga og kirkju á Jótlandi. Daginn eptir ætlaði skipari til Kaupmannahafnar, en á milli Níðíngs og Hlèseyar snèri hann vegna mótvinds til Svíaríkis; akkerum var kastað við *Wrangöe* (Rángey). Þann dag fórum við með kaupmanni Petræus til Gautaborgar, innan skers til Elfsborgarfestíngar í Hýsíng, og feingum þar leyfi að fara upp til bæarins". Þeir fóstbræður og förunautar dvöldu 8 daga í Gautaborg (frá 13.—20. októberm.), og fóru svo á vagni til Helsíngjaborgar. „Þaðan fórum við", segir hann, „yfir Eyrarsund, til Helsíngjaeyrar, það er fyrir innan Krónuborg. Síðan ókum við yfir Sjáland til Kaupmannahafnar. Sjáland er dæilegt land, og miklu fegra en það, sem eg sá af Skáni".

Þegar Sveinbjörn kom til Kaupmannahafnar 23. októberm. um haustið, var sá tími liðinn, sem ætlaður var til að taka frumprófið á við háskólann, og

varð hann því að bíða fram yfir jól. Þann tíma hafði hann ærið að vinna, þar sem hann átti bæði frumprófið fyrir höndum um nýársleytið, sem líkindi eru til að hann hafi ekki getað tekið með öllu undirbúníngslaust, enda þótt hann væri vel að sèr, og hefði nokkurn veginn haldið við lærdómi, á meðan hann var hèr inni, eptir það hann útskrifaðist, og þar að auki varð hann jafnframt að hlýða fyrirlestrum, og búa sig að því leyti undir annað háskóla-prófið. Að þessum tvískiptu námsstörfum vannst honum alt að einu svo vel, að hann af lauk frumprófinu við háskólann síðast í desember 1814 og fyrst í janúar 1815, og hlaut í því aðaleinkunnina *dável*[1], og var tekinn í stúdenta-tölu 11. dag jan-

[1]) Hèr er sett tafla yfir einkunnir þær, er Sveinbjörn fèkk í frumprófinu, tekin eptir vitnisburðarskjali háskóla-kennaranna; „Til Examen Artium i December 1814 og Januar 1815 har fremstillet sig Sveinbjörn Egilsen, og paa Grund af de specielle Characterer for

| | |
|---|---|
| Udarbeidelse i Modersmaal | Meget godt, |
| Latin | Udmærk. godt, |
| Latinsk Stil | Meget godt, |
| Græsk | Meget godt, |
| Hebraisk | . . . . . . |
| Tydsk | Meget godt, |
| Religion | Meget godt, |
| Geographie | Meget godt, |
| Historie | Udmærk. godt, |
| Arithmetik | . . . . . . |
| Geometrie | . . . . . . |

úarmánaðar 1815. Annað háskólaprófið leysti hann hann af hendi með *afbragðs-aðaleinkunn* og *„innkalli“* (opinberu lofsorði háskólans), eins og segir í hinu opinbera vitnisburðarskjali háskólans, er hann fèkk að afloknu embættisprófinu[1]; því að í fyrra (mál-

Fransk . . . . . . . . . . . . . . . . . . *

erholdt Hoved-Character . . . . . . . Meget godt.

Dette bevidnes herved af undertegnede.

J. Wolf, Bröndsted, B. Thorlacius, J. Möller.
p. t. Dec. fac. phil.

[1]) Testimonium publicum segir svo:

E schola privata Islandica, ad nos missus Sveinbjörno Egilsen, post probatos in publico Artium Examine profectus, civium nostrorum numero Perbonus inscribitur die XI. Januarii 1815. Ab Examine Philologico-Philosophico, cujus primam partem die XXII. Aprilis, secundam partem die XXX. Octobris 1815 sustinuit, Laud. et publico encomio ornatus discessit. Inde, quum se ad Theologiæ studium dedisset, et emenso studiorum curriculo censoribus summe venerandis tentandum se exhibuisset, hoc meruit testimonium:

Ut munus sacrum in ecclesia nostra legitime aliquando obire posset Theologiæ Candidatus Sveinbjörno Egilsen scientiam et dexteritatem suam examine Theologico, quod Regia auctoritate constitutum est, explorandam præbuit, atque primum speciminibus scriptis de quæstionibus ipsi propositis, deinde ulteriori exploratione d. XI. Januarii 1819 in

*) Sèra Á Helgason segir, að Sveinbjörn hafi lært hjá sèr bæði frönsku og ensku, sem einginn hèðan frá landi í þá daga þurfti að læra eða láta yfirheyra sig í við háskólann, en hvorki ebresku nè mathematik, „en þó kunni hann mathematik nokkurn veginn“ segir hann.

fræðislega) hluta þess, er hann tók 22. d. aprílm. 1815, hlaut hann tvær ágætiseinkunnir og eina lofseinkunn, en í hinum síðari (heimspekilega) hluta sama prófs, er hann af lauk 30. d. októberm. s. á., fèkk hann 3 ágætiseinkunnir og 2 lofseinkunnir. Þegar Sveinbjörn hafði af lokið báðum þessum prófum á 10 mánuðum með svo fágætum vitnisburði, sem áður er sagt, lagði hann sig með slíku kappi og fylgi að guðfræði, frá því um haustið 1815 til þess um nýár 1819, að hann leysti af hendi embættispróf í guðfræði 11. dag janúarm. 1819 með lofseinnkunn í aðaleinkunn, og varð þó að bæta á sig ebresku, er hann ekki hafði lesið neitt í áður, og sem hann hafði verið undanþeginn bæði við frumprófið og annað háskólaprófið.

Með þessum frábæra hraða, sem Sveinbjörn sýndi í því að taka 3 próf við háskólann á 4 árum, og þau öll með þvílíkum sóma, er auðráðið, að hann hafi ekki slegið slöku við bókiðnir sínar erlendis, eða hvaða gáfur guð hefir gefið honum.

---

exegesi Veteris et Novi Testamenti, nec non ipsa doctrina religionis naturalis et Christianæ theoretica et practica, nec non in historia religionis et ecclesiæ eos profectus monstravit, ut ex sententia Collegii Examinatorii characterem meruerit Laudabilem.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Quæ omnia sic rite peracta esse hisce literis testamur.

Hauniæ d. 20. Maii 1846.

Censores Examinis Theologici: Horneman, P. E. Müller, J. Möller.

Enda bera minnisblöð þau, er hann hefir haldið í Höfn yfir 24 fyrstu dagana af ónefndum mánuði eptir nýár 1817, en sem líklegt er að hafi verið marzm., það ljósast með sèr, að hann hafi ekki eytt þar dögum sínum í hirðuleysi, heldur að hann hafi haft þar við undrunarverða reglusemi og ástundun[1], sem geti verið öðrum fögur fyrirmynd, til að nota hinn lènta námstíma, eins og framast er auðið, sèr til mentunar og fullkomnunar. En jafnframt lèt hann sèr og ant um hinar líkamlegu framfarir sínar, þar sem hann keypti sèr tilsögn bæði í pípublæstri frá því um haustið 1816, og í dansi líklega frá sama tíma líka, þó þess sè ekki getið með berum orðum í minnisblöðum þessum, og þann tíma út, sem þau ná, og að öllum líkindum leingur; því við 3. dag þessa ónefnda mánaðar kemst hann þannig að orði: „Hjá *Mohr* (svo hèt kennari hans í pípublæstrinum) hefi eg verið síðan í haust þrisvar í viku, fyrir 6 rdl. um mánuðinn", og 8 sinnum hefir hann notað tilsögn hjá honum á þessum 24 dögum (1., 2., 3., 4., 9., 11., 13. og 23.), en ekki sèst, hvað leingi í hvert skipti. Sá, sem kendi honum dansinn, hèt *Stahl;* en ekki greina minnisblöð Sveinbjarnar frá því, hve opt í mánuði hann hafi notað tilsögn hans; á þessum 24 dögum hefir það verið 4 sinnum (2., 11., 13. og 22.), og 6

[1]) Kunníngi stiptprófasts Árna Helgasonar skrifaði honum líka einu sinni, meðan Sveinbjörn var erlendis við bóknám, að hann hèldi, að stiptprófasturinn væri kominn þángað aptur, því Sveinbjörn væri eptirmyndin hans í öllu ráðlagi.

stundir í senn, frá kl. 6 eða 6½ á kvöldin til þess kl. 12 eða 12½, eins og tekið er fram við 2. og 22. d. þ. m. Eg ætla nú að setja fyrst orðrètt eptir minnisblöðunum, það sem Sveinbjörn hefir skrifað þar við 1. dag mánaðarins, vegna þess það sýnir, hvað hann hafi lesið frá því um haustið og þángað til, og skýra svo í fám orðum frá því, sem hann hefir lesið þessa 24 daga, svo það geti verið sýnishorn um hina frábæru elju hans og iðni við störf sín, er aldrei yfirgaf hann alla æfi, og sem hann ávann sèr maklegt lof fyrir lífs og liðinn. Minnisblöðin segja svo: „1. las eg við ljós áttunda kap. í Jobsbók, en áður hefi eg síðan í haust lesið Genesis alla einu sinni. Eg les líka með Helga G. (þ. e. Helga biskupi Guðmundssyni) 1. bók af Sálm(unum), og hefi ásamt með honum nú þegar farið í gegnum Rómverjabrèfið og bæði Korintumannabrèfin; líka hefi eg lesið 2 kapítula af brèfinu til Ebrea. Nú í kvöld rifja eg upp aptur byrjunina á 1. Korintubrèfinu“. En á þessum 24 dögum, sem getið er í minnisblöðunum, hefir hann lesið 8 kapítula af Jobsbók, því að við 24. segir hann: „les eg Job, 15. kap.“, alt Ebreabrèfið, „endað 9.“, Galatabrèfið (10.—11. dag), Efesusbrèfið (13. d.), Kólossabrèfið og 1. kap. af Filippsborgarbrèfinu (14. d.), Tímóteusar, Títusar, Jakobs og Pètursbrèfin (15.—20. d.). „23. lokið við öll brèfin. 24. eg les Postulanna gjörnínga“. Eg þarf ekki að taka það fram, þó því varla á hinn bóginn geti verið of aukið, að þar sem Sveinbjörn talar um

lestur sinn á bókum Gamla Testamentisins í minnisblöðum þessum, að það sè svo að skilja, að hann hafi lesið þær á frummálinu (ebreskunni), og þar sem hann talar um bækur Nýa Testamentisins, er það eins að skilja um lestur þess á frummálinu (griskunni). Þær bækur Nýa Testamentisins, sem hann hafði lesið fyrir 15. d. þessa mánaðar, hefir hann allar lesið í samlestri með Helga biskupi Thordersen. Jobsbók las hann á arabisku, og sagðist hann hvorki hafa lesið meir nè annað en 15 kapít. af þeirri bók á því máli, sem þá var annað málið auk ebreskunnar, er hann lagði stund á frá stofni, frá því hann tók annað háskólaprófið, og þángað til hann lauk af embættisprófinu.

Allur sá lestur, sem Sveinbjörn getur um í minnisblöðunum, er einúngis að skilja um lestrariðkanir hans heima hjá sèr, en hann lætur þess ekki getið, að hann hlustaði á fyrirlestra háskólakennaranna á daginn, og það með slíkri alúð og aðsækni, að í vitnisburðum hans, sem eg hefi sèð, er til þess tekið, sem nokkurs konar afbragðs, hve vel og kappsamlega hann hafi sókt bæði fyrirlestra háskólakennaranna og yfirheyrslur bæði munnlegar og skriflegar. Og til þess að færa sönnur á mál mitt, ætla eg að setja hèr neðanmáls einn af þessum vitnisburðum, og þó það sè torvelt að segja, hvern þeirra helzt ætti að taka, því þeir eru allir hver öðrum betri, þá ætla eg þó helzt að velja til þess vitnisburð þann, sem sýnir, að hann hafi ekki

síður iðkað aðrar greinir guðfræðinnar, en lestur biflíunnar[1].

Ekki töfðu heldur skáldskaparstörfin fyrir Sveinbirni, á meðan hann var erlendis við háskólann:

[1]) Hr. Candid. S. Ministerii Sveinbjörn Egilsen har í halvtredie Aar med saare udmærket Flid bivaanet mine Forelæsninger over den naturlige Theologi, Dogmatiken og den kristelige Moral. Saavel ved de herover anstillede Examinatorier, som ved at deeltage i de i Sommeren 1818 holdte Skrive- og Disputereövelser aflagde han jevnlige Pröver paa den Indsigt, hvormed han gjennemskuede det Hörte, og den Selvtænkning, hvormed han havde tilegnet sig det. Af Naturen udrustet med heldige Anlæg, og fuldeligen erkjendende Vigtigheden af de Forberedelsesaar, han tilbragte ved Höiskolen, anvendte han sin akademiske Tid med saa megen Omhyggelighed og saa meget Held, at hans akademiske Lærere ikke kunne andet, end nære det bedste Haab, om at han engang værdigen vil opfylde sit Kald som Religionslærer. Han underkastede sig den theologiske Embedsexamen d. 11. Januar 1819, og aflagde i samme fortrinlige Pröver* paa udmærkede Fremskridt i de theologiske Discipliner. Ham tilkjendtes Karakteren Laudabilis. Kjöb(enhavn), d. 14. Januar 1819.

P. E. Müller.

*) Séra Á. Jónsson segir og í líkræðunni eptir Sveinbjörn um hin skriflegu annsvör hans við embættisprófið, að hann hafi heyrt til þess tekið af þáverandi háskólakennurum, hve fallegt mál hafi verið á þeim, og hve vel geingið frá þeim, og það svo mjög, að fáir hafi gert það eins vel (11. bls.). Sama má og segja um þau 12 skrifl. annsvör hans, upp á ýmsar greinir trúarfræðinnar, er eg hefi séð eptir hann og víst munu vera síðan sumarið 1818, og hefir hann feingið laud fyrir öll.

því þó að hann yrti ekki mikið, áður en hann sigldi. er þó til ýmislegt eptir hann bæði á íslenzku og latínu, bæði á meðan hann var í heimaskóla, og eptir að hann varð stúdent. En þau $4\frac{1}{2}$ ár, er hann var við bóknám í Kaupmannahöfn, virðist sem hann hafi svo að segja gjörsamlega lagt kveðskap fyrir óðal; því frá þeim árum ætla eg ekki sè til eptir hann nema 2 stökur á 149. bls. í Ljóðmælum hans, og ef til vill „Ölvísan" á 67. bls. Sýslumaður L. Thorarensen, sem var herbergisnautur Sveinbjarnar í 2 ár í Kaupmannahöfn, segir og, að hann muni ekki eptir, að hann hafi á þeim tíma kveðið annað en þessi tvö vísuorð (*distichon* eitt) á latínu:

*Grati animi testis, sinceri pignus amoris* (269. bls.).

En aptur segir sami maður, að þeir, Thorarensen og Sveinbjörn, hafi iðulega blásið á þverpípu heima hjá sèr, því þeir hafi báðir lært hjá sama manni (*Mohr*), og skemt sèr vel við það, og hafi einu sinni kveðið svo mikið að því, að einn nágranni þeirra, sem ekki þóktist hafa næði að lesa fyrir þeim, hafi kært þá fyrir garðsprófastinum. Þannig ætla eg, að einu frátafir Sveinbjarnar frá námsiðnum erlendis hafi verið í því fólgnar, að hann átti hlutdeild í útgáfu Sturlúngasögu fyrir bókmentafèlagið; því pípublásturinn og dansinn má öllu heldur álíta sem nauðsynlega hressíngu fyrir hann og hvíld frá bóknáminu, en óþörf hjáverk.

Veturinn 1817 hafði Jón Jónsson, kennari frá Bessastöðum, siglt með póstskipinu, sem lagði heðan

13. dag marzm. s. á. Það skip fórst fyrir Snæfellsnesi, sem kunnugt er, og týndust allir, sem á voru. En með því ekkert skip gekk frá Íslandi til Danmerkur, fyrr en sumarið eptir, og fáir voru þá til að sækja um þetta skólaembætti, er herra Árni Helgason, sem þá var dómkirkjuprestur í Reykjavík, var settur til að gegna í þessu millibili, frá 1817—1819, þá sókti Sveinbjörn um þetta skólakennaraembætti, og fèkk það með veitíngarbrèfi dagsettu 27. marzm. 1819. Það sama sumar fór hann út híngað, og kom út í Hafnarfirði eptir 12 daga útivist, sem hann segir í vísu þessari:

Hefla gnúði hundur svo, o. s. frv.; sjá 110. bls. Varð Sveinbirni það þá fyrst fyrir, að hitta fóstra sinn, og færa honum doktórsskrá þá, er konferenzráð M. Stephensen getur um í Klausturpóstinum 1819, 112. bls., að sèr hafi verið send af háskólanum í Kaupmannahöfn. Mun Sveinbjörn svo hafa dvalið leingstum í Viðey, það sem eptir var sumarsins, þángað til hann fór suður að Bessastöðum, þá von var á skólapiltum þángað. Á Bessastöðum var hann einhleypur þrjá vetur, en optast og leingstum í Viðey hjá fóstra sínum á sumrum, og eins sat hann þar allar stórhátíðir, á meðan hann var ókvæntur. Þá vetur voru þeir saman í herbergi sèr á Bessastöðum, Sveinbjörn og Lector theologiæ Jón Jónsson, sem leingi var skólastjóri þar.

Árið 1822 festi hann sèr til eiginkonu í janúarmánuði jómfrú Helgu Benediktsdóttur Gröndal, dómara í yfirdómi Íslands, þjóðfrægs skálds, og gekk

að eiga hana sumarið eptir, 20. d. júnímán. Var brúðkaup þeirra haldið í Viðey af fóstra hans, konferenzráði M. Stephensen. Enda hafði jómfrú Helga Gröndal áður verið í Viðey að nema hannyrðir að madme Guðrúnu Skúladóttur, einhverri högustu konu á hannyrðir, sem verið hefir á Íslandi, og auk þess var mikil vinátta milli Helgu og *fröken* Þórunnar Magnúsdóttur, nú prófastskonu á Ytra-Hólmi, og slitnaði sú vinátta þeirra stallsystra ekki fyrr, en frú Helga dó (1855).

Eptir þetta settist Sveinbjörn alfarið að Bessastöðum með konu sinni, og lagði þá sem áður og síðan alla stund á embættisstörf sín, og varði kröptum sínum, alúð sinni og elju í skólans þarfir; því að bæði samdi hann fyrirlestra yfir mannkynssöguna; sem hann las lærisveinum sínum fyrir, og alt eins snèri hann á íslenzku, eg held, nálega öllum griskum rithöfundum, sem hann yfir fór í skóla, og las þær þýðíngar leingi vel fyrir, þángað til hann, að því, er Hómer snerti, var búinn að búa skólanum svo í haginn og koma þeim rekspöl á, að útleggíng hans yfir Odysseifs-drápu Hómers var prentuð jafnóðum í boðsritum Bessastaðaskóla árin 1829—1840, áður en á henni þurfti að halda í skólanum. En hverjar hinar þýðíngarnar voru, verður nákvæmar getið, er getið verður ritstarfa hans. Og var þetta ekki lítið hagræði fyrir skólann, og lèttir fyrir lærisveina hans. En alt að einu las hann orðaskýríngar eptir sem áður fyrir í skólanum yfir Hómer, að minnsta kosti öðru hverju í þau 32 ár,

sem hann var kennari við skólann, og eins þýðíngar, þegar hann fór að lesa þá rithöfunda, sem ekki höfðu áður verið lesnir í skólanum, og var það einkum eptir að skólinn var fluttur inn í Reykjavík, að hann breytti til um lestur á rithöfundum, eða las aðra kafla í þeim, en lesnir höfðu verið um lángan tíma á Bessastöðum[1]. Undir eins og þetta sýnir alúð þá, er hann lagði á embætti sitt, og hversu ant hann lèt sèr um framfarir lærisveina sinna, lýsir það jafnframt hugulli nærgætni, sem kemur sèr öllum hlutum betur hjá þeim, sem kennslunnar njóta; og svo þegar hèr á ofan bættist blíðlyndi hans og þolinmæði, sem gerði öllum svo geðfelt, og þess vegna svo auðvelt að nema eptir hans tilsögn, þá var ekki kyn, þó Sveinbjörn væri einkar ástfólginn lærisveinum sínum, og því ætla eg þess rètt til getið, að fleiri en færri af lærisveinum hans muni ljúflega vilja kveða vísuna upp á hann, er hann hefir kveðið um kennara sinn:

Hans var gjöf,
að eg gjarn mátta'g
úngrar orku neyta;
hans var gjöf,
að eg hans vilda'g
ítru nafni unna. (sjá Ljóðm. 201. bls.).

Þessu hugarþeli til Sveinbjarnar hefir og einn af

[1]) Þannig tók hann að lesa Ilíons-kviðu í staðinn fyrir Odysseifs-kviðu, „Minnisverð samtöl Sókratess" í staðinn fyrir „Samtölin eptir Platon", og „Herodotus" í staðinn fyrir „Lucianus".

lærisveinum hans lýst opinberlega með þessum orðum: „Það er eðlilegt, þó við, meðan við, sem únglíngar, nutum tilsagnar hans, tækjum helzt eptir því, hvað ágætur kennari hann var, þó við þá helzt tækjum eptir hans frábæra lipurleika í að kenna, sem, samfara hans blíða og ástúðlega viðmóti, gjörði okkur svo lètt fyrir að nema; það er eðlilegt, þó við á þeim aldri einkanlega virtum og elskuðum hann, sem afbragðsgáfaðan, lipran og alúðarfullan kennara“[1].

Afskipta Sveinbjarnar af öðrum högum skólans, en kennslunni, ætla eg ekki sè getandi, fyrr en um það bil, sem skólinn var fluttur frá Bessastöðum inn í Reykjavík, og hann tók við stjórn hans, sem rektor, og skal nú segja aðdragandann að því.

Það hafði leingi verið í ráði, að skólinn á Bessastöðum yrði endurbættur, eins og aðrir skólar í Danaríki, og var það hvortveggja, að stjórnina vantaði ekki upphvatníngar til þess frá ýmsum hliðum, — þó ekki yrðu allir, sem það ámálguðu, á eitt sáttir, hvar skólinn væri haganlegast settur, — enda lèt hún vorið 1844 fara að efna til skólagjörðar í Reykjavík[2]. *Lector theologiæ* Jón Jónsson, sem allra manna leingst hefir verið skólameistari á Íslandi, var þá orðinn svo þreyttur á kennslustörfum og umsjón um skólann, að hann hafði beðið um lausn frá því embætti, og fèkk hana heiðarlega, og

---

[1]) Sjá „Ræður við jarðarför S. Egilssonar. Reykjavík. 1855“, 21.—22. bls.

[2]) Sjá „Skýrslu um Bessastaðaskóla, 1843—44“, 1. bls.

það mjög að maklegleikum vorið 1845; en fyrir bænastað stiptsyfirvaldanna lofaði hann þó að hafa skólameistaraembættið á hendi enn um eitt ár. Varð því stjórnin jafnframt því, sem hún lèt sèr ant um, að bæta úr húsnæðinu, sem einkum seinni árin á Bessastöðum hafði reynzt ónógt[1], einnig að ala önn fyrir, að skólinn væri ekki forstöðulaus, og feingi hæfilega endurbót, hvað kennsluna snerti, og til þess þókti hentugastur tími, þegar Lector Jón yfirgæfi hann vorið 1846. En það var allra manna mál, að einginn væri betur til rektorsembættisins fallinn fyrir lærdóms sakir og lipurleika í að kenna, en Sveinbjörn, auk þess sem hann var ýngstur kennaranna allra, sem þá voru við skólann, og því líklegur til að endast nokkra stund enn í þjónustu hans.

Um vorið 1845 (eg ætla það væri heldur á uppstigníngardags-morgun, en hvítasunnu-morgun) fèkk Sveinbjörn brèf frá Þorkeli Hoppe kammerherra, sem þá var stiptamtmaður hèr. Í því brèfi bað hann Sveinbjörn, að koma sem bráðast á sinn fund. En þat faldist undir fundi þessum, að *Hoppe* hafði feingið brèf frá skólastjórnarráðinu í Kaupmannahöfn með þeim fyrirmælum, að hann ætti góðan hlut að því við Sveinbjörn, að hann vildi taka að sèr skólameistara-embættið við hinn endurbætta skóla í Reykjavík, sem þángað átti að flytja

[1]) Sjá „Skýrslur um Bessastaðaskóla" fyrir skóla-árin 1840—41, á 16. bls.; 1841—42, á 2. og 3. bls.; 1842—43, á 4. bls.; 1843—44, á 2. bls.; 1844—45, á 4. bls., og einkum 1845—46, á 92. bls.

sumarið eptir frá Bessastöðum; því þá sat sá efstur í skólastjórnarráðinu, sem þekti Sveinbjörn, og var því fullkunnugt um, að hann mundi ófús að takast á hendur svo vandamikið embætti, en það var konferenzráð *Engelstoft,* aldavinur Sveinbjarnar og honum ávalt velviljaður. Þetta var líka meira en grunur einn hjá *Engelstoft;* því þegar Sveinbjörn kom á fund *Hoppes,* og þetta mál var fyrst borið upp fyrir honum, kvaðst hann hafa tekið því allfjærri, eins og venja hans var, þegar honum bauðst eitthvert það starf, sem honum fannst sèr ofvaxið að takast á hendur. Hann sagði og síðan, að sèr hefði verið næst skapi, að sitja kyr á Eyvindarstöðum og fara hvergi með skólanum til Reykjavíkur, ef hann hefði sèð sèr færi á að lifa með fjölskyldu við hin litlu eptirlaun, sem hann hefði feingið, hefði hann afsalað sèr kennaraembættinu við skólann þá þegar. En með því Sveinbjörn var svo ófús til þessa, og taldi jafnframt það til, að hann væri með öllu ókunnugur skólaháttum og skólastjórn erlendis, gerði *Hoppe* honum kost á að sigla, og vera erlendis vetrarlángt, til að kynna sèr hvortveggja í Danmörku, ef hann væri þá tilleiðanlegri. En þó hèr væri úr vöndu að ráða, rèð hann hina aðra utanför sína þar á þessum fundi án leingri umsvifa.

Seinna um sumarið tók hann sèr far til Kaupmannahafnar með *Johansen* skipara, og sigldi frá Reykjavík 10. d. ágústm. Varð hann þá svo reiðfara, að hann kom 22. d. s. m. til Kaupmannahafnar, enda var skip það ágætt siglíngaskip, er hann

fór með, og hið öruggasta í sjó að leggja. Á eingri ferð hans landa í milli er að ráða að jafnvel hafi legið á honum, og á þessari; þá hefir hann kveðið jafnmest (sjá Ljóðm. 111.—117. bls.), en sjaldan kvað hann, ef honum var ekki huglètt eða skaprótt; enda var það ekki kynlegt, er hann átti góða förunauta, þar sem voru þeir Dr. Grímur Thomsen og Guðm. Einarsson Johnsen studiosus theol., nú prófastur í Eyafjarðarsýslu. Eg hefi verið svo heppinn að ná í ferðasögu eptir hann á þessari ferð, er hann skrifaði konu sinni frá Kaupmannahöfn í brèfum í ágústm. og septemberm. s. á., og af því eg veit fyrir víst, að allir mundu fegnastir vilja heyra hann sjálfan segja frá allri æfi sinni, ef kostur væri, þá set eg hèr þessa ferðasögu. Hún er svo látandi:

„Við stigum á skip litlu fyrir hádegi á sunnudaginn, þann 10., og komum híngað til Kaupmannahafnar á föstudaginn um miðdegi, þ. 22., eptir rètta 12 daga siglíngu. Eg var alt af með beztu heilsu, kendi ei minnsta til sjósóttar, og hafði gott viðurværi og beztu matarlyst á leiðinni og nóga skemtun af G. Thomsen og G. Einarssyni . . . Við feingum á móti fyrsta daginn á útnorðan, og urðum að taka marga slagi út fyrir eyar (Eingey og Effersey), upp að Kjalarnesi, suður að Gróttu, svo norður í flóa, og þá aptur rètt upp að Keflavík. Eg held við höfum ei sèzt frá Eyvindarstöðum nema á þeim slag. Í öðrum slag náðum við fyrir Skaga undir kvöldið; þá varð byrinn liðugri, en hægt leiði. Um

morguninn, þ. 11., kl. 8 sigldum við milli Reykjaness og Geirfuglaskers, þess er næst er landi; Danir kalla það *Meelsækken* (mèlsekk), það er að sjá eins og þverhnýptur klettur upp úr sjónum, alhvítur af fugladriti, líkt og Skarfaklettur á Viðeyarsundi. 12.—13. Nú fór útnyrðíngurinn að vaxa, og varð bezta leiði, svo við sigldum fyrir Færeyar á næsta miðvikudegi, þ. 13.; lá *Helena* (skipið hèt svo) alt af á sömu hlið, og var siglt öllum seglum og hliðarseglum með; hljóp hún ýmist 6, 7, 8 eða jafnvel 9 vikur sjóar á vöku hverri (ein skipsvaka er 4 klukkustundir), eða með öðrum orðum, hún hljóp 6, 7, 8 eða 9 þúsund faðma á hverri klukkustund. Í þessum æskilega byr, þann 12., kastaði eg fram þessum stökum:

*Helena með höfuðtraf* (og)
*Leiðir yfir ofurhaf* (112. bls.).

Ekki sáust Færeyar, þá við sigldum þar fyrir, en sjófuglana höfðum við alt af öðru hverju á leiðinni, því það er svo snemma sumars, og einga stóra hafföldu feingum við enn. Þann 14. ágúst kom eg upp á þilfar kl. 3 um morguninn; þá var þykt lopt (áður var alt af hreinviðri); skriðurinn á skipinu var þá 4 vikur á vöku, síðan 2½; kl. 10 var austræníngur, en kl. 2 e. m. kom á landnyrðíngur, bezti byr, 6, 7½, 8, 8½, 9 vikur á vöku; það hèlzt alla nóttina. Enn nú vorum við ei komnir inn í Norðursjóinn, heldur stefndum á Fagurey, sem er milli Hjaltlands og Orkneya. Þegar landnyrðíngurinn kom á, gerðum við þetta að gamni okkar:

*Boreas, vor brave Ven,*
*der blæser ude.*
*Snart vil faae sin Gang igjen*
*den gamle Skude*[1].

Þú sèrð, elskan mín, að eg hefði ekki hreytt þessu, ef eg hefði ekki verið heill heilsu og vel legið á mèr. Föstudaginn, þann 15., var landnyrðíngur hvass og sjómikill. Þá kvað eg:

*Vikna laukar, vökna brár,* (112. bls.).

G. Thomsen narraði mig þá til að gera vísur tvær:

*Hèr á bláum báruvöllum* (og)
*Mig um reyðar víða vega* (113. bls.).

Þenna dag um miðdegi sáu skipverjar Fugley; hún er vestur af Hjaltlandi sunnanverðu. Eg fór að góna eptir henni, og gat ekkert sèð, og sagði þá:

*Þó eg hlaupi hæst í trèð* (114. bls.).

Kl. 8 um kvöldið sigldum við fram hjá Fagurey Hjaltlands megin, og sáum vita-eld á Hjaltlandsskaga, lögðum svo um nóttina inn í Norðursjóinn; hann er á milli Hjaltlands og Noregs. Vísa:

*Helena með höfuðfald* (114. bls.).

Þann 16. var hvass landnyrðíngur; hljóp skútan 2 vikur sjóar á hverri klukkustundu. Um nóttina var kaldi á norðan. Eg fór að hátta um miðnætti; því eg er ávalt uppi á þilfari, þegar loptbjart er, og ekki úrkoma, enn þótt kalt sè, því sjóloptið jetur úr alla bitru kuldans, svo eg verð ekki innkulsa, þó mèr finnist mèr vera hrollkalt. Sunnudaginn,

[1]) Þetta er eina danska vísan, er eg veit að Sveinbjörn hafi gert.

þ. 17., var kaldi á norðan, hægur byr, 2 vikur á vöku, stundum steypihríð af kraparegni; lá eg þá í bóli mínu, og var ekki uppi. Nú vorum við komnir undir Líðandisnes, sem er syðst á Noregi; höfum við nú verið rètta viku frá Reykjavík til Noregs, en 6 daga frá Reykjanesi til Líðandisness; hèr sigldum við fram hjá *Lange,* sem fór 5 dögum á undan okkur frá Reykjavík, og náðum mörgum skipum. Um nóttina var gott veður; eg var uppi fram yfir miðnætti. Vísa:

*Máni skín á marar flöt* (115. bls.).

Þ. 18. góður kaldi á vestan útnorðan; var þá siglt fyrir Líðandisnes; þá tekur við flói, 30 vikur sjóar, sem heitir Skagaflói (á dönsku *Skagerak*); hann er milli Líðandisness og Jótlandsskaga. Þá var kveðið:

*Lækka tekur Líðandi;*
*lízt mèr vel á þetta* (115. bls.).

En um kvöldið var kveðið:

*Lækka tekur Líðandi,*
*lángt er burtu Skaginn* (116. bls.).

Og enn þetta:

*Helena með höfuðbönd* (116. bls.).

Þann 19. kom eg upp kl. 4 f. m. Þá var bláhvíta logn. Vísa:

*Helena lík hafsins mey* (117. bls.).

Við sáum til Jótlands, þar sem heitir Hjartarháls. Menn rendu hèr vöðum, og drógu nokkra „*makríla*“ (sjóbirtínga) og smáháfa; var það soðið og jetið um daginn. Um kvöldið og nóttina kom vindur á móti

okkur á landsunnan; var þá slagað upp að Skaga, hvar við sáum vitann brenna. . . . Eg háttaði þenna dag kl. $10\frac{1}{2}$. Þann 20. kom eg upp um sólaruppkomu, kl. $4\frac{1}{2}$, þá var stormur á landsunnan, á móti; vorum við þá fyrir framan Skaga; þar tekur við Jótlandshaf, er Danir kalla *Kattegat;* það er milli Jótlands að vestanverðu og Svíaríkis að austanverðu; það er 30 vikur sjóar frá Skaga til Kaupmannahafnar, nærfelt í suður; er sú leið óhæg í mótvindi og ósjó, því hafið er þraungt, ef slaga þarf; Svíasker eru að austanverðu og mjög óhreint þeim megin, en í hafinu sjálfu liggja eyarnar Hlèsey og *Anholt,* og er þar grynníngar og sandflúðir í kríng, enda er þar kynt vitum á nóttum, til vísbendíngar fyrir skip og sjófarendur. Við vorum allan daginn að slaga, og lögðum til drifs aptur um nóttina út fyrir Skaga, og lètum smá-reka fyrir vindi. 21. stormur á sunnan; okkur velkti í Skagaflóa til miðdegis í ókyrrum sjó og mótvindi. Voru sjómenn nú í vextum klæðum, líkt og okkar skinnstökkum og brókum, og með vexta hatta og kverkband í; en eingin feingum við áföll, en öldurnar skullu á síðum eða kinnúngum skipsins, og gusu svo upp með borðunum, og drifu yfir, sem steypiregn. En áföll heita, þegar báran fellur öll óbrotin inn á þilfarið; geingur hún þá þvers eða endilángt, eptir því sem hún kemur að, og tekur með sèr, það sem laust er; stundum hefir hún í miklu sjómegni brotið hlífarborðin af skipinu og sópað út því, sem var ofan þilja. . . Eptir miðdegi þenna dag kom flugastormur á vestan-út-

norðan, sigldum við þá aptur á Skaga. Um miðmunda rak á mikinn vestanstorm; var þá tekið niður stórseglið á aptara mastri, og ekki haft af því nema lítil þríhyrna rètt við þilfarið, skonnortuseglið á fremra mastri var þrírifað (tekið saman og mínkað um 3 brot), en uppi var toppsegl og á bugspjóti rifuð stagfokka og stagsegl. Þessi vestanstormur hèlzt gegn um alt Jótlandshaf til Kaupmannahafnar; en sjórinn mínkaði, þegar land fór að bera af. Í þessum stormi sigldum við fyrst fyrir Skaga og Skagarif, sem þar liggur eina viku sjóar út í hafið. Var nú stórsjór mikill og straumrastir í hafinu; því í vestanveðrum keyrir sjóinn úr Skagaflóa og inn í Jótlandshaf; hefir maður þá með sèr fallstrauminn, þegar siglt er til Hafnar. Byrinn var góður, en sjórinn skakkygldur, og mikill og óður; en *Helena* er sterkt skip, veltir vel af sèr stórsjóum og öslar gríðarlega í miklum vindi; hún siglir og skipa bezt við í þversiglíngu, ef nokkur vindur er. Ekki leizt mèr vel á sjóinn kolmórauðan, þegar við sigldum fyrir Skagarif, og fleygðumst ofan að Hlèsey; var innfallið svo geyst, að mèr sýndist við vera að fara á ská ofan eptir brekku; en það held eg hafi ekki verið annað, en missýníngar. Fyrir norðan Hlèsey eru grynníngar; þar liggur vökuskip við akkeri ár og dag út, og er kveyktur viti á siglutoppi þess, þegar nátta tekur; á maður að halda fyrir utan vökuskipið, því þar er nógu djúpt. Við sigldum þar um í björtu. Vísa:

*Helena með snöggu snuggi* (117. bls.).

Í sama stórviðri sigldum við til *Anholts,* og fram um hana fyrir miðnætti. Eg lá þá í rúmi mínu, og þókti ekki gott uppi að vera, svaf lítið um nóttina, heyrði hvininn í storminum, skellina í bylgjunum og kallið í skipverjum uppi á þiljum. 22. ágúst (föstudagur), sami stormur á vestan með hviðum í milli. Eg kom upp kl. 3, f. m. Nú sást Kollur (það er kollótt fjall í Svíaríki fyrir austan og norðan Eyrarsund). Síðan fór Sjáland að nálgast; höfðum við nú Sjáland til hægri handar, en Svíaríki (Skáney) til vinstri, hèldum þá strykinu til Krónborgarkastala, sem stendur við Eyrarsund; þar er Helsíngjaeyri, kaupstaður, rètt hjá, og sigldum um þvera höfnina, gegn um fjölda skipa í stormi, og hèldum af til Kaupmannahafnar, og komum þar um miðdegi. Við stigum í land við Tollbúðina, sýndum þar leiðarbrèf okkar og geingum inn í bæinn. Nú er siglíngarsagan mín búin".

Þegar Sveinbjörn hefir lokið ferðasögu sinni í brèfinu, er hann hefir alla ritað 28. d. ágústm., fer hann að segja konu sinni frá, hvar hann væri til húsa (nl. í „Hotel du Nord") og hvar hann borðaði. Þessu næst telur hann þá, er hann hafi heimsókt, bæði landa sína og Dani; meðal annars segir hann svo: „Þ. 23. ágúst var eg uppi hjá konferenzráð *Engelstoft* og prófessor Rafni, og tóku þeir mèr báðir mæta-vel. Eg hefi og heilsað upp á etazráð *Rosenvinge* og etazráð *Hansen,* sem báðir eru í skólastjórnarráðinu. *Engelstoft* er orðinn sem barn af elli; *Rosenvinge* er röskur, og hraustur, og

skrautmenni, og lærður vel; góður er hann og blíður, og vill hverjum vel. *Hansen* er höfuðmaðurinn; hann er hægur ákomu og þýður, en skolli íbygginn. Hann ræður víst mestu, og margt hefir hann látið uppi við mig, sem eg ekki hefði búizt við. Eg get ekkert að svo stöddu sagt þèr, hvað um mig verður, eða um skólamálið, því þeir segjast ætla að tala um það seinna, og gera boð eptir mèr. Líka er konúngur ekki heima; hann er að ferðast um ríkið, og kemur heim í miðjum september". Þegar hann var þannig búinn að vita vissu sína hjá öllum, sem í skólastjórnarráðinu voru, að ekki yrði hreift við skólamálefnum Íslands að sinni, og hann hafði þá ekkert við bundið, tók hann fyrir að bregða sèr til Eplatótta (því svo kallaði hann *Ebeltoft* opt í gamni eða Eplatótt; sbr. 3. vísurnar til Ó. Stephensens á 95. bls.), til að heimsækja Ólaf Stephensen, hinn forna fóstbróður sinn og aldavin. Um þá fyrirætlun fer hann þessum orðum í framhaldi brèfsins til konu sinnar, dagsettu 12. september s. á.:

„Á morgun á eg að fara til Eplatótta, hvar Ólafur Stephánsson býr; eg fer fyrst til Áróss, sem er staður á Jótlandi að austanverðu, á gufubát stórum, sem kallast *Iris;* eg á að vera kominn til skips á morgun kl. 5½ f. m. Fyrst varð eg að taka leiðarbrèf mitt, sem eg hafði frá Íslandi, og fara með það ofan á lögreglustofu. Mèr þókti þó gaman að koma þar í vissu falli: eg gekk fyrst í gegn um stóran sal, sem fullur var af alls konar skríl, karlmönnum og kvennfólki; virtist mèr, sem þetta

væri eitthvað að kæra, eða málþrefa. Þar fyrir innan var leiðbrèfa-stofan. Fyrst tók maður leiðarbrèf mitt og sletti á það stóru signeti, fèkk mèr það svo aptur og um leið seðil, með tölunni 38 á, og sagði mèr að setja mig niður og bíða, þángað til kallað væri á 38. Þá sá eg, að tveir menn voru fyrir innan mig með töluseðla líka. Þegar þeir voru búnir að ljúka sèr af, var kallað á 38, og þá kom eg. Maðurinn spurði mig, hvert eg ætlaði — „Til Ebeltoft“ — „Til hvers þar“? — „Að finna gamlan skólabróður minn, Ó. Stephensen“. Maðurinn tók þá í höndina á mèr, og bað mig að heilsa honum frá sèr, og sagði, hann hefði lesið með sèr til *officera-examens*, þegar Stephensen var *Auditör*. Hann spurði, hvort eg hefði verið kennari við skólann á Bessastöðum. Eg sagði það vera. Þá spurði hann, hvort það væri ekki eg, sem hefði gert fallegu latínsku versin um *Engelstoft*. Eg kvaðst hafa gert nokkur vers undir andlitsmynd *Engelstofts* á latínu, en hvort það væru þau vers, sem hann talaði um, vissi eg ekki[1]. Hann

---

[1]) Hèr er án efa rædt um latínuljóðin á 269. bls.:

H o s quoties spectas vultus ad sacra Camoenae, sbr. þýðínguna yfir þau eptir Sveinbjörn sjálfan á 201. bls. Eggert heitinn læknir kemst þannig að orði í brèfi til mín um mynd E n g e l s t o f t s og versin: „það vorum við Íslendíngar einir, sem þá vorum í Höfn, sem lètum búa til mynd E n g e l s t o f t s. og Egilsen sálugi gerði versin neðan undir fyrir tilmæli mín. En Vigfús Eiríksson og Þorsteinn Helgason (báðir nú, 1854, sálaðir) voru af okkur valdir til að

sagði, eg mundi víst kunna að tala mörg túngumál. Eg sagðist ekki kunna að tala nema íslenzku. Eg spurði, frá hverjum eg ætti að heilsa Stephensen. En hann sagðist heita *Gjessing*. Nú gekk eg minn veg, og upp að Gufuskálum (svo kalla eg gufubátaskrifstofuna) með leiðarbrèfið, og fèkk mèr far með *Iris* til Áróss. Nú get eg eingu bætt hèr við, fyrr en eg kem aptur, lofi guð, frá Eplatóttum . .“

Frá 13. d. septemberm. til 22. s. m. var Sveinbjörn í Jótlandsför sinni til Eplatótta; því 23. s. m. segir hann svo í framhaldi hins sama brèfs: „Áðr en eg fór til Eplatótta, leigði eg mèr hèr herbergi í „Lille Helliggeistes Stræde, No 157“, á 3. loptsal; eg flutti í dag (þ. 23. september) frá gesthúsinu norræna („Hotel du Nord“) og híngað. Rètt fyrir framan gluggana mína er Heilagsanda-kirkja. Eg horfi ofan í kirkjugarðinn, sem liggur fyrir neðan gluggana, hinu megin strætisins. . . Þegar eg kom hèr upp, datt mèr þessi vísa í hug:

*Eg horfi niður í dimman dal* (118. bls.).

Nú fer eg að segja frá ferðinni til Eplatótta. Eg fór þann 13. september á gufuskipinu *Iris* (160 lesta skipi) kl. 6 um morguninn í bezta veðri; þar

---

færa Engelstoft hana. En versin komu út tárunum á karlinum (Engelstoft), svo hann spurði mjög hrærður, hver Íslendíngur þá væri svo gott latínuskáld; var honum þá sagt, hver kveðið hefði, og virti Engelstoft það ávalt síðan við Sveinbjörn, meðan þeir lifðu báðir“. Þeir skrifuðust á, og sagði Sveinbjörn, að hann hefði ráðið sèr ýms heilræði.

voru á framundir 80 manns, sem voru ferðamenn; þar á meðal kansellíráð Jón Finsen og frú hans. Við komum til Áróss á Jótlandi kl. $5^3/_4$ um kvöldið; það eru hèr um bil 26 vikur sjóar frá Kaupmannahöfn. Eg var um nóttina hjá Finsen. Þ. 14., á sunnudaginn, skoðaði eg dómkirkjuna, og sammældist við mann, sem ætlaði daginn eptir á luktum vagni til Eplatótta. Um miðdegi var heimboð hjá Finsen, og um kvöldið spiluðum við. Þann 15. fèkk *Madsen*, sem eg ætlaði með, boð, að bíða í Árósi til miðvikudags, svo eg rèð af að bíða líka. Þann 16. var eg við *examen* í grísku í latínuskólanum frá kl. 9 til kl. 1. Svo gekk eg út í bæinn með Finsen og Þóru dóttur hans, sem er falleg stúlka. Þann 17. fór eg frá Árósi kl. $4^1/_2$ e. m., með *Madsen* á luktum vagni, til Eplatótta; feingum við fyrst gott veður, en um kvöldið æði mikið regn, svo við gistum á leiðinni í *Rönnekro;* það er við botninn á *Kallövig.* Þá eru $2^1/_2$ míla til Eplatótta. Þann 18. fórum við á stað kl. 5 f. m. frá krónni, og komum kl. 8 f. m. til Eplatótta. Eg lèt fylgja mèr frá pósthúsinu til Ó. Stephánssonar, yfirádítörs og bæarfógeta. Fagnafundir urðu nú miklir. Hann hefir umbreyzt æði mikið, því hann er orðinn feitur nokkuð; mannúðleiki hans, ljúfmennska, glaðværð og orðfyndni var hin sama, sem eg átti von á. Mjög stirður var hann orðinn í íslenzku, en smá-liðkaðist í henni. Hann sýndi mèr öll hús sín og garð, sem er ágæta-fallegt. Hann á 7 syni og 1 dóttur, sem heitir Ólavía. Elzti sonur hans, sem hann

sagði vera gáfaðastan, hafði ei lyst til bóknáms, og er nú sjómaður. Kona Ólafs er hreinlegur kvennmaður, altèleg og hispurslaus. Eg var í Eplatótt föstudaginn og laugardaginn; voru þá veizlur hjá honum á kvöldum. Að skilnaði gaf hann mèr beinstaf með húni af raf, og sagði það skyldi vera til minníngar[1]. Hann kom mèr og ókeypis á vagn með manni til Áróss aptur, og ók eg með honum þann 21., á sunnudaginn, til Áróss, frá kl. 9 um morguninn, til kl. 6 um kvöldið. Var eg hjá Finsen um nóttina, tók svo leiðarseðil með *Iris,* og fór á mánudaginn, þann 22., til Kaupmannahafnar; komum við þar í myrkri, og var eg um nóttina í gesthúsinu, en flutti mig daginn eptir híngað, eins og eg hefi áður sagt".

Eptir það Sveinbjörn kom aptur úr Jótlandsför þessari, hèlt hann kyrru fyrir í Kaupmannahöfn veturinn 1845—46, og var til húsa í Heilagsanda stræti hinu minna, þar sem hann segir áður frá í brèfinu. „Þann 17. nóvember. næstl.", segir hann í brèfi til konu sinnar, dagsettu 1. d. aprílm. 1846 „gat eg náð konúngsfundi og tókst mèr það alllaglega; viðtalið stóð hèr um ¼ stundar"[1]. Þenna vet-

---

[1]) Þenna staf kallaði Sveinbjörn ýmist Ólafs-staf, eða Ólafs-naut, eða þá stafinn Ólafsnaut, og bar þessa dýrmætu vinargjöf að eins, er hann hafði mest við. Um hann hefir hann og kveðið þessar tvær vísur:

Beinvölur, sem beiddi mig (og)
Læt eg Ólafs- styðja -staf, (108. og 109. bls.).

[1]) Sbr. vísurnar á 118. og 119. bls.

ur kynti hann sèr háttalag skólanna í Kaupmannahöfn og skólastjórn; enda gafst honum færi á því, því svo leið megnið af vetrinum, að ekki komst skólastjórnarráðið til að líta á skólamálefni Íslands. Um það fer Sveinbjörn þessum orðum í nýnefndu brèfi: „Skólastjórnarráðið hefir alt af verið önnum kafið í að laga Danmerkurskóla eptir bráðabyrgðarreglugjörðinni (provisorisk Plan). Og fyrst fyrir rúmri viku eru þeir búnir að ljúka við það mál, og eru teknir til við skólamálið okkar. . . Af öllum lotum álít eg víst, að þeir ætla mèr rektoratið (skólameistara-embættið), og núna um daginn sendi etazráð *Hansen* (sem eiginlega er sá, sem mest og eingaungu starfar nokkuð) mèr öll bónarbrèf landa minna, sem sókt hafa um embætti við skólann". Þar að auki svaraði Sveinbjörn bæði skriflega fyrirspurnum *Hansens* viðvíkjandi skólanum, og átti optar en einu sinni samræður við hann um þau mál. 13. d. aprílm. var þessum málum svo lángt komið, að konferenzráð *Engelstoft* sagði Sveinbirni skýlaust, að skólastjórarnir ætluðu að stínga upp á því við konúng, að Sveinbjörn yrði rektor, H. Scheving yfirkennari, B. Gunnlaugsson fyrsti undirkennari, og Konráð Gíslason annar undirkennari. „Upp á öllu þessu var eg búinn að stínga", segir Sveinbjörn enn í sama brèfi, en þó hafði hann eigi sókt um rektorsembættið, og að hann hafi álitið því embætti eins og troðið upp á sig, sèst ljósast á vísunni:

*Láti þau mig í Lectors stað* (109. bls.).

þessar uppástúngur skólastjórnarráðsins um embætta-veitínguna við Reykjavíkurskóla samþykti konúngur 27. aprílm., og þá er skólameistara-skrá Sveinbjarnar dagsett. En „24. d. s. m. hafði konúngur úrskurðað, að hinn íslenzki latínuskóli skyldi flytjast frá Bessastöðum til Reykjavíkur á í-hönd-faranda sumri, og skólakennslan byrja þar 1. októberm. s. á., samkvæmt þeirri reglugjörð, sem skólastjórnarráðið hafði samið“[1].

Meðan þessu fór fram í skólastjórninni, lá rektor Sveinbjörn í mislínga-sótt þeirri, er þá gekk um vorið í Kaupmannahöfn, „frá 19. d. aprílm. til 14. d. maím.“ En bæði hlauzt það af drætti þeim, sem orðið hafði á úrslitum skólamálsins, og síðan af þessum sjúkleika rektors, að þegar hann var orðinn ferðafær eptir leguna, var hann orðinn eptir af flestum skipum, sem áttu að fara til suðurlands-kaupstaðanna á Íslandi það vor, nema skipi *Knudtzons* stórkaupmanns, Gylta Jóhannesi, er *Christensen* var skipari á; með því skipi tók hann sèr far út híngað, og var liðugar 3 vikur á leiðinni. Hann stè á skip 29. dag maím., affángadag hvítasunnu, og getur hann þess í vísum þeim, er hann orti á þessari ferð:

*Varla sopið alt er öl* (121. bls.) og

*Jóhannes með laungu lot* (122. bls).

Hann kom út í Hafnarfirði 23. d. júním., daginn fyrir Jónsmessu, „gekk til Garða og þaðan heim;

[1]) Sbr. „Skólaskýrslu 1846—47“, 3. bls.

guði sè lof"[1]. Þegar hann kom heim, lá kona hans og nálega öll börnin og heimamenn hans í mislíngaveikinni, sem hann hafði sjálfur legið í áður um vorið; hún hafði komið út með skipum; svo hann átti að því leyti kalda aðkomu heima. En bráðum auðnaðist honum að sjá alla sína heila á húfi.

Þetta sumar sem rektor Sveinbjörn kom út, var hann nokkuð áhyggjufullur um fyrirkomulag skólans og niðurröðun á ýmsu, sem hann snerti; því að færra hafði hann feingið fram, en hann vildi, um veturinn, og sumum hlutum öðruvísi hagað, en hann ætlaðist til og haganlegast var. Jók það og ekki alllítið á áhyggju hans, að Konráð Gíslason kom ekki út híngað, sem ætlað var, á því sumri; því hann hafði feingið leyfi til að vera vetrarlángt (1846—47) kyr í Kaupmannahöfn. En þegar örvænt var orðið um, að Konráð kæmi í tækan tíma, „settu stiptsyfirvöldin, yfirumsjónarmenn skólans, *candid. theol.* Jens Sigurðsson sem undirkennara í stað Konráðs, en *candid. theol.* Sigurður Melsteð var áður settur um sumarið af stiptsyfirvöldunum, sem 3. undirkennari skólans, svo að kennslan gæti þó byrjað, eins og ásett var, 1. októberm. 1846". Enn þótt kennararnir yrðu þannig eins margir, og til hafði verið ætlazt, þá var þó ekki alt feingið með því; því að hin daglega umsjón skólans varð rektor

[1]) Þetta eru niðurlagsorð minnisblaða þeirra, er rektor Sveinbjörn hefir skrifað yfir ferð þessa; þeim er hèr slept, af því þau eru að eins innviðirnir úr ferðasögunni.

erviðust, og honum nálega gjört ómögulegt að hafa hana. Svo hafði sumsè verið tilætlað, að tveir einhleypir undirkennarar væru til húsa í skólanum, auk dyravarðar, en rektor Sveinbirni var synjað þar um húsavist, og hafði hann þó tvívegis farið þess á leit við skólastjórnina, að fá húsnæði í skólanum, og varð hann því að búa niðri í bæ. Með þessari tilhögun var honum ekki auðið að hafa svo nákvæmt eptirlit, sem þurfti, á skólanum, háttsemi pilta og allri skólareglu; af þessu flaut, að rektor varð að sjá margt af því, sem í skólanum fór fram, með annara augum, en öll hin nákvæmari umsjón hlaut að leggjast á þá kennarana, sem í skólanum voru.

Í janúarm. 1850 gerðu skólapiltar hinn alkunna samblástur móti rektor og kennurunum, og var það hvortveggja, að um það leyti voru einna mestar frelsishreifíngar hèr á landi, enda var þá eigi tekið svo í taumana af stiptsyfirvöldunum, sem þurft hefði. Þetta sýndi sig bezt í því, að yfirumsjónarmenn skólans treystust ekki að fylgja ráðum rektors í að stöðva uppnám þetta. Þegar rektor sá það, gerði hann sèr lítið fyrir og sigldi í þriðja sinn með póstskipi[1], er hèðan fór 13. marzm. s. á. Sóktist sú ferð seint, einkum þegar fram í sókti. Þeir komu til Færeyja 21. d. s. m., en fyrir andviðri urðu þeir að hleypa inn til Randar-

[1]) Í fjærvist rektors settu yfirumsjónarmenn skólans yfirkennara Dr. H. Scheving, til að gegna rektors-störfum, það sem eptir var skólaársins.

sunds í Noregi, og komu þar þann 30. Þaðan er skamt til Kristjanssands, og þángað fór rektor Sveinbjörn daginn eptir með *Aanensen* skipara og öðrum farþegum, er á póstskipinu voru. Hálfan mánuð lágu þeir veðurteptir í Randarsundi, en komu 18. d. aprílm. til Helsíngjaeyrar, og fóru daginn eptir með gufuskipinu *Opheliu* til Kaupmannahafnar.

Þegar rektor Sveinbjörn kom til Kaupmannahafnar, var öðruvísi litið á mál hans, en hèr á landi hafði verið gert af sumum, því „af skólastjórnar-ráðherranum var hann settur aptur í öll sín rèttindi óskert“. Þegar hann hafði af lokið þessum málum sínum í Kaupmannahöfn, fór hann út híngað aptur, og „kom þann 31. maím. til Vestmanneyja, var þar í 5 daga, og kom 6. júním. til Reykjavíkur“. Ekki tók hann neinn þátt í vorprófinu, sem haldið var í skólanum í þeim mánuði, eða í neinum skólastjórnarstörfum, fyrr en í burtfararprófi þeirra fjögra, sem undir það geingu í byrjun ágústm. s. á.; því að hann áleit þann vetur, eins og líka mátti, gagnslausan fyrir pilta, þar sem lesturinn hafði farið út um þúfur um veturinn og fáir geingu undir vorprófið 1850.

Næsta skólaár (1850--51) hafði rektor Sveinbjörn öll rektorsstörf á hendi, og bar ekki á öðru, en allt færi vel; því aldrei varð þess þá vart, að neitt skærist fyrir af hálfu pilta, enda var rektor öllum lokið, þegar hann varð var við hina sömu velvild þeirra til sín, sem hann ávalt að undan-

förnu hafði maklega áunnið sèr. Um haustið 1850 var óvanalega mikill fjöldi manna, þeirra er að piltum stóðu, bæði hèðan úr bænum og í grend við hann, viðstaddur, er rektor setti skólann 1. d. októberm., því að sumir bjuggust við, að hann mundi þá minnast í ræðu sinni hins undanfarna. En heldur brást mönnum þessi ætlun, því hann hafði fyrir ræðuefni: *sambandið milli dygðar og þekkíngar*, og minntist einskis hins umliðna, nè heldur í ræðu þeirri, er hann hèlt vorið eptir, 30. d. júním. 1851, er hann sagði upp skóla, því efnið í henni var: *hversu skilnaður lærisveina hvers við annan gæti mint á lífsins óstöðugleik, og hvatt til þess, að verja vel samverutímanum, og búa sig undir sína ákvörðun*[1]. Þetta var skilnaðaræða hans, er hann kvaddi skólann, samkennara sína og lærisveina; því 1. d. septemberm. 1850 hafði hann sókt um lausn frá rektorsembættinu, og fèkk hana með 900 rdl. eptirlaunum frá 1. júlím. 1851, er honum var tilkynt með brèfi skólastjórnarráðherrans dagsettu 16. júním. s. á. En alt um það gegndi hann þeim rektors-störfum, sem gegna þurfti, framt að mánuði eptir það að rektor Bjarni Johnsen var kominn út híngað, 9. d. ágústm.; því rektor Johnsen tók ekki við dómsbókum *(Censur-Protocoller)*, vitnisburðarbókum *(Charakter-Protocoller)* nè öðrum skjölum og brèfum, sem skólann snertu, fyrr

[1]) Sbr. „Skólaskýrslu, 1850—51", um báðar þessar ræður. Síðan hafa hvorki verið haldnar ræður við skólasetníngu nè uppsögn af kennurunum, nè heldur samin skólaboðsrit.

en 4. dag septemberm., svo að rektor Sveinbjörn varð auk burtfararprófsins, sem hann hèlt frá 2. —11. júlím., og auk þess að hann samdi skólaskýrsluna (1850—51), að semja uppástúngur til stiptsyfirvaldanna, bæði um veitíngu á skólaölmusunum[1] og um inntöku nýsveina í skólann, og þess vegna „sókti hann 12. d. ágústm. s. á. um, að mega halda fullum rektorslaunm einnig fyrir júlí og ágúst, auk eptirlaunanna frá 1. júlí". En það veittist ekki.

Með þessu enduðu embættisstörf Sveinbjarnar eptir dygga þjónustu í skólans þarfir í þrjátíu og tvö ár, fyrst sem undirkennari við skólann á Bessastöðum í 27 ár, og síðan sem rektor við Reykjavíkurskóla í 5 ár. En þó skólinn misti þannig af ágætum kennara, þar sem hann var, er einginn lærisveinn gat annað en elskað og virt fyrir einstaka alúð og frábæran lipurleik í því að kenna, þá var hann þó búinn að búa svo í haginn, að lærisveinar latínuskólans munu ávalt, meðan lærður skóli er á Íslandi, hafa orsök til að unna honum og minnast hans með þakklátsemi, og skal hèr nú með fáum orðum getið, hvernig hann á hvortveggja skilið, jafnframt og það er vottur um hina stöku iðjusemi hans, og getur um leið verið til vísbendíngar um það, á hverjum þýðíngum menn geti átt von í ritum hans með tímanum. Er það þá auk útleggíngarinnar á Ilíons-kviðu, sem prentuð var í Reykjavík 1855, og Odysseifs-drápu, sem áð-

[1]) Sbr. „Skólaskýrslu, 1851—52", 28. bls.

ur er getið að hafi verið prentuð í boðsritum Bessastaðaskóla árin 1829—1840, þær sem nú skulu greindar:

1. *„Odysseifs-kviða“*, er hann yfirfór að nýu, og endurbætti þýðínguna á 13 fyrstu þáttunum, og breytti um leið nafninu.

2. *„Sjö hershöfðíngjar móti Þebu“* (Ἑπτὰ ἐπὶ Θηβας), sorgarleikur eptir *Eskýlus*[1].

3. *„Minnisverð samtöl Sókratess“* (*Memorabilia Socratis*) öll, nema 4. bókar 7. kapítuli.

4. *„Austurferð Sýrusar“* (*Xenophontis Anabasis Cyri*); af henni er til í eiginhandarritum hans svo sem svarar tveimur bókum rúmlega, en margar aðrar afskriptir af sumum hinna.

Samtöl eptir *Platon:*

5. *„Málsvörn Sókratess“* (*Apologia Socratis*) öll.

6. *„Kriton“*, allur.

7. *„Fædon“*, brot, 13 kapítular.

8. *„Menon“*, 6 kapítular í eiginhandarriti, en alt samtalið út, 42 kapítular, í öðrum afskriptum.

9. *„Alkibíades annar“*, allur í öðrum afskriptum.

Samtöl eptir *Lúkíanus:*

10. *„Tímon“* (mannhatarinn) allur, í öðrum afskriptum.

---

[1]) Sbr. „Skólaskýrslu, 1848—49“, 8. bls. þar sem ekki er nefnt handrit, eru til eiginhandarrit; en þar sem stendur “í öðrum afskriptum“, eru það afskriptir lærisveina hans úr skóla.

11. *„Contemplantes“* (áhorfendurnir), í öðrum afskriptum.

Æfisögur eptir *Plútarkus:*

12. *„Alexander mikli“* allur.
13. *„Kajus Júlíus Sesar“* allur.
14. *„Fókíon“*, brot, 22 kapít.
15. *„Þemístokles“*, 8 kap. í eiginhandarriti, en allur, 32 kap., í öðrum afskriptum.
16. *„Kamillus“* allur, í öðrum afskriptum.
17. *„Krestomathia Nissens“;* meiri hluti hennar er til í eiginhandarriti, en öll í öðrum afskriptum, nema öptustu kaflarnir úr Polýbíus.

Fleiri þýðíngar griskra rithöfunda hafa enn eigi feingizt eptir Sveinbjörn, en þó vita menn til, að hann hefir lesið fyrir í skóla þýðíngu yfir *„Evþýfron“* eptir *Platon*, yfir *„Drauminn“*, *„Hljóðstafaþíngið“*, *„Promeþeif“*, *„Goða samtölin“*, *„Samtölin í dauðraríki“*, *„Sölu heimspekínganna“* og *„Fiskimanninn“*, alt eptir *Lúkíanus*, háðfuglinn mikla. Og þó má vel vera, að til sèu enn fleiri þýðíngar, svo sem yfir *Heródótus*, er hann fór að lesa, eptir að skólinn var fluttur inn í Reykjavík, eða yfir suma af þeim rithöfundum, er hann hefir lesið á Bessastöðum fyrir veturinn 1825—26[1].

Ekki var það þó einúngis með þýðíngum þessum, sem Sveinbjörn gerði lærisveinum sínum ómet-

[1]) Til eru minnisblöð Sveinbjarnar, er hann hefir skrifað í, hvað hann hafi kent á hverjum vetri á Bessastöðum frá því um haustið 1825, og til þess um vorið 1845, nema veturinn 1826—27.

anlegt hagræði, því að fyrir víst 7 fyrstu árin, sem hann var kennari á Bessastöðum, samdi hann fyrirlestra yfir veraldarsöguna á íslenzku og las fyrir; er margt af þeim til enn bæði í eiginhandarritum og þó enn fleira í uppskriptum lærisveina hans[1]. Þessa fyrirlestra samdi hann frá stofni, og má fullyrða, að hann hafi mestmegnis fylgt sjálfum rithöfundum Grikkja og Rómverja í gömlu sögunni, sem svo er nefnd. En hverjum, sem skyn ber á slíka hluti, gefur að skilja, að eins og sagan verður þá áreiðanlegust, þar sem frumhöfundanna er leitað, eins muni sú aðferð verða erviðust og fyrirhafnarmest fyrir þann, sem semur sögur. Í norðurlandasögunni (Danmerkur, Noregs og Svíaríkissögu) hefir hann og alls ekki fylgt sögu-ágripi A. Kalls, nè heldur í Einglands eða Prússasögu; því af handritum þeim, sem eg hef sèð af þessum fyrirlestrum hans, er ekki að sjá, að hann hafi farið að fylgja því, fyrr en veturinn 1825—26, en lesið þá þó fyrir þann vetur; en líkast er, að hann hafi hætt fyrirlestrum veturinn 1826—27. Þessir fyrirlestrar þóktu svo skemtilegir, að einn af lærisveinum Sveinbjarnar, sem var í skóla eptir það, að hann hætti að lesa fyrir, hefir sagt mèr, að hann hafi aldrei getað feingið af sèr að lesa veraldarsöguna, fyrr en hann komst í þá. Þetta tvent, þýðíngar hinna grisku rithöfunda og fyrir-

[1]) Má einkum þar til nefna prestinn sèra S. B. Sivertsen á Útskálum, sem með mikilli ástundun hefir safnað og skrifað upp alla sögufyrirlestra Sveinbjarnar, er hann hefir yfirkomizt og margt fleira eptir hann, bæði skólaræður og útleggíngar.

lestrarnir yfir söguna, vann hann mestmegnis í skólans þágu, auk þess sem hann vann fyrir hann að útgáfum ýmsra fornkvæða í skólaboðsritunum, sem þegar verður getið, og sýnir þetta alt, hvílíkur iðjumaður hann var, og hversu ótrauður og fús að vinna bæði seint og snemma, þó ekki væri fyrir öðrum launum að gángast, en þeim, sem vel afiokið starf veitir sèrhverjum samvizkusömum og góðum manni. Að svo mæltu hverfum við þá til fornfræðastarfa hans, er ávalt voru einhver inndælasta sýslan hans.

Snemma beygðist krókurinn að því, sem verða vildi, fyrir Sveinbirni með fornfræðina, og má sjá það á sumum vísum þeim, sem til eru eptir hann, áður en hann sigldi 1814, að hann hefir verið orðinn kunnugur Eddu, og hefir þá líka beitt henni, og kveðið myrkara, en að öllum jafnaði síðan (sbr. 88.—89., 100., 103. bls. Ljóðmælanna, og latínsku þýðínguna á: „Einn drottin hefig áttan“, 286. bls.). Þar að auki hefir sannorður maður sagt mèr, að hann hafi sèð eptir hann skýríngar yfir kvæði og vísur Egils Skallagrímssonar, er hann hafði samið, áður en hann sigldi í fyrsta sinni. Og að hann hafi þókt líklegur til fornfræða, jafnvel þegar er hann var við bóknám í Kaupmannahöfn, sèst af því, að hann var einn af þeim, sem bókmentafèlagsdeildin þar fól á hendur að starfa að útgáfunni af Sturlúngu, sem segir á XVIII. bls. í formálanum fyrir fyrra bindi hennar, Khöfn 1817. Þó fráskákaði hann sig ekki annað við fornfræðina, en það sem hann gerði að Sturlúngu, þángað til hann var búinn að

taka embættisprófið í janúarm. 1819; en þá sló hann sèr að henni fyrir alvöru. Hann sagði sjálfur, að hann hefði þá ekkert haft að gera eptir prófið, til þess um vorið, og sagðist hann þá hafa hlaupið í og afskrifað auk annara miklu fleiri handrita bæði á bókasafni háskólans og konúngs, er hann hefir tekið afskript af og látið eptir sig[1], skinnbókina nr. 61 í arkarbroti í handritasafni Árna Magnússonar; en á henni er saga Ólafs konúngs Tryggvasonar, og eptir þeirri afskript hans er sú saga prentuð í I.—III. bindi af Fornmannasögum[2]. Af því að það varð

[1]) Þær afskriptir eru þessar:

1. „Fagrskinna“ (msc. leg. Arnæmagn. nr. 52, og) „úr Hrokkinskinnu“ (bókin er nú alls 454 bls., og þó skorið aptan af).
2. „Ágrip af Vígastyrssögu, skrifað fyrst 1729 en síðan aukið 1730“ (þar á eptir kemur það, sem til er af Heiðarvígasögu upphafi).
3. „Þáttr af Rauðúlfi ok sonum hans“.
4. „Arnmæðlíngatal“.
5. „Schedæ Ara prests“.
6. „Saga Gull-Þóris (ex membr. in 4°, nr. 561 B.)
7. „Af Einari Sokkasyni, eþr Grænlendínga-þáttr“.
8. „Þáttr af Sigurði konúngi Slefo syni Gunnhildar“.
9. „Þáttr af Þorsteini Stángarhögg“.
10. „Saga af Þorsteini hvíta“.
11. „Saga Gunnars Þiðrandabana.
12. „Úr sögu Þorsteins Síðuhallssonar (ex membr. bibl. reg. Nr. 6, 7 og 8 eru allar með nafnaregistrum).

[2]) Sbr. formála I. bind., 15. bls., og formála III. bind., 6. bls.

kunnugt, að Sveinbjörn skrifaði upp sögur þessar eptir skinnbókunum, og af því að fornfræðafèlagið, sem stofnað var 6 árum síðar, 28. janúar 1825, notaði þetta handrit hans af sögu Ólafs konúngs, til að prenta eptir, dregur Baldvin heitinn Einarsson þá líklegu ályktun[1], að Sveinbjörn hafi verið frumkvöðull til þess, að fornfræðafèlagið væri stofnað; en hvað sem því líður, er og verður hitt þó allajafna víst, að bæði var hann í fornfræðanefnd þess fèlags, frá því hún var fyrst stofnuð, og vann fyrir fèlagið og Árna Magnússonar nefndina, meðan honum entist aldur til, og er alt það merkilegast, sem hann hefir að því fèlagi unnið því til sóma.

Fyrst skal þess getið, að hann starfaði að latínsku þýðíngunni á Fornmannasögum, I.—XI. bindi, fyrir fornfræðafèlagið. En öndverðlega var svo til ætlazt, að Dr. Gísli Brynjólfsson skyldi snúa íslenzka textanum á latínu, en Sveinbjörn skyldi að eins snúa vísunum á latínu, og færa þær til rètts máls. En með því sèra Gísli átti önnum að gegna og varð heldur til skammær[2], var hann ekki kominn leingra með þýðíngu sína, en aptur að 98. kap. í I. bindi, þegar fornfræðafèlagið fól Sveinbirni á hendur að taka við af honum 1826; en þá var Sveinbjörn búinn að þýða vísurnar í þremur fyrstu bindunum og færa þær til rètts máls árin 1824 og

---

[1]) Í kappriti sínu móti prófessor Rask: „Gjensvar i mod Gjensvar, Kh. 1831“, á 33 bls.; sbr. og kapprit Rasks: „Gjensvar på Baldvin Eeinarsons „„Forelöbige Svar““, Kh. 1831“, á 19. bls.

[2]) Hann dó 26. d. júním. 1827; sbr. Ljóðm. 42. bls.

1825; en hvernig sem á því hefir staðið, þá var hann þar að auki búinn að snúa 70 kap. framan af I. bindinu á latínu. En á næstu tveimur árum (1826—1827) lauk hann við fyrsta bindið frá 97. kap., og svo bæði II. og III. bindið. Þýðíngu sèra Gísla hefir hann að mestu fylgt frá 70. kap. til 98., og þar að auki hefir hann bætt við bæði ættartölum og áraröð[1]. Síðan leysti hann þýðíngu hinna átta bindanna smámsaman af hendi, svo að Fornmannasögur I.—XI. bindi voru fullprentaðar á latínu 1842[2]. XII. bindinu snèri hann ekki[3]. En auk þess, sem áður er getið, hefir hann samið alt að því $^3/_4$ XII. bindisins af íslenzka textanum; því þar er eptir hann í: „Ríkisár Noregskonúnga (frá 861—1263) og Danakonúnga (frá 842—1259) og áratal markverðustu viðburða á Norðurlöndum frá 851 til 1273; vísur í Fornmannasögum færðar til rètts máls; registur yfir hluti og efni og orðatíníngur“[4].

Jafnframt þessu samdi hann og orðabók yfir hið forna skáldamál norðurlanda með latínskum þýðíngum, einnig fyrir fornfræðafèlagið. Á því starfi hefir hann verið byrjaður 1824, ef ekki fyrr, því

[1]) Sjá formála I. bindis í latínsku þýðíngunni á XIV. og XV. bls.

[2]) Latínski titillinn á þeim er: Scripta historica Islandorum de rebus gestis veterum Borealium, latine reddita et apparatu critico instructa, opera et studio Sveinbjörnis Egilssonii.

[3]) Það gerði Dr. Grímur Thomsen.

[4]) Sbr. formála fyrir XII. bindinu af ísl. textanum.

hann segir svo í brèfi einu, dagsettu 27. júlí s. á. til vinar síns í Kaupmannahöfn[1]: „Jeg hafði beðið Jón Brynjólfsson[2] sál. að skrifa upp fyrir mig vísurnar úr Kórmákssögu, Björns Hítdælakappa og Gísla Súrssonar eptir góðum *Codicibus* (skinnbókum), sem Rask lofaði að vísa á, og vera hjálplegur til að lesa úr, ef á lægi. Nú tók guð Jón; eg held hann hafi ekkert verið búinn að skrifa; enda þó nokkuð hefði verið, mun eg hafa sèð þess síðasta. Ekki viltu *troða inn* í hans stað, þá á milli væri fyrir þèr; eg er að safna til *poëtisks lexicons,* en get ekki haldið út að stríða við bálvitlausar afskriptir, og vildi því fá þær svo rèttar, sem eg gæti“. Við þetta starf fèkkst hann í full tuttugu ár með allri þeirri elju og alúð, sem honum var lagin; því 6. d. marzm. 1844 segir prófessor Rafn í brèfi til hans: „Það er mèr einkar kært, að mega nú eiga von á byrjuninni af orðabókinni yfir skáldamálið forna, er þegar mun verða prentuð“. En bæði þetta ár (1844) og 2 hin næstu á eptir mun Sveinbjörn hafa sent og afhent fèlaginu orðabókina; því veturinn 1845—46, þegar hann var utanlands í annað sinn, ætla eg hann hafi sjálfur skilað því, sem áður var óbúið af henni. En svo dó hann, að hann fèkk ekki þá ánægju að sjá einn staf prentaðan af þeirri bók; því fullum mánuði eptir fráfall hans 18. d. septem-

[1]) Líklega er það brèf skrifað sèra G. sál. Oddssyni.

[2]) Bróður sèra Gísla Brynjólfssonar; hann dó í Kaupmannahöfn 14. desemberm. 1823, sbr. „Ísl. sagnablöð, 8. deild“ í 50. og 51. dálki.

berm. 1852, er þess getið í blöðum Dana, að „fornfræðafèlagið hafi fallizt á, að láta byrja að prenta orðabók Drs. S. Egilssonar yfir hið forna skáldamál“[1].

Um leið og Sveinbjörn samdi þessa hina meiri orðabók yfir fornskáldamál norðurlanda, bjó hann og til aðra minni sams konar með íslenzkum þýðíngum. Er sú orðabók enn óprentuð í tveim bindum í stóru 8 blaðabroti, á 42½ örk, auk skammstafana og stafrófsraðar, er hann hefir fylgt. Auk þessara orðabóka beggja, sem nú eru taldar, hefir hann enn samið sèrstaka orðabók með latínskum þýðíngum yfir Snorra-Eddu, um leið og hann snèri henni á latínu fyrir Árna Magnússonar-nefndina, færði öll kvæðin í henni og vísurnar til rètts máls og skýrði þær, auk fjöldamargra merkilegra og skarpviturra athugasemda við torskilda staði[2]. Aptan við þessa orðabók yfir Snorra-Eddu hefir hann og safnað orðum úr I. og II. bindi af kirkjusögu Íslands eptir Finn biskup. Þá hefir hann safnað orðum í 2 hepti í 4 blaðabroti, úr 14 Íslendínga-

---

[1]) Sbr. „Antiqu. Tidsskr. 1849—1851“, á 212. bls. Fyrsta heptið af orðabók þessari var fullprentað 1854; það nær frá A til GILDR, og er titillinn þannig: Lexicon poëticum antiquae linguae septentrionalis conscripsit Sveinbjörn Egilsson.

[2]) Sbr. „Antiqu. Tidsskrift 1846—48. Khavn“, á 132. og 133. bls., og V. bls. í formála fyrir Snorra-Eddu. „Tom. prim. Hafniae, 1848“, sem megnið af latínsku þýðíngunni er prentað í, og aptur að 249. bls. í sömu bókar „Tom. secund. Hafniae 1852“. En rèttmálsröð vísnanna og skýríngar þeirra er ætlazt til að verði í „Tom. tert“; sbr. „Antiqu. Tidsskr. 1849—1851“ á 217. bls.

sögum á öðru, en úr 43 sögum og söguþáttum á hinu, bæði úr Íslendíngasögum og Noregskonúnga; er flest af þeim orðum skýrt annaðhvort á íslenzku eða latínu, en nokkur eru og skýríngalaus. Þá eru enn til ýms fleiri orðasöfn eptir hann í stafrófsröð, t. d. úr „Norges gamle Love. 1. Bind. Christiania 1846" og „Frumpörtum íslenzkrar túngu", að ótöldum öllum hinum mikla fjölda af nafnaregistrum, bæði yfir fornsögur (mannanafna-registur viðurnefna og örnefna) og yfir bæanöfn á Íslandi, bæði eptir „Landaskipunarfræðinni", sem bókmentafèlagið lèt prenta um árið, og eptir „Jarðatali Johnsens". Þá er hin þriðja tegund þessara registra „Nafnaregistur yfir Pásanías" (þ. e. yfir lýsíng hans á Grikklandi). Ekkert af orðasöfnum þessum eða nafnaregistrum er enn prentað.

Eptir það að Sveinbjörn varð rektor, skýrði hann mikinn fjölda fornvísna; þá samdi kann „*Skýríngar yfir vísurnar í Snorra-Eddu*" með fleiru, sem þar að lýtur, á íslenzku, og er það handrit fullbúið að kalla, og þessar skýríngar: 1. *yfir vísur í Kórmákssögu*[1], 2. *yfir vísur í Gunnlaugs sögu ormstúngu*, 3. *yfir vísur í Heiðarvígasögu*, 4. *yfir vísur í Droplaugarsona sögu*[2], 5.

[1]) Þessar skýríngar eru í vörzlum fornfræðafèlagsins í Khöfn; þær eru helgaðar minníngu Rasks heitins og eru 133 bls. í 4 blaða broti skrifaðar; sbr. „Antiqu. Tidsskrift 1846—48", á 40. bls.

[2]) Þessar skýríngar eru þær einu af þessum 8, auk skýrínganna yfir Sonatorrek, sem hann hefir samið á íslenzku, en hinar eru á dönsku.

*yfir vísur í Gísla sögu Súrssonar*[1], 6. *yfir vísur í Fóstbræðra-sögu*[2], 7. *yfir vísur í Njálu*, 8. *yfir Sonatorrek Egils Skallagrímssonar*[3], er hann samdi að undirlagi vinar síns, stiptprófasts Árna Helgasonar, 1851. Þá er enn til eptir hann feikimikið fornvísnasafn, sem hann hefir haft við höndina, er hann samdi orðabækurnar yfir fornskáldamál norðurlanda, bæði úr Íslendínga-sögum og fornsögum annara landa, og eru þær vel flestar með miklum orðamun, athugasemdum hans, og nokkrar fullskýrðar á latínu, t. d. *vísur í Eyrbyggja-sögu* og *vísur í Bjarnar sögu Hítdælakappa*, og framan af *vísunum í Grettissögu*, enda hygg eg svo megi að orði kveða, að fáar muni þær fornsögur norrænar, sem hann hafi ekki gert eitthvað að vísunum í. Með öllum þessum 8 fyrnefndu skýríngum hefir hann og samið ártal yfir sögurnar, sem hann hefir skýrt vísurnar í, og reyndar yfir miklu fleiri. Boðsrit þau, er hann gaf út fyrir skólann, og fornfræði snerta, eru þessi, frá því hann var á Bessastöðum:

1. *Ólafs drápa Tryggvasonar*, Viðeyarklaustri 1832;
2. *Brot af Placidus-drápu*, . . samastaðar 1833;

---

[1]) Prentaðar aptan við „Tvær sögur af Gísla Súrssyni. Khavn, 1849“, á 169.—188. bls.

[2]) Verða prentaðar í „Andet Hefte“ af Fóstbræðra-sögu; sbr. „Förste Hefte“ af sömu sögu í formálanum.

[3]) Prentaðar aptan við Egils sögu, Reykjavík 1856, á 257.—270. bls.

3. *Harmsól, Líknarbraut, Heilags anda vísur og Leiðarvísan*, Viðeyarkl. 1844[1].

En fyrir Reykjavíkurskóla gaf hann út:

1. *Snorra-Eddu*, . . . . . . . . . Reykjavík 1848;
2. *Ritgjörðir tilheyrandi Snorra-Eddu*, . . . . . . . . . . . . samastaðar 1849;
3. *Tvö brot af Haustlaung og Þórsdrápu, færð til rètts máls og útskýrð með glósum í stafrófsröð*, . . . . . . . . . . . . . samastaðar 1851.

Enn fremur snèri hann veturinn 1845—46, sem hann var í Kaupmannahöfn, Hervararsögu, hinni meiri og minni, ásamt ýmsum fleiri köflum úr fornsögum, á latínu, og sumarið 1851 landafræðisköflunum úr „Stjórn" fyrir prófessor Rafn[2].

Af því það er fornfræðinni skyldast, skal þess hèr getið, að eptir hann eru til talsverð söfn bæði til íslenzkrar málmyndalýsíngar og rèttritunar, og að hann hefir samið *Bókmentasögu Íslands* fram

[1]) Hið fyrsta af boðsritum þessum (Ólafs-drápu) hefir hann gefið út með „útskýríngum yfir helztu fornyrði og kenníngar og fært vísurnar í þá röð, sem vant er að hafa í sundurlausri ræðu" (sbr. formál. 5. bls.); í öðru boðsritinu (Placídus-drápu) „er og hvert erindi fært í þá röð, sem vant er að hafa í sundurlausri ræðu og víðast bent til kennínga" (sbr. formál. 9. bls.). Í þriðja boðsritinu, sem og kallast „Fjögur gömul kvæði", eru þær vísur og málsgreinir, sem orðaskipunin er flóknust í, sumstaðar færðar í bókmálsröð neðanmáls, og einstöku orð skýrð, og kenníngar settar aptan við með skýríngum.

[2]) Þessar þýðíngar eru og verða prentaðar í „Antiquités Russes et Orientales", sem prófessor Rafn er að gefa út.

á 13. öld[1], *Skáldatal* norrænt og *Registur yfir rektors Hálfdans Einarssonar Sciagraphia,* hvortveggja í stafrófsröð eptir nöfnum kvæðanna eða ritanna og eptir nöfnum skáldanna[2] eða rithöfundanna. Þrent hið síðast talda hefir hann og samið, eptir það hann varð rektor. Þess verður einnig hèr að minnast, þó það sè þessu máli óskyldara, að til eru eptir hann 12 skólaræður, sem hann hefir haldið bæði við skólasetníngar og uppsagnir á Bessastöðum og í Reykjavík, og hin 13. á latínu, haldin á afmælisdag konúngs.

Nú hefir þá verið sýnt um hríð, að Sveinbjörn heitinn var ekki einúngis einhver þarfasti og nýtasti kennari, heldur og að hann hafi ekki alllítið eflt og aukið álit annara þjóða á fornfræði og forntúngu norðurlanda, með því að hann bæði snèri svo merkilegum fornritum á latínu, og svo með því að fá mönnum í hendur lykilinn að hinu forna skálda-

---

[1]) Þetta ágrip samdi hann handa skólapiltum, og las þeim það fyrir veturinn 1847—48; sbr „Skólaskýrslu" s. á. á 11. bls.

[2]) Í skáldatalinu eru tilfærð öll upphöf á vísum hvers skálds, sem þar eru talin, og tilgreint, hvar hver vísa finnist, og víða sett ártalið við, nær vísan hafi verið kveðin. Registrið yfir Sciagraphiuna er svo samið, að þar eru tínd saman í eitt öll rit hvers manns, sem eptir niðurskipun Sciagraphiunnar eru á víð og dreif í henni, og tilgreint, hvar hvers sè getið í henni. Þar að auki er miklu bætt við í registrið bæði eptir árbókum Espolins og athugasemdum Gunnars prófasts Pálssonar., assessors B. Gröndals og Drs. S. Egilssonar sjálfs. Er því hvortveggja þetta einhver bezta hjálp við bókmentasögu Íslands.

máli, þar sem eru orðabækurnar og fornvísna þýðíngar hans, því til skýríngar; en það mál hefir jafnvel flestum Íslendíngum, en þótt lærðir hafi verið, hvað þá öðrum, verið fullfeingið með að skilja, og því munu þau rit hans leingi þykja og það um allan hinn mentaða heim einkar merkileg, og vart munu það öfgar, „að hann hvorki fyrr nè síðar hafi átt sinn jafníngja í fornfræði“.[1]

Enn er eptir að geta þess, að Sveinbjörn ávann sèr á annan hátt mikla sæmd, og ættjörð sinni og samlöndum bæði sóma og þarfa, en það var með því, að hann þýddi ýmsar bækur biflíunnar úr frummálunum (ebresku og grisku) á íslenzku. Þær bækur eru *önnur Mósisbók, Esajas, Ezekíel, Daníel*, allir hinir *minni spámenn* og *Opinberunarbók Jóhannesar;* eru þessar þýðíngar hans prentaðar í síðustu útgáfu biflíunnar í Viðey 1841, og þýðíngin af Opinberunarbókinni bæði áður í Viðeyarútgáfu Nýa Testamentisins, 1825—26, og aptur í Reykjavíkurútgáfu þess, 1848—49. Allar þessar bækur biflíunnar þykja auðþektar úr og bera af hinum, sem hann hefir ekki um fjallað, svo eru þær vel þýddar, og bera, eins og annað, sem hann hefir samið á íslenzku, hvort heldur frumrit eða þýðíngar, órækan vott um það, „að vart hafi nokkur á seinni öldum ritað jafnlipurt íslenzkt mál og fagurt, eða haft það eins í valdi sínu, eða verið eins orðhagur“,[2] sem hann.

[1]) Sbr. „Ræður við jarðarför S. Egilssonar, Rvík, 1855“, 13. bls.

[2]) Sbr. sömu ræður, sama staðar.

Of margt er almenníngi kunnugt orðið af kveðskap Sveinbjarnar, bæði á íslenzku og latínu, til þess að þörf sè að lýsa, hvílíkt skáld hann var; hann lýsir sèr bezt sjálfur. Þó skal geta þess, sem sannorður maður ónefndur hefir sagt mèr, að fremur hefði borið lítið á skáldskap hans framan af, nema í latínumáli, og af sjálfsdáðum hefði hann lært þá ment, nema ef hann hefði notið í því nokkurrar tilsagnar hjá sèra Þorvaldi Böðvarssyni, sem kunni vel að *pangera* (yrkja á latínu), enda eru ekki til eptir hann á íslenzku, frá því áður en hann sigldi 1814, nema 9 vísur ferskeyttar og 7 með fornyrðalagi, en miklu meira að sínu leyti á latínu. Kom þetta með fram af feimni, því að maðurinn var óframur að náttúrufari, og tranaði sèr aldrei fram nè verkum sínum. 1814 til 1819 kvað hann svo að segja ekkert (sbr. XVII. og XVIII. bls.). En frá því hann kom út aptur og hèr um bil til 1830. hefir hann líkast til kveðið mest, og á þeim árum snúið köflunum úr Ilíons-kviðu í íslenzk ljóð; en ekki veit eg með vissu, að hann hafi kveðið nokkurt ár jafnmargar lausavísur, eins og 1845. Alt, sem hann kvað, vandaði hann eins og annað, er hann lagði stund á, sem ítrast varð. Af því hann kvað að eins sèr eða öðrum til gamans, kvað hann sjaldan, nema vel lægi á honum, og aldrei nema í hjáverkum, þángað til 6 síðustu mánuði æfi sinnar; enda hafði hann þá feingið hvíld frá embættisstörfum sínum, og naut þá þess vísindanæðis, sem hann sýndist bezt lagaður til að njóta, en naut þess of

skamma stund. Á þessum sex mánuðum sýndi hann það, að honum lèt skáldskapur ekki miður en önnur ritstörf. Svo stóð á, að sumarið 1851 hafði hann sent prófessor Rafni í Kaupmannahöfn þýðíngu 23. kviðu Odysseifs-kvæðis í ljóðum með brèfi dagsettu 14. ágústm. s. á.; þessa þýðíngu hafði Rafn sýnt ýmsum smekkmönnum ytra, og þar á meðal Jóni Sigurðssyni, skjalaverði og forseta bókmentafèlagsdeildarinnar í Kaupmannahöfn, og hann skrifaði Sveinbirni til með póstskipinu, sem híngað kom 17. d. janúarm. 1852 og bað hann að snúa í íslenzk ljóð allri Odysseifs-kviðu og Ilíons-kviðu fyrir bókmentafèlagið. „Þetta sýnishorn", segir Jón, „sem eg hef sèð, er sú útleggíng Hómers, sem honum sæmir". Auk þessa skrifaði Jón forseta bókmentafèlagsdeildarinnar hèr, prófessor P. Pèturssyni, og bað hann að semja og eiga góðan hlut að því við Sveinbjörn, að hann tækist þetta á hendur fyrir fèlagið. En er prófessor P. Pètursson bar þetta fyrst upp við Sveinbjörn, færðist hann undan, og kvaðst ekki fær um slíkt, eins og honum var hætt við, ef hann þóktist ekki vera maður til að leysa hlutinn svo af hendi, að hann gæti sjálfur verið ánægður með hann í alla staði. Leið svo enn nokkur tími, að hann gerði ekki bókmentafèlaginu nè forseta þess neinn kost á þýðíngunni, fyrr en 4. d. febrúarm. Enn þótt hann hefði eingu snúið í ljóð af Odysseifs-kvæði fyrri en þá, nema 23. kviðunni, afhenti hann forseta bókmentafèlagsins 29. s. m., eða hálfri fjórðu viku síðar, 1.—3. kviðu, og 249 erindi framan af

4. kviðu, útlagða í íslenzk ljóð, til að senda með póstskipinu til Kaupmannahafnar í marzm. þetta var prentað þar um sumarið ásamt því, er hann sendi í maím. En að kvöldi 2. dags ágústm. s. á. hafði Sveinbjörn lokið við 18 fyrstu kviðurnar og þriðjúng 19. kviðu, aptur að 135. vísu í íslenzka textanum, á rèttum 6 mánuðum. 29. dag júním. um sumarið skrifaði herra Jón Sigurðsson Sveinbirni og sendi honum 1. örkina af Odysseifs-kvæði prentaða[1], og fer um þýðínguna þessum orðum: „Öllum þykir yður hafa tekizt meistaralega"; en lofsorð það, er Jón leggur á verk þetta í Skírni 1852, á 182. og 183. bls., er kunnugra, en hèr þurfi þess að minnast.

Eins og búast var við af slíkum vísindamanni og lærdómsvini, sem Sveinbjörn var, var hann stöðugur fèlagsmaður þessara fèlaga: 1. bókmentafèlagsins íslenzka að minnsta kosti frá 1817[2], og varaforseti þess í mörg (13) ár; 2. biflíufèlagsins íslenzka, og fèhirðir þess frá 1825[3] til dauðadags, og vann eins fyrir það fèlag kauplaust að þýðíngunum á þeim bókum biflíunnar, sem áður eru nefndar, eins og fyrir bókmentafèlagið að útgáfu Sturlúngasögu; 3.

---

[1]) þessa örk eina auðnaðist honum að sjá prentaða eptir sig af því verki, því hann tók 12 dögum síðar banasóttina, en þetta brèf Jóns barst honum í hendur 21. d. júlím.

[2]) Sbr. „Íslenzk sagnablöð fyrstu deild annað upplag Khöfn 1826", á XI. bls.

[3]) Sbr. „Skýrslu um gjörðir og fjárhag hins íslenzka biblíufèlags. Reykjavík, 1854", á 18. bls.

fornfræðafèlagsins í Kaupmannahöfn frá 1825. Öllum þessum fèlögum var hann til sóma með ritum sínum. Bókmentafèlagið vottaði honum líka virðíngu sína opinberlega, er Kaupmannahafnardeild þess kaus hann til heiðursfèlaga síns 5. dag marzmánaðar 1844, og sendi honum heiðursskrá sumarið eptir með brèfi, dagsettu 27. aprílm. En með því það brèf lýsir áliti fèlagsins á ritstörfum og verðleikum Sveinbjarnar með sönnum og einmitt þess vegna svo fögrum orðum, þá er það hèr sett, svo látandi:

„Hið íslenzka bókmentafèlag hefir fundið sèr skylt að votta yður á einhvern hátt virðíngu þá, sem þèr eigið skylda af öllum Íslands vinum fyrir óþreytanlega starfsemi yðar, og öll hin mikilvægu verk, sem þèr hafið leyst af hendi, er gjört hafa og gjöra munu fósturjörðu vorri og yður mikla sæmd um lángan aldur, en einkum fyrir það, hversu mjög þèr hafið með kenníngum yðar og snillilegum ritgjörðum vakið og lífgað ást á móðurmáli voru og kunnáttu í því. Þess vegna hefir deild vor á almennum ársfundi 5. Marts þ. á. kosið yður í einu hljóði til heiðursfèlaga síns, og sendum vèr yður hèrmeð skrá fèlagsins því til staðfestu.

Deild hins ísl. bókmentafèlags í Khöfn, þann 27. April 1844.

F. Magnússon — J. Sigurðsson
p. t. forseti. — p. t. skrifari“.

Í þessu fór bókmentafèlagið að dæmi háskólans í Breslá á Prússalandi, sem hafði sæmt Sveinbjörn með doktors-nafnbót í guðfræði og doktorsskrá, dagsettri 17. dag nóvemberm. 1843, og þannig orðið

fyrstur til að viðurkenna verðleika hans í vísindastörfum. Doktorsskrá þessa fèkk hann sama sumarið og heiðursskrána frá bókmentafèlaginu.

Þegar vèr höfum nú virt Sveinbjörn fyrir oss á uppvaxtar og námsárum hans, og þar á eptir sem embættismann og vísindamann, þá er eptir að líta á heimilishag hans og háttalag hversdaglega í sambúð við konu og börn. Eptir það hann kvæntist, settist hann alfarið að á Bessastöðum, sem fyrr er getið, og átti þar fremur við óhægan kost að búa í þau 13 ár, er hann var þar, eptir það hann kvongaðist, þótt hann hefði 400 dala í laun og leigulaust, en lèlegt íbúðarhús; því þar hafði hann einga grasnyt, en varð alt út að kaupa, og hrukku launin alls ekki til þess einsaman, allra sízt eptir það að börnin fjölguðu, er honum fæddust 6 á þessum 13 árum[1]. En með því að hann átti enn, eptir að

[1]) Þau börn Sveinbjarnar, sem fæddust á Bessastöðum, eru þessi:

1. Þuríður, fædd 2. dag nóvemberm. 1823; giptist 1844 núverandi aðstoðarpresti, Eiríki Ó. Kúld í Flatey á Breiðafirði.

2. Benedikt, fæddur 2. d. septemberm. 1825; dó 24. s. m.

3. Benedikt Gröndal, fæddur 6. d. októberm. 1826; útskrifaðist úr Bessastaðaskóla 1846, sigldi samsumars til Kaupmannahafnar, tók tvö háskólapróf, kom út aptur 1850 og hefir hafzt við síðan hèr á landi mestmegnis á ritstörfum sínum, skáldskap og öðrum listaverkum. Bókmentafèlagið fól honum og fyrst á hendur að ljúka við að snúa Odysseifskvæði í íslenzk ljóð, þar sem faðir hans entist ekki leingur til, og síðan að snúa Ilíons-kvæði eins.

hann kom úr siglíngu, talsverðar fasteignir, sem hann hafði góðan styrk af, þá komst hann af, með því bæði að eyða afgjaldi þeirra og selja þær smásaman, svo að það var alls ekki embættislaununum eingaungu að þakka, að hvorki hann nè hans skorti. Þó má þess og geta, að 18. d. nóvemberm. 1834 veitti konúngur honum 100 dala launaviðbót og 50 dala styrk í húsaleigu frá því í septemberm. 1835; því þá voru hús þau, er hann hafði verið í á Bessastöðum, frá því fyrst hann kom þángað 1819, orðin svo hrörleg og fallin, að þau voru ekki íbúðarfær leingur. Átti Dr. Sveinbjörn þá sjálfur að annast um húsnæði fyrir sig og sína úr því. Þá keypti hann Eyvindarstaði á Álptanesi, er hann húsaði ágætavel upp úr rústum, girti túnin og slèttaði mikið af þeim, og munu þess enn sjást leingi menjar, að dugandi maður hafi einhvern tíma setið á Eyvindarstöðum. Haustið 1835 flutti hann sig og alt sitt þángað frá Bessastöðum, 8. d. septemberm. Þar átti hann í mörgu hægra aðstöðu, þó honum lèti ávalt miður búskapur en bókiðnir, sem von var, þar sem staða hans var sú, að hann varð sjálfur að sinna embætti sínu, en sjá opt um búskapinn með annara augum. Börnin fjölguðu þar og enn

---

4. Egill, fæddur 8. d. júlím. 1829; er nú verzlunarfulltrúi í Stykkishólmi, listamaður og skarpleiksmaður mikill.

5. Guðrún, fædd 19. d. júním. 1831, gipt Þórði presti Thorgrimsen að Otrardal í Barðastrandarsýslu.

6. Kristín, fædd 29. maím. 1833, ógipt.

um fjögur[1], svo að þó launin væru aukin við hann um 100 dala, þurfti búið því meira, þar sem þvílík fjölskylda var fyrir, enda þótt umsjón og ráðdeild skorti ekki innanhúss, þegar kona hans var hraust og hress, en ekki átti hann ávalt því láni að fagna, því hún lá einatt stórlegur. Á Eyvindarstöðum bjó hann alls 12 ár, þó hann væri þar ekki nema 11 ár sjálfur, þó talinn sè með veturinn, sem hann var í Kaupmannahöfn (1845—46); kom það til af því, að þegar hann kom út aptur 1846, var svo lángt liðið á sumar fram, og einginn ábúandi feinginn að Eyvindarstöðum, að hann gat ekki komið því við, að flytja þaðan alfarið á því ári til Reykjavíkur. En þetta sumar seldi hann Eyvindarstaðina, og keypti aptur íbúðarhús í Reykjavík. Í það flutti hann sig sjálfur 14. d. septemberm. s. á., og var hèr um veturinn einn síns liðs með Egli syni sínum, þángað til vorið eptir, að kona hans kom með öllu liði þeirra og búslóð til Reykjavíkur, 31. d. maím. 1847. Í þessu sama húsi var hann til dauðadags; enn þótt hann hefði 1200 dala í laun og þar að auki 150 dala í húsaleigu, eptir að hann varð rektor, komst hann eingu betur af með þau laun í Reykjavík, en

---

[1]) þau fjögur börn eru þessi:

7. Sigríður, fædd 1. d. desemberm. 1835.

8. Valborg Elísabet, fædd 28. d. októberm. 1838.

9. þorsteinn, fæddur 7. d. janúarm. 1842; geingur í Reykjavíkur-skóla.

10. Guðlaug Ragnhildur, fædd 22. d. októberm. 1844.

á meðan hann var á Eyvindarstöðum með meir en helmíngi minni laun.

Enn þótt kona Sveinbjarnar væri tíðum veik og lasin, bar hann það mótlæti, sem annað, með dæmafáu jafnaðargeði; hann virti og elskaði konu sína innilega; en það hlaut aptur efalaust að gera henni veikindin bærilegri og allan mótgáng lèttari. En eins innilega elskaði og virti hún mann sinn, og því var sambúð þeirra hjóna hin ástúðlegasta. Að því skapi sem Dr. Sveinbjörn var ástúðlegur konu sinni, var hann bæði eptirlátur og blíður faðir barna sinna; hann ól staka önn fyrir uppfræðíngu þeirra, þar sem hann annaðhvort kendi þeim sjálfur framan af, á meðan þau voru fá, eða hèlt stöðugt menn til þess, eptir að þau fjölguðu. Mikla ánægju hafði hann jafnan af að vera í þeirra hóp; mèr er enn í minni, eptir það eg var svo heppinn að komast í hús hans á Eyvindarstöðum 1843, hvílíkur fögnuður það var á vetrarkvöldin, þegar húma tók, fyrir börnin, að flykkjast þá inn í stofuna til hans, og annaðhvort stíga dans eða sýngja undir, er hann brá til gamla vanans, og blès bæði þeim og sèr til gamans á þverpípu. Var þar þá tíðum að heyra samsaung og dynjandi dansleik. Þessum rökkurstundum varði hann þannig ekki einúngis sèr til dægrastyttíngar og hressíngar, heldur og börnum sínum til yndis. Hann reis jafnaðarlega úr rekkju kl. 5—5½ á morgna. Væri hann ekki kominn á fætur um miðjan morgun, mátti nærri því gánga að því vísu, að hann væri ófrískur, sem annars kom þó mjög sjaldan að.

þess vegna var honum öll þörf á endurnæríngu eptir svo lángan starfatíma, enn þótt hann optar legði sig fyrir um miðjan daginn hálfa eða heila stund, og þá ekki síður til undirbúníngs undir kvöldstörfin; því jafnt skrifaði hann eða las kvöld, sem dag, alt til kl. 10. En þá byrjaði aptur annar hressíngartími fyrir hann eptir lokin störf, þar sem alt var þá orðið hljótt í húsi hans; þá hvíldi hann hugann og svalaði hjarta sínu á lærdómsríkum og elskulegum samræðum við konu sína, ýmist um það, er honum hafði mætt á daginn, hvort það var heldur meðdrægt eða mótdrægt, því hann var einn af þeim mönnum, sem leyndi konu sína eingu, eða þá um ástand þeirra og barna þeirra, eða um það, er hann hafði í hvert skipti fyrir stafni, ef það var þess eðlis, að hún hefði ánægju af eða gaman að heyra slíkt. Þrávalt las hann henni, það sem hann var að rita og semja; gerði hann það bæði henni til skemtunar, og svo til þess að heyra álit hennar um það; því bæði var það, að þar gat hann átt von á hreinskilnum og þó undir eins græskulausum dómi, sem hún var, og annað það, að hún bar gott skyn á alt fagurt, og fann fljótt, það er vel átti við í hvívetna; jafnframt gerði hann þetta til þess, að ná hjá henni orðatiltækjum, sem betur ættu við, jafnvel þó hver sá, er les rit hans, hljóti fljótt að gánga úr skugga um, að hann hafi verið einhver orðheppnasti maður. Þannig las hann henni bæði hverja lausavísu, er hann orti, og Odysseifs-kviðu, og mikið af Ilíons-kviðu í óbundinni ræðu, þegar þau voru

orðin tvö ein seinast eptir á fótum á kvöldin. Þessara samræðna mintist frúin sáluga tíðum grátandi eptir fráfall hans, og kvaðst þá sárast kenna harma sinna, saknaðar og einstæðíngsskapar; því þá vantaði hana alla þá alúð, blíðskap og huggun eptir andstreymið á daginn, er hún hafði svo leingi og stöðugt að notið, á meðan hann lifði.

Dr. Sveinbjörn hafði opt sagt það, eptir að hann var byrjaður að snúa Odysseifs-kvæði í ljóð, að hann mundi ekki endast til að ljúka við það; en bæði kona hans og aðrir, er hann orðaði það við, hèldu, að hann segði þetta, af því að hann þreyttist að vera svo fastur við, eins og hann var daglega við það starf, og ámálguðu því við hann að hreifa sig daglega, enn þótt hann segði konu sinni tíðum, að hann yrði æ leiknari í að snúa Hómer, og að hann lyki æ meiru af dag af degi. Alt um það varð hèr of spá spaks geta, því aðfaranótt 3. dags ágústm. sló að honum veiki þeirri, að hann stè ekki á fæturna úr því. Kvöldinu áður hafði hann geingið út nálægt kl. 8, og kom heim aptur um 11. stundu, og gekk þá til rekkju heill og hraustur að sjá. Veikin (ofkælíng) sló sèr að, þar sem hann hafði kent veikleika áður. 9.—12. daginn í legunni (11.—14. d. ágústm.) þjáðist hann af stríðum verkjarhviðum, þrátt fyrir allar læknistilraunir. En verkirnir svíuðu á áliðnum 15. degi ágústm., og voru vægir úr því, enda var þá mjög dregið af honum, þótt hann lifði þángað til kl. 10 mínútur til 1 eptir miðdegi 17. dag s. m., að hann leið

burt í hægu svefnmóki, sem runnið hafði á hann litlu áður. Hafði hann þá lifað 61 ár, 5 mánuði og 11 daga, en í hjónabandi 30 ár með sömu konu. Hinar hörðu þjáníngar, er hann tók út í legunni, bar hann með hugarrósemi og trúartrausti, sem einkendi alt hans líf. Ráði og rænu hèlt hann fram í andlátið. 4. dag legunnar gerði hann boð yfirdómara Þ. Sveinbjörnssyni, er hann trúði bezt allra nærstaddra vina sinna, og bað hann að annast um konu sína eptir sinn dag; var það eins og hann grunaði, að sín mundi ekki leingi við njóta úr því. Síðasta dag legunnar, um morguninn, bað hann að bera kveðju sína vinum sínum, er margir höfðu vitjað hans í legunni, þeir er nálægir voru. Útför hans var gerð 27. d. ágústm., og hèldu þeir prófastur sèra Ásmundur Jónsson og prófessor Pètur Pètursson ræður eptir hann[1]. Dr. Sveinbjörn Egilsson er grafinn í landsuðurhorni kirkjugarðsins nýa í Reykjavík, rètt hjá grafreit þeim, er vinur hans, yfirdómari Þ. Sveinbjörnsson, hafði valið sèr.

Dr. Sveinbjörn Egilsson var með minni meðalmönnum á hæð, grannvaxinn og holdskarpur alla æfi. Hann var hærður vel og jarpur á hár, krínglu-leitur í andliti, ennibrattur og eygður vel, bláeygur, snareygur, og hýrt augnaráðið[2]. Í andliti skipti

[1]) Þessar ræður eru prentaðar í Reykjavík 1855.

[2]) Að því leyti hefir myndin, sem hèr fylgir með, mistekizt, að þar eru augun hvassari og harðari og brýnnar þýngri, en hann átti að sèr, eins að því, að andlitið er svo fölt og horfið, og er hvortveggja ljósmyndinni að kenna, sem þessi mynd er

hann vel litum, og var rjóður í kinnum. Nefið var í meira lagi og beygðist lítið niður framan. Munnfríður var hann, en þó nokkuð tannber, og hakan lítil. Beinvaxinn var hann og allur samsvarandi, hvatur í spori, og vaskur á gaungu, og snyrtimaður í öllu látbragði og limaburði. Ekki var hann hraustbygður, en þó var honum ekki kvillasamt, og eltist svo vel, að maður, sem ekki vissi aldur hans, mundi jafnvel síðustu ár æfi hans vart hafa ætlað hann eldri en fimtugan.

Gáfna- og lundarlagi Drs. Sveinbjarnar var svo varið, eptir því sem kunnugur og sannorður maður hefir sagt mèr, sem þekti hann á ýngri árum, og þá er nú mest mark að, að næmi og minni voru í góðu meðallagi, en skarpleiki og greind í betra lagi, og það sem heitir smekkur í bezta lagi; því að hann fann svo vel og fljótt það tilhlýðilega. Með öðrum orðum: hann hafði ekki neinar rífandi, heldur drjúgar gáfur. Frá barndómi hafði hann innilega laungun til bóknáms, og þegar fóstri hans, M. Stephensen, kallaði hann til einhverra starfa í sínum stóra búskap, svo hljóp hann upp frá bókinni, og gerði það, sem honum var fyrirlagt. En þegar það var gert, svo var hann óðar kominn að bókinni aptur. Maðurinn hafði þær farsælu gáfur, sem

---

tekin eptir. En ljósmyndin var tekin af honum vorið 1846, er hann var nýstaðinn upp úr mislíngasóttinni; var hann þá á 6. árinu um fimtugt.

iðni hans og alúð[1] gerðu þær beztu. Sama lyst til lærdóms fylgdi Sveinbirni til grafarinnar, og svo var hann óþreytandi í störfum sínum til dauðadags, að fádæmi eru. Eins og gáfnalagið var, svo var líka lunderníð; í því var eingin frekja eða ákafi, allar geðshræríngar voru hægar og rólegar, eingin, sem drottnaði yfir hinum öðrum; því var hann ætíð jafnlyndur, ætíð hinn sami. Menn vita þess varla dæmi, að hann hafi nokkurn tíma reiðzt á æfi sinni; en ángurvær gat hann orðið, og var það þá af þakklætistilfinníngu eða ræktarsemi. Við kunníngja sína var hann elskulegur og alúðlegur, blíður, og fyndinn og nettur í orðum, og með þessum nettleika í orðum gat hann gert margan orðlausan fyrirhafnarlaust[2]. Hann var sá reglusamasti

---

[1]) Til merkis því viðvíkjandi, hvaða hug hann hafði á því, sem honum og skólabræðrum hans (Ólafi Magnússyni og Ólafi Stephánssyni) var kent, má þetta þèna, að vinnukonurnar heyrðu hann og fèlaga hans tala hástöfum upp úr svefni orð, sem þær ekki skildu, en gátu þó haft eptir, þegar þeir byrjuðu fyrst að lesa Nýa Testamentið á grisku hjá sèra Hákoni sál.; þær kunnu að minnsta kosti þessi orð: και ἀποκριθη και ἐιπεν αὐτῳ.

[2]) Einu sinni sendi fóstri hans, yfirdómari M. Stephensen, hann sjóveg með ket til manns. Sveinbjörn bar það upp í fjöruna, og segir þeim til, sem við átti að taka. En hrafnarnir höfðu hirt ketið, áður en það var sókt. Sveinbjörn segir síðan fóstra sínum frá, hvernig til hafi tekizt, og fèkk skriptamál fyrir, sem þó varð lítið úr; því Sveinbjörn segir: „Á því augnabliki eg lèt ketið í fjöruna, mundi eg ekki til.

maður í öllu; hann var mikið kirkjurækinn, eins og hann var hinn ræktarsamasti við foreldra, teingdaforeldra og fóstra sinn, M. Stephensen; enda elskaði fóstrinn fósturson sinn, eins og sitt eigið barn. Í stuttu máli var bæði gáfum hans og lund svo varið, að hann var betur lagaður til að læra og ígrunda, rita og fræða, en til að taka framkvæmdarsama hlutdeild í heimsins vastri; enda þekti hann svo sjálfan sig, að hann vildi ekkert hafa með þá svo kölluðu *politik* að gera, þegar hann vildi ekki verða þíngmaður fyrir Reykjavík, er hann var þó kosinn til 1844. Leingi mun verða leitun á slíkum manni á Íslandi.

Sonarlega kvaddi B. Gröndal föður sinn með þessu síðasta ávarpi:

Nú hylur grund und björtum blóma
brostið og dáið augna ljós;

---

að nokkur hrafn væri til í þessum heimi". Fóstri hans hætti að skripta, því honum komu vel gáfuleg svör.

Í óþerrasumri greip fóstri hans til þess, að binda heim hey hjá sèr á sunnudagsmorgni í Viðey, en sèr til prestsins og segir við Sveinbjörn: „Hvað er nú til ráða"? „Og, og (segir Sveinbjörn), öllu er óhætt; það er bezt að bjóða prestinum, hvort hann vill heldur leysa eða binda". Að þessu svari henti presturinn gaman, sem líka var gleðimaður.

verkin hans æ hjá lýðum ljóma,
þó leiðið prýði eingin rós.
Vel sè þèr, blíða og bjarta sál,
braut þín er ekki leingur hál.

*Jón Árnason.*



# ÆFI S. EGILSSONAR[1].

Hann fæddist 6. Marts 1791 (annan fimtud. í Góu) í Innri-Njarðvík, var hjá foreldrum sínum, Egli Sveinbjarnarsyni og Guðrúnu Oddsdóttur, þar til hann var 10 vetra; var hann þá búinn að læra stóra stílinn í Balles lærdómsbók og farinn dálítið að skrifa. Fór 1801 til lögmanns M. Stephensens að Leirá. Grímur Pálsson, síðar prestur á Helgafelli, var látinn kenna honum Dónat, en Hákon Jónsson, síðar prestur og prófastur á Eyri við Skutulsfjörð, kendi honum úr því, nema 1 vetur, sem hann var á Reynivöllum hjá sèra Þorvaldi Böðvarssyni, og 2 síðustu veturna var hann á kennslu sèra Árna Helgasonar, þá prests til Vatnsfjarðar, síðar prests á Reynivöllum, Reykjavík, Görðum á Álptanesi; var dimitteraður af honum 1810. Skólabræður hans í heimaskóla voru þeir secr. Ó. M. Stephensen í Viðey og Ó. S. Stephensen, bæar- og hèraðsfógeti í Eplatóttum á Jótlandi. Silgdi til Khafnar 1814 (frá 10. Sept.—12. Októher til Gautaborgar í Svíaríki, hvar hann var til 20. Oct., fór

[1]) Þetta æfi-ágrip er prentað orðrètt eptir eiginhandarriti Drs. Sveinbjarnar, og nær það til þess ári áður, en hann dó.

landveg til Helsíngjaborgar, og kom til Hafnar 23. Oct.). Depóneraði um nýár með Character „meget godt“, tók *philologicum* um vorið 1815, og *philosophicum* um haustið sama ár með Character *Laudabilis præ ceteris* og innkalli. Stúderaði Theologi frá 1815 um haustið til nýárs 1819, þá hann tók attestats með Character *Laudabilis.* Þann 27. Marts 1819 var honum veitt Adjuncts-embætti í Bessastaðaskóla með 400 rdl. launum og frí húsi. Meðan hann var í Kaupmannahöfn, starfaði hann með fleirum að útgáfu Sturlúngu, og afskrifaði fyrir sjálfan sig veturinn 1819 Ólafs sögu Tryggvasonar, sem síðar var prentuð af enu konúnglega norræna fornfræðafèlagi.

Hann sigldi aptur til Íslands vorið 1819, giptist 1822 jómfrú Helgu Benediktsdóttur Gröndal. Á Bessastöðum fæddust honum þessi börn;

1. Þuríður, fædd. 2. Nov. 1823, gipt 1844 Studiosus Eiríki Kuld í Flatey.
2. Benedikt, fæddur 2. Sept. 1825, dó 24. s. mán.
3. Benedikt Gröndal, fæddur. 6. Oct. 1826.
4. Egill, fæddur 8. Juli 1829.
5. Guðrún, fædd 19. Jun. 1831.
6. Kristín, fædd 29. Mai 1833.

18. Nov. 1834 fèkk hann í viðbót 100 rdl. Keypti Eyvindarstaði á Álptanesi, byggði þá upp og flutti þángað 1835, og fèkk frá Sept. það ár 50 rdl. í húsaleigu. Á Eyvindarstöðum fæddust honum þessi börn:

7. Sigríður, fædd 1. Dec. 1835.

8. Valborg Elísabet, fædd 28. Oct. 1838.
9. Þorsteinn, fæddur 7. Jan. 1842.
10. Guðlaug Ragnhildur, fædd 22. Oct. 1844.

Á þessum árum starfaði hann, auk kennslunnar, að útleggíngu á Fornmannasögum 1.—11. bindis, útlagði Snorraeddu, og safnaði orðum úr fornvísum í eitt *Glossarium.* Hann var altaf stöðugur meðlimur íslenzku deildar Bókmentafèlagsins, en gerður að heiðurs-fèlaga 1844. 17. Nov. 1843 hafði hann verið gerður að Doctor Theol. af því evangeliska Faculteti í Breslá, og fèkk Diplóm um vorið 1844. Hann var fèlagi hins íslenzka Biflíufèlags og fèhirðir þess frá 1826, útlagði á íslenzku 2. Mósisbók, Esajas, Ezekiel, Daniel og alla minni Spámennina. Um vorið 1845 bauð stiptamtmaður Hoppe honum að sigla til Khafnar, að kynna sèr skólastjórn. Hann tók sèr far með Spec. Johansen, Skonnert Helena, og sigldi frá Reykjavík þ. 10. Aug. 1845, kom til Khafnar 22. Aug., fór til Jótlands það haust, og fann yfirauditör, hèraðs og bæarfógeta Ó. Stephensen í Ebeltoft, var frá 23. Sept. í litla heil. anda st. 157, 3. Konúngur gerði hann að rektor (skólameistara) við Reykjavíkurskóla þ. 27. April 1846 með 1200 rdl. og 150 rdl. húsal.; hann lá í mislíngum frá 19. apríl — 14. maí s. á. Stè á skip 29. Mai (affángadag hvítasunnu), Gylti Jóhannes, skipari Kristensen; kom til Íslands 23. Juni (daginn f. Jónsmessu), kom heim um nóttina, lá þá kona hans og alt fólk í mislíngum. Hann flutti til Reykjavíkur í Sept. 1846, en kona hans kom

1. Mai[1] 1847 til Reykjavíkur. Þann 17. Jan. 1850 gerðu skólapiltar uppreisn móti rektor og kennurum og allri skólastjórn. Sigldi hann þá með póstskipi (form. Aanensen) 13. Martsm., kom til Færeya þ. 21., til Randarsunds þ. 30., var í Kristjánssandi þ. 31. Marts; lá veðurfastur 14 daga í Randarsundi, kom þ. 18. April til Helsíngjaeyrar, og þ. 19. með gufuskipi Opheliu til Khafnar. Af skólastjórnarráðherranum var hann settur í öll sín rèttindi óskert; kom þ. 31. Mai til Vestmannaeya, var þar í 5 daga og kom 6. Juni til Rvíkur. Stýrði skólanum árið 1850—51, sókti um lausn 1. Sept. 1850, fèkk lausn í náð með 900 rdla eptirlaunum frá 1. Juli 1851; sókti þ. 12. Aúg. það ár að mega halda fullum rektorslaunum einnig fyrir Juli og August s. á. auk eptirlauna frá 1. Juli s. á.

---

[1]) Misskrifað fyrir 31. maí.

# FORMÁLI.

Í þessari fyrri deild af ljóðmælum Drs. Sveinbjarnar sáluga eru prentuð öll hin smærri kvæði og lausavísur, frumkveðnar og þýddar, sem vèr höfum yfir komizt eptir hann; en þar við því er búið, að ekki muni hafa tekizt að ná þeim öllum nú þegar, heldur en eptir önnur skáld, þá verður þeim, sem enn kynnu að finnast, bætt við síðari deild ljóðmælanna, sem ætlað er til að þýðíng hans í ljóðum yfir kaflana úr Ilíons-kvæði verði á, og sem með fram þess vegna verður ekki prentuð nú þegar.

Ljóðmælunum er skipt í 3 aðalflokka, og er fyrst sett frumkveðið (1.—155. bls.), þá þýðíngar (157.—246. bls.) og aptast latínsk ljóðmæli (247.—292. bls.), sem aptur er skipt í frumkveðið og þýðíngar. Önnur skiptíng er ekki gerð svo á beri; þó eru þau frumkveðin kvæði, sem líkust þóktu að efni, sett saman, eða blærinn var svipaðastur á. Þýðíngunum er raðað eptir málunum, sem þeim er snúið úr, og eptir aldri frumskáldanna, að minnsta kosti hinna grisku og latínsku, þýzku og ensku. Flest eru kvæðin prentuð eptir eiginhandarritum, og þókti ekki þörf að geta þess

við hvert, er eiginhandarriti var fylgt eingaungu, nema ef þeim bar á milli (sbr. 28., 29., 211. og 225. bls.). En hvervetna er þess getið neðanmáls, ef kvæðin hafa verið áður prentuð, og í hvaða ritum, og hafi eiginhandarrit verið til af þeim hinum sömu, hefir þeim verið fylgt fremur, en hinu prentaða, einkum þar sem seinni breytíng skáldsins var sýnileg í handritinu. Eins er þess getið neðanmáls, hverjar vísur sèu teknar eptir minni, nema við 2. og 3. vísu á 131., neðri vísuna á 141. og 2 efstu latínuhendíngarnar á 268. bls., sem allar eru þannig prentaðar. Fyrirsögnum kvæðanna allmargra hefir verið bætt við og ártöl sett, þar sem nokkurn veginn vissa var fyrir, hvenær þau væru kveðin. Þar sem skýríngar eru eptir skáldið sjálft, eru þær auðkendar með S. E., en með Sch., þar sem Dr. H. Scheving hefir að tilmælum vorum skýrt vísur eða orð.

Þegar ljóðmæli íslenzkra skálda hafa verið prentuð, hefir það verið venja, að sleppa latínukveðskap þeirra, þótt einhver hafi verið; og því getur verið, að alþýðu manna þyki því of aukið, að vèr höfum látið prenta hin latínsku ljóðmæli Sveinbjarnar í þessu ljóðasafni; en á hinn bóginn vonumst vèr til, að þeir sèu flestir lærðir menn, er eigi þyki þeim of aukið.

Þótt vèr höfum haft allan vilja á því, útgefendurnir, að ljóðmælin kæmi sem minnst afbökuð

á prent, hefir oss þó ekki orðið þess auðið með síðasta vísufjórðúnginn af „Kát er draumnjórun núna“ á 35. bls., enda er vísan tekin eptir minni; því víst má telja, að Sveinbjörn muni ekki hafa skilið svona við vísuna. Þar að auki hefir misprentazt: skilnaðaræða fyrir skilnaðarræða á XLII$^{15}$, rektorslaunm fyrir rektorslaunum á XLIII$^{8}$, fyrirlestrarnir fyrir fyrirlestrana á XLVI$^{26}$ og XLVII$^{1}$, *Sorra-* (í fáeinum expl.) fyrir *Snorra-* á LV$^{5}$, 1848—49 fyrir 1851 á LVII$^{20}$, JÁNÚAR fyrir JANÚAR á 61$^{2}$, ek fyrir eg á 90$^{7}$, bíngi fyrir býngi á 112$^{4}$, LÁNSGLIS fyrir LÁNSGLYS á 142$^{1}$, salt fyrir skalt (í nokkrum expl.) á 174$^{12}$, drjúpir fyrir drúpir á 205$^{11}$, glisleg fyrir glyslegá 223$^{6}$, *honere* fyrir *honore* á 260$^{16}$, *difficilis;* fyrir *difficilis,* á 266$^{23}$, $^{3}$) (nótumerkið) fyrir $^{1}$) á 270$^{10}$, *mollito* fyrir *mellito* á 276$^{26}$, *mensis.* fyrir *mensis,* á 278$^{1}$, *repititus* fyrir *repetitus* á 311$^{18}$.

Auk þessa vantar inn í HÚSFRÚ á undan RAGNHILDI á 58$^{1}$, SKÁLDSINS á eptir VÍSUR á 74$^{1}$, þriðju breytínguna af fyrri vísuhelmíngi svo látandi:

„Orð og klausur allir greina
ýtar lærðir vel“

neðanmáls á 202. bls., en síðari vísuhelmínginn, sem á við þessa byrjun, hefir skáldið aldrei búið til, „*Carmen sollenne* . 1811? . . . 275.“ eptir 21. línu

á 295. bls., „Eyðir tála, ýtum kær, sjá Ægisbála eyðir kær“ eptir 7. línu á 307. bls., „Stillir himna þèr forði frá . . . 294.“ eptir 10. línu á 313. bls. Þar að auki vantar á nokkrum stöðum púnkta að niðurlagi kvæða og vísna, og úrfellismerki (apostrophus) í enda orðs. Minna gætir þess, að grannir hljóðstafir eru á fáeinum stöðum á undan *ng* (t. d. á $10^6$, og $133^{19}$) fyrir breiða, og að samhljóðandi hefir einstöku sinnum orðið tvöfaldur á undan *t* í samstöfu (t. d. $XLII^9$ og $34^{12}$); en hvortveggja er þó ósamkvæmni við ritshátt doktorsins sál. Of aukið er hann á $XII^1$ og sveigunum fyrir og eptir 7. línu á 80. bls.

Reykjavík, 11. júním. 1856.

*Útgefendurnir.*

## SÁLMUR[1].

### 1819.

Þú, sem hið góða elskar eitt,
enn þótt að veikum finnist hjá,
án þín eg megna ekki neitt,
allur minn kraptur þèr er frá.

Breyskleik minn, drottinn, þekkir þú,
þín náð og styrkur efli mig;
á þínum kærleik kröptug trú
kenna skal mèr að elska þig.

Lát elsku þá minn hneigja hug,
að helga líf mitt einum þèr;
þín línkind æ mèr lèni dug,
lastvörum hegða mèr, sem ber.

---

[1]) Þessi sálmur er prentaður eptir sálmabókinni eingaungu, Nr. 336.

Gef þú mèr skyn, að dygð og dáð
dýrmætast hnoss í veröld er,
að sá, sem vandar alt sitt ráð,
öruggur sèrhvern mótgáng ber.

Að fullgjörð dygð ei finnast kann,
föstum grundvelli stofnuð á,
nema skír trú á skaparann
skíni guðræknu sinni hjá.

Þú, sem einn verkar veikum í,
að vilja' og gjöra það, sem ber,
styrk þú minn veika þróttinn, því
frá þèr minn allur kraptur er.

---

## SÁLMUR[1].

### 1819.

---

Þín sjást, ó guð, um veröld víða
vísdóms, almættis, gæzku spor;
jörð, himinn, árin, ótt sem líða,
alt hrópar: „Mikill guð er vor“;
hverful umbreytíng innir bert,
óbreytanlegur guð að sèrt.

Gjörvöll náttúran þannig þylur
þèr dýrðar-lofsaung ósjálfráð.
Mín sála, gædd með skynsemd, skilur,
þitt skipar öllu vísdómsráð,
og með trú, sem þinn andi lèr,
upp til þín, drottinn, lyptir sèr.

Hvað er eg þess, að þori' eg senda
til þín, alvaldi, huga minn,
þú, sem ert, verður, varst án enda,
vera heilög og fullkomin?
Þinn helgur andi hjarta í
hreinskilnu býr; eg treysti því.

Ó, hvað þú mönnum öllum hefur
auðsýnt föðurleg kærleiks-hót;

---

[1]) Eptir sálmabókinni einni saman, Nr. 342.

með anda þínum oss þú gefur
athvarf til þín af hjartans rót.
Það sonar-traust vèr feingum fyrst
fyrir þinn son, vorn Jesúm Krist.

Ó, hvað veikan það hressir huga,
að hefja klökkva sál til þín;
ekkert mótlæti mig kann buga,
meðan eg veit, þú gætir mín;
alt skapað birtir almátt þinn,
allstaðar eg þinn kærleik finn.

Nú sè eg glögt þín guðdómsmerki,
gæzku, almætti, vísdóm þinn;
hvort eg er einn í værð eða verki,
veit eg, að þú ert faðir minn.
Faðir, í þína föðurhönd
fel eg öruggur líf og önd.

Það er sú trú, sem hèr í heimi
himininn opinn sýnir oss;
það traust, ó drottinn, gef eg geymi
guðrækni með, sem bezta hnoss.
Við enda lífs, mín viss er trú,
við mèr sem faðir tekur þú.

---

## JÓLA-LOFSAUNGUR[1].

1849.

---

Heims um ból
helg eru jól.
Signuð mær
son guðs ól,
frelsun mannanna, frelsisins lind,
frumglæði ljóssins. En gjörvöll mannkind
:|: meinvill í myrkrunum lá. :|:

Heimi í
hátíð er ný.
Himneskt ljós
lýsir ský.
Liggur í jötunni lávarður heims,
lifandi brunnur hins andlega seims,
:|: konúngur lífs vors og ljóss. :|:

Heyra má
himnum í frá
eingla saung,
allelújá.

---

[1]) Lagið og hugsunin er tekin eptir þýzka kvæðinu: „Stille Nacht".

Friður á jörðu, því faðirinn er
fús þeim að líkna, sem tilreiðir sèr
:|: samastað syninum hjá. :|:

---

## AFMÆLISVÍSUR[1].

### TIL YFIRDÓMARA M. STEPHENSENS, ÞRIÐJA DAG JÓLA.

### 1819.

---

Kveður lopt, láð og græðir
langaldurs maklegan Baldur;
kveður alþjóð himins ála
óð-fagurlagaðan Braga;
kveðja hjón, hjartprúð beðja
húss- dáðöflugan -jaðar;
kveður Björn með yl bjarnar
brjóst-göfugastan fóstra.

---

[1]) Prentaðar eptir handriti stiptprófasts Á. Helgasonar eingaungu.

Lifi mannbaldur
leingi og vel,
studdur lofstöfum ljóðans vina;
skíni ánægja
á öldúngs sjónum,
en á silfurhárum sinnisró.

Mær minnisveig
merkisdáða
ölvi aldið brjóst.
Það er sá drykkur,
er eg dýrstan veit
untan alda sonum.

Sjái dáðríkt
sinna niðja
blóð í brjósti renna;
gángi friðsælt
að foldar beð,
þeirrar er hann gott um gat.

---

## TILEINKUNARKVÆÐI

### FYRIR FORNMANNASÖGUM[1].

1825 ?

---

Hnígur Saga
huga bljúgum
konunglig for knè;
færir sjálfa sig
seggja drottni
sjálfum eigu sjálfs,

Óg einarðlig
aldna túngu
þylur munar-máli;
láti eyru
landastýrir
hneigð að helgum rúnum.

Ljúft hún minnist,
að und' laufi friðar
þáði værð og vörn;
það ber hún fram
á fremstum öldum
lof að lýða minnum,

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Fornmannasögur, I. Kh. 1825, 6.—10. bls.

Hve und' áttrunni
Aldinborgar
skugga hlaut og skýli,
á höfuðból
hilmis Dana
flutt úr feðra-húsum;

Hve vegur hennar
um vaxa knátti
for buðlúnga brjósti;
hve hana Friðrekur
og feður hans
hófu á líknar-lófum,

Og hana vörðu
með orku ríkri
í forlaga flaumi,
og henni vígðust
vísa dáðum
friðarstóli studdir.

Svo hana eflir
öðlínga beztur,
Dana ást og afl;
og henni ann
öllum huga
drottníng Danabót.

Svo leita tvö,
það er sjálf eiga,
miðla manni hveim,
skilfeinginn
Skjöldúnga arf,
forna dygð og dáð.

Slíkan fár
á fjalli lítur
ræsir reistan varða,
sem þanns góður konúngur
gnæfa sèr
ýta brjóstum í.

---

## KVÆÐI[1].

Ei glóir æ á grænum lauki
  sú gullna dögg um morgunstund,
nè hneggjar lopt af hrossagauki,
  nè hlær við sjór og brosir grund.
Guð það hentast heimi fann,
    það hið blíða
    blanda stríðu;
alt er gott, sem gjörði hann.

Ei heldur jel frá jökultindi
  sèr jafnan eys á klakað strá,
nè nötrar lopt af norðanvindi,
  sem nístir jörð og djúpan sjá.
Guð það hentast heimi fann,
    það hið stríða
    blanda blíðu;
alt er gott, sem gjörði hann.

Því lyptist brún um ljósa daga,
  þá lundin skín á kinnum hýr;
því síkkar hún, þá sorgir naga
  og sólarljós með gleði flýr.
Hrygðin burtu hverfur skjótt,

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Klausturp. 1825, 9. og 10. bls., og Snót, Kh. 1850, 88. og 89. bls.

dögg sem þorni
mær á morni,
uns hin raka nálgast nótt.

Þú, bróðir kær, þó báran skaki
þinn bátinn hart, ei kvíðinn sèrt;
því sefur logn á boðabaki,
og bíður þín, ef hraustur ert.
Hægt í logni hreifir sig
sú hin kalda
undir-alda,
ver því ætíð var um þig.

---

## STAKA.

Þó landnyrðíngur ljótur sè,
og lemji hús og fold;
þó bresti hljóð og braki trè,
og beri snæ, sem mold,
mitt skal ei hræðast hold;
því blíðviðrið á bylja-vængjum hvílir.

---

# LAUSAVÍSUR.

---

Hvort þú hefir lètta lund,
eða leggst á sorgin þètta,
eitt sinn mun að efstu stund
á þig helið detta.

Treystu því af trúar rót
tiggja sólar-ranna,
þeim er sendir böl og bót
börnum allra manna.

Honum treyst af allri önd,
utan víls og trega;
fel þig allan hans á hönd
heitt og elskulega.

---

## SKILNAÐARVÍSUR.

(FAÐIR NOKKUR FYLGDI SYNI SÍNUM ÚR GARÐI. HANN KVAÐ:)

---

Far heill, sonur,
fylgi þèr á vegum
hæstur himna guð.
Veri þèr í minni,
þau er mælir faðir
orð í síðsta sinn.

Sæll eg þá væri,
ef eg þig sjá mætti,
og heim aptur heimta
son hinn sama,
sem þú hverfur nú
föðurhúsum frá.

Vertu dygð trúr
dögum öllum,
þá muntu æfi una,
og líf þitt líða,
sem lækur renni
dals í grænu grasi.

Þá mun ei stormur
þinni raska

hvíld nè hugar-ró;
borgið þèr verður,
ef þú búa náir
í dýrrar dygðar skjóli.

Ört kvikar æð
í æsku-daga;
þá er oss lètt í lund.
Svo er hið óspilta
únglíngs hjarta,
sem hið veika vax.

Hýrlegt bros
og blíðskaparmál,
það vinnur úngan á,
og margláts
munaðar
fær hann í greipar gint.

Ef vèr, ástkær son,
stígum einu feti
fram á leið lasta,
þá er einatt
öll í veði
hamíngja vor í heimi.

Ver var um þig;
því ef í vanda dregst

óráð einu sinni,
þá er töpuð
sú hin tryggva dygð,
auðnulán og alt.

Óstjórn girndar
yfir þèr
mun þá ráða ríkt;
æf hún gerist
í almátt sínum;
henni máttu lágt lúta.

Sem fors fallandi
af fluga-björgum,
ganar hún geyst fram;
þar hún á leggst,
allir bresta
flóðgarðar fyrir.

Hrifinn þú verður
af hennar straumi,
og flýtur sem fjöður á vatni,
uns þig fram ber
að óttalega
brattri hamra-brún.

Vaknarðu þá
af værum draumi,

hræddur á heljar-þröm;
óar þig við
og allan blöskrar,
niður í þann svelg að sjá.

Fárlegur fors
undir fótum þèr
æsist ofboðslega;
velta þar rauðir
vítis-logar
upp með iðukasti.

Og þar reiðra
refsinorna
ormar uppi vaða,
þeir er blárra
blossa milli
gína grimmlega.

Felmt þèr verður;
feginn viltu þá,
lykkju á leið gera;
þá er um seinan,
þá er kostur eingi,
aptur á hæl hverfa.

Því reiðar-raust
ríður að eyrum:

„Lít þíns enda lífs;
þreyð hef' eg leingi,
og þolug beðið
mín miskunsemi“.

Mun aumkandi
maður hver
líta þíns enda lífs;
þó mun við þann
þokka blandinn
viðbjóður vera.

Góður maður
þig mun gjarna aumka,
og hrolla hugur við;
en einginn mun
ófarir þínar
ljósum tárum leiða.

Sárt mun falla
föðurhjarta
(sá er mèr tárugastur tregi),
slíka að heyra
harma-sögu
sínum syni frá.

Má eg ei, arfi,
má eg eigi

bera þá, sonur, sorg.
Sá mundi harmur
helzt til snemma
mèr til moldar snúa.

Einber hugsan sú
hjarta særir
freklega þíns föður.
Heyr þú, son minn,
er mig saklaus nú
örmum umvefur.

Heyr, hve hátt mitt
hjarta stynur,
skoða mín skilnaðar-tár.
Farðu fram
eptir ferli dygðar,
og gjör þinn farsælan föður.

Far nú heill, sonur;
fylgi þèr á vegum
hæstur himna guð;
veri þèr í minni,
þau er mælti faðir
orð í síðsta sinn.

Sæll eg þá væri,
ef eg þig sjá mætti,

og heim aptur heimta
son hinn sama,
sem þú víkur nú
föðurhúsum frá.

---

## SUMARKVEÐJA[1].

### 1822.

---

Fósturjörðin fyrsta sumardegi
fagna vildi börnum sínum með;
henni fylgdi fjöldinn margvíslegi:
fuglar, ormar, hestar, menn og fèð.
Furðu kyrr, að fósturjarðar vilja,
fjöldi slíkur allur þögull stóð,
Móðir, jörð, bað manninn fram að þylja
móti sumri hjartalaginn óð.

Hann þá kvað, til himins augum rendi:
„Hjartað lifnar við þinn komudag;
þig af hæðum þjóða faðir sendi,
þegar til að greiða bágan hag.
Kom þú heill með himin-senda blíðu,
hlær þèr móti fold og eyaband;
unun margföld ofan frá þèr líður
yfir dal, og fjall, og haf, og land“.

„Hægir brjósti, hlýnar lopt á kinnum,
himinbláma mjúkan augun sjá;
horfin dimma hverfur burt úr minnum,
himinljósi þegar fyrir brá.

---

[1]) Prentuð eptir eiginhandarriti, samanbornu við Klausturp. 1822, 72.—74. bls.

Láttu stöðugt ljósið frá þèr skína,
lán og unun veit í hverjum stað,
uns að höfum alla blessun þína
allir saman notað; verði það“.

Hagadýrin höfði drápu niður,
hvíldu grön á framsprettandi rót,
gróður-ilmi gripu langeygð viður,
gírug störðu jarðar-sverði mót.
Mændi jörð á mergðir barna sinna,
móður-ástin djúpt í brjósti lá,
hnigu tárin heilög móður-kinna,
heilög gleði skein af móður-brá.

„Kom þú heill, sem hýrgar limu kalda,
heimtir aptur til mín sofnað fjör.
Laung var stund, er ljósu mátti eg falda,
leingi strauk eg nauðug freðna skör.
Kom þú heill, sem kólnað móður-hjarta
kærum aptur lífgar móður-yl,
lofar mèr í skrúða fögrum skarta,
skapar mínum börnum alt í vil“.

„Verið, börn mín, blíð og kát í sinni,
burt er liðin raunatíðin hörð;
finn eg sprikla fjör í gömlu skinni,
færist aptur líf í kaldan svörð.
Lítið á, hve líður yfir grundu

lifnað fjör í mjúkum sumarblæ.
Brýnið raustu, börn, á gleðistundu;
barna rómur gleður móður æ“.

Þá var kátt, er kvikar raddir súngu;
kom frá hjarta gleðirómur sá;
saung þar hvert með sinnar móður túngu,
saman jarðar-börnin stór og smá.
Meðan hestur makka reistan sveigði,
meðan brast úr nauti svíra-hljóð,
baula þollaus birkiklafann teygði,
básinn trað, og hátt á öndu stóð.

Þaut í lopti þúngur vængja-súgur,
þókti leiptra marglitt fjaðra-blik;
fiðurbúinn fór til skýa múgur,
fagursaungva þreytti lætin kvik.
Úði, krúði skorkvikinda skari,
skriðarsuðu teygði digran nið.
Hljómar blendust hundrað radda fari,
há var tign í samanstiltum klið.

---

## SÓLARLJÓÐ[1].

1823.

---

Sól það sagði,
var á sjónhvörfum,
og snèri tómlega taumum:
„Margt er í moldu,
margt er á foldu,
margan hef eg geislum gladt“.

„Á eg í heimi
óvini tvo,
leiða lifendum;
kulda og myrkri
kveð eg mèr ekkert vera
hvimleiðara í heimi“.

„Harður er Hræsvelgur,
en eg hann hlýum læt
lúðan ljóss-stöfum;
Hrímfaxa læt eg
í heiðar-dæld
dökkvan uppi daga“.

„Þá er vel vegið,

---

[1]) Prentuð eptir eiginhandarriti, samanbornu við Klausturp. 1823, 1. og 2. bls.

er eg vegið fæ
á sól-fjendum sigur;
svo mèr um bauð,
svo mig um bjó
faðir lífs og ljóss“.

Snèrist dag-kerra
undir dags-móður
nýt á norður-vega;
fögnuðu dagsmegir,
og fegnir báðu
sólu rennandi sigurs.

---

## SUMAR OG VETUR[1].
1823.

Sá-a það maður
nè manns kona
nè mannskis mögur
hergáng þann,
er Hiti og Kuldi
lèku lausum hala.

Það var fyrr,
en fugl kvakaði,
og barn á brjósti hvíldi,
og yrmlíngur
iða tæki
mjúkt í moldarskauti.

Geingust að gunnsterkir,
gnýr varð í lopti,
[ótti vetrar[2]
og vordólgur;
hlupu heiptóðir
heimsenda millum,
eirðu jörð hvorki
nè uppheimum.

[1]) Prentað eptir 2 eiginhandarritum, samanbornum við Klausturp. 1823, 154.—155. bls.

[2]) Annað eiginhandarritið, sem kvæðið er hèr prentað eptir, hefir: *vetrar andskoti*, en hitt eins og Klp.

Hrundu þá á hauður
hríngar eldbrynju
og ísmöl óbráðin
jökulskjaldar.
Þaðan er á foldu
[fyrst um kominn
ennibrattur ísjökull
elds-hafandi.[1]

Varð öll skepna
aumlega stödd
milli frosts og funa,
og jórmungrund
í þeim áflogum
fór öll felmtruð saman.

„Aptur vil eg hverfa,
þar eg áður var,
og í vatni vera;
mjúk var marsæng;
mun eg þángað
halla höfði mínu".

Þá kom ofan,

---

[1]) Annað eiginhandarritið hefir þessi vísuorð þannig:
fjall hvert komið
öflgra ísjökla
elds-hafanda.

sá er öllu stýrir,
friðsköpuður,
fár að leysa.
Spenti hann mund
inni meginsterku
hnitbræður hvarri;
þá var hjaldri lokið.

Friðmál hann lagði,
og festum knýtti
styrkum, staðföstum.
Saman batt hann báða,
en þau bönd halda,
meðan stendur hauður og himinn.

„Svo skulið líða
yfir lýða sjót,
annar öðrum fylgja;
æ skal annar koma,
þegar annar fer,
uns aldir eyðast“.

Svo er um það,
er sorglegt þykir,
eða gleðilegt gumum;
hefir-a maður svo annað,
að hitt eigi fylgi;
það er ills og góðs aðal.

---

## SNJÓRINN[1].

1824.

---

Sá eg þig áðan á sundi,
þar silúngar sprúngu,
og fugla drottníngu
fiður sviðnaði.
Laugaði þig botnlaus á baki
blámi loptstrauma;
lástu með bríngu breiða
bleikur í foldar-skauti.

Sigldir þú frá saltheimum,
sáu það hrafnar,
snótar að biðja
hinnar segulkröptuðu;
því við broslínu brúðar
vill baða vaungum
konur hinn kinngrái;
kunnum þess dæmi.

Fèkkstu himinlín
höfði meyar,
sjálfur sjálfan þig
svölu skauti;

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Klausturp. 1824, 56. bls.

lástu þar á ótali eggja,
og útklekja vildir
úngum ítur-grænum,
þeim er aldrei fljúga.

Hjarta þá blotnar í brjósti
brosfagurri meyu,
og vætan viðkvæma
af vaungum flýtur.
Í gráti þeim hinn græni
gróða-blærinn hrærist.
Spök eru tár, er eg spurða,
spegill hýrra meya.

---

## VETRARFAR.
1812.

Vetrarfars blíða bætir
blessun í hverjum reit;
gjörvöll kreikar af kæti
kvik og fjörvana sveit:
ber skeiðir byr hraður,
Börs skaði[1] frár líður,
klár fóður, kýr töðu
kát úr máta beit.

## GÓULÝSÍNG.
1813.
SEXTÁNMÆLT.

Góa leið, illskast uður,
yglist lopt, gefur-at sigla,
þýtur sær, skakkföll skjótast,
skellur brim, alda fellur.
Bólgna svell, kinnur kalna;
kvíðir stör, fölna hlíðir,
jörð dofnar, drúpa hjarðir,
daprast litur, heima sit eg.

---

[1]) Bör, Óðinn, skaði, fugl (Óðins fugl), hrafnskenníng. S. E.

## KVEÐIÐ Í KAFALDSBYL[1].

(1813?)

---

Sák-at eg svo á þorra
sólváng snævi þrúnginn,
mjallhvít á fold fèlli
fönn, sem um dag þenna.
Fyrst með jólaföstu
fóður Þórs á móður
þvarr; hve mun á þorra
þraungt um hagagaungu?

---

[1]) Sveinbjörn heitinn var sendur með öðrum manni úr Viðey fram í Reykjavík, og hrepptu þeir svarta-jel fyrir framan Laugarnestánga, og kvað hann þá vísuna, og er hún hèr prentuð eptir minni.

# KVEÐIÐ Á VETRARKVÖLDI Í HJARNI OG TÚNGLSLJÓSI[1].

(1813?)

Kát er draumnjórun núna,
norðurlopt röðlum stráð,
fögur er Rögnis rúna,
reika má vítt um láð.
Ljós úrnis hvass-hornað
haus Murnis rás spyrnir,
blás[2] Vornis bros hjarni
blíður lýðum tjáð[3].

[1]) Þessi vísa er prentuð eptir minni.

[2]) Getgáta Dr. Schevings fyrir blas.

[3]) Síðari vísuhelmíngurinn er án efa eitthvað veill, hvort sem um það á að kenna slæmri Eddubók, sem skáldið hefir haft framan af, því vísan er gerð einhvern tíma fyrir 1814, eða misminni þess, er kunni vísuna. Dr. H. Scheving ætlar, að röðin gæti, ef til vill, verið þannig: Hvasshornað ljós úrnis (túnglið) spyrnir (sama sem sporar með) rás (sinni) haus Murnis (sama sem himininn), tjáð (svarar til ljós á undan, sama sem: sem er tjáð) lýðum (að sè) blíður bros hjarni blás Vornis.

## STAKA[1].

Silfurbjarma stafar strind
strjála kílir vögna
röðulfáguð mána mynd,
málar býli rögna[2].

## ÁRFERÐ.

Árferð var afarhörð,
ísaði freðinn grassvörð;
alin var við bein börð
beljan við Skerjafjörð.

[1]) Prentuð eptir minni.

[2]) Röðin: röðulfáguð mynd mána stafar ok kílir (a) vögnastrind (b) (með sínum) strjála silfurbjarma, (og) málar býli rögna (c).

a, líklega sama sem rákar, b, vögna (eig. et. af vögn, hvalur) strind (jörð) sama sem sjór; c, rögn (sama sem goð, guðir), rögna býli sama sem bústað goðanna, sama sem himininn. Sch.

# EPTIR HELGA BJARNASON[1].
## 1821.

Þannig fullvaxin fölnar jurt
 í fagri sumars blíðu,
af nætur-kuli kólnuð burt,
 krýpur að hauðri fríðu.
Móðurjurtin við hægri hlið
hvíla sig ætlar stofninn við,
 en hnígur hans við síðu.

Almættiskraptar eilíf sól,
 öllu sem heldur viður,
niður af æðstum stjarna stól
 stafar lífgeislum niður.
Guð er sjálfur í geislum þeim,
grösin lífgar og safnar heim,
 þángað sem fús er friður.

Það er hraustlegt, við hinnsta stig
 að hugga sig við dygðir;
það er hugfró, að hugga sig
 við hinar efri bygðir,
hvar sama geð í sjón og raun
og sjálfsyfirvinníng þiggur laun,
 trúmennska, þol og trygðir.

---

[1]) Fyrsta versið er prentað áður í Klausturp. 1822, 203. og 204. bls., en 2 hin síðari hefir skáldið kveðið seinna.

## EPTIR JÓN JÓNSSON OG GUÐLAUGU EIRÍKSDÓTTUR[1].

1826.

Orðstír deyr aldregi
hveim sèr góðan getr.
Háva-mál, 75. v.

Geymast und' gózi
guðshúss þessa
dauðlegar leifar
dygðauðugra hjóna.

Gædd voru góð tvö
sinni guðræknu,
hreinlyndi, trygð
og hugar skarpleika,
og því, er hag lands
heillum styður,
hyggju búmanna
hagsýnustu.

[1]) Jón fæddist 1748, dó 1803; Guðlaug fæddist 1760, dó 1802; þau giptust 1786, áttu 4 sonu, Jón, Haldór, Bjarna og Eggert. Grafletur þetta er stúngið á silfurskjöld í Staðarkirkju í Hrútafirði, og ort undir nafni tveggja sona þeirra, Jóns kammerráðs, sem leingi var sýslumaður í Strandasýslu, og Eggerts heitins læknis, er var á Akureyri.

Tveir rennum hèðan hlýrar
til híbýla sælu
hug og sjón, þar er hvíla
hjón góð og tveir bræður.
Guð er oss gefinn faðir,
þó góð sè hèðan móðir,
móðir lifir minníng dáða
mest í huga beztum.

---

## EPTIR FRÚ RAGNHEIÐI ÓLAFSDÓTTUR SCHEVING[1].

(FÆDD 29. SEPT. 1774, DÁIN 1. MARZ 1826).

1826.

---

Sem aptanstjarnan ástarblíð
um uppheims tindrar geima
á vetrarstund, þá voða-tíð
værðinni býður gleyma;
eins dygðin mæta, sæl að sýn,
sjónfagurlegast þaðan skín,
hvar eð sjálf hún á heima.

---

[1]) Þetta vers stóð neðan undir grafskript yfir frú Ragnheiði.

## EPTIR STEINDÓR PHILIPP SIVERTSEN[1]

(FÆDD. 2. NÓVEMBER 1826, DÁINN 7. JÚLÍ 1827).

1827.

Brostin voru augu,
þó var blíða á kinnum,
saklaust brjóst
sofið lá á dúni;
blíðu grèt móðir,
björt augu faðir,
sakleysi bæði;
svo skal barn gráta.

En lítill eingill
leið á skýum
röðuls nýrisins,
reifaður gullblæum.
Andliti blíðu,
björtum augum,
fríðan breiddi faðm
mót föður ljósa.

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Skírni. 1831, 118. og 119. bls.

## EPTIR EINAR PREST PÁLSSON
(Á MEÐALFELLI Í KJÓS, DÁINN 16. JANÚAR 1830).
1830.

Lifendum, guð minn, líknar þú,
liðnum þú miskun gefur.
Veit huggun, þeim sem harma nú,
hvíld væra, þeim er sefur.
Góðir menn, drottinn, gef þú, að
í góðra manna komi stað;
á öllu ráð einn þú hefur.

## EPTIR SÝSLUMANN J. SCHEVING.
1831.

Það lof ei ferst, er flugarsterk
flytja á lopt hin góðu verk;
þeim skal til þess vel trúa.
Hvort heldur með eða móti var,
miðar þeim fram til eilífðar;
þeirra vængir þreytast ei að fljúga.

## EPTIR GÍSLA PREST BRYNJÓLFSSON
(DÁINN 26. JÚN. 1827)
OG
## LÁRUS SIGURÐSSON[1]
(FÆDD. 21. NÓVEMBER. 1808, DÁINN 28. ÁGÚST 1832).

---

Fær mèr unaðs
(kvað fold Ísa),
er eg úngan kvist
upp renna sè;
fær mèr ángurs,
er í fáng mèr skal
algrænn hníga
fyr ýmsum gusti.

Grátlegt mèr þókti,
að Gísla skyldi
belti mitt[2]
að bana verða;
hitt mig hlægir,
að hann nú skín
heiðblám ofar
hjálmi mínum[3].

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Skírni 1835, 109. bls.

[2]) belti eya, sjór. S. E.

[3]) hjálmur landa, himinn. S. E.

Þann vissa'g guma
geðspakastan,
og gjarnastan
gott að vinna,
fróðleiks fullan
og fornra stafa,
og þjóðvitríngs
vísast efni.

Iðgjöld hans eg hugðumst
aptur mundu
fá í Sigurðar
snotrum arfa.
Svo eru fagrar
fíra vonir,
sem dropi daggar
dags morni á.

Vottuðu svinnir
snillíngar Dana,
að væri Lárus
laukur úngmenna.
Las hann, og mundi,
las hann, og undi,
nam háleg rök
helgra fræða.

Þá nam að vaxa

vitra í hyggju,
heilög hyggjandi
og hógværð bæði;
lèt sèr vegleg
vísdóms-gyðja
sess einvalið
í únglíngs brjósti.

Uns lífkaldur
líkams eyðir
heilsu gekk
hans að spilla.
Óð borðjór
und' brjósti móðu
Sigurðssonar
Snælands á vit.

Þar lèt hann mælt,
áður munnur lykist,
vonarorð
fyrir vina brjósti.
Nú grær grund
græn yfir honum
guði vígð
á Víkur[1] ströndu.

---

[1]) þ. e. Reykjavíkur.

## EPTIR RASMUS KRISTÍAN RASK

(FÆDD. 22. NÓVEMBER. 1787, DÁINN 14. NÓVEMBER. 1832).

---

Drúpir, sízt dyggur hrepti
dauða Rask, í fjarska
sveit lands (lýðir gráta)
lagar þaks alla daga;
því að eskju bands (æskja)
unni betur (en kunnum)
há-ræfs (ítrum óði)
andprúður skörúngur landi.

Einn nè vissa'g annan
eingi, þanns framar geingi
hróður með hindrum þjóðum
heya vorrar eyar.
Lèt í ljósum ritum
lögmál talið hála
orra, þats ei mun þverra,
úngur landsmanna túngu.

## EPTIR FRÚ GUÐRÚNU STEPHENSEN[1]
(Í VIÐEY, FÆDD 7. FEBRÚAR 1762, DÁIN 12. JÚLÍ 1832).

1832.

---

Óttaðist guð, en eigi skeytti
ofi heims, nè manna lofi;
jöfn í lund, með stöðugri stefnu
stig lífs gekk, og skeikaði ekki.
Ráð og skynsemd rèðu til dauða
ríkum merkjum dygða verka.
Eptirminníng æðri en hennar
eingum vinnst að dægri hinnsta.

---

Það er fullkomnað, alsæl önd,
endaður reynslu-skóli,
jarðlegs líkama losnuð bönd,
lífstunda brugðið hjóli;
þig hefir drottins hægri hönd
hafið upp yfir veraldar lönd
og sett hjá sínum stóli.

„Þeim styrka þjón', er stendur vel
staðfastur lífs til enda,
mun eg loks, þegar liðið er hel,
lífsins kórónu' afhenda",

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Grafminníngar og erfiljóð M. Stephensens, Viðey 1842, á 112.—114. bls.

þau eru drottins dýrust orð;
drykkjar hann þig við himneskt borð
og seður sætleiksanda.

Kríng um þig ljómar lífs í höll
ljós hans andlitis bjarta,
hrein sigurklæði, hvít sem mjöll,
heilagleg á þèr skarta;
nýir árstraumar náðar hans,
nývetni dýrðar skaparans
lífga þinn hug og hjarta.

Þú sýngur lof á himni há
höfundi alls þess góða,
hans veldisstóli helgum hjá
með hirð útvaldra þjóða.
En vèr fallnir að fótskör hans
framberum orð með túngu manns,
barnlega þökk að bjóða.

Vèr þökkum gjöf, sem gaf hann oss,
geymandi minníng kæra;
til sín hann tók það helga hnoss;
honum skal lofgjörð færa;
hjá honum er oss gjöfin geymd,
gráti numin og hvers kyns eymd.
Honum sè heiður og æra.

## EPTIR YFIRDÓMARA MAGNÚS Ó. STEPHENSEN
(FÆDD. 27. DESEMBER 1762, DÁINN 17. MARZ 1833).

---

1[1].

Hneig þar horskur laga
haldboði, skörúngur aldar;
sá var, meðan endist æfi,
eyðir villu, frömuður snilli.
Þess munu þrár í ossum
þeingils vinar leingi
(hnípir drótt og drúpir
dapurt land) hugum standa.

---

2.

Reikaðu vítt, og lánga leingi
leitaðu Ísafróns um sveitir
þess, er fyndi frjálsan anda
fulljafnt laga um vora daga;
þess er rètt eins rataði götu
rèttarfars á víðri slèttu,
tildrög, atvik metti af mildi
mannagjörða, og þó með sanni.

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanb. við Grafminníngar og erfiljóð M. Stephensens, 88. og 89. bls.

Var hann ei sá, er vildi gjöra
verra af illu, eða góðu spilla;
því tvinnað er opt í athöfn manna
ílt og gott, sem dæmin votta.
Mein er góðum grip að týna,
og gjöra lófu að skuggarófu.
Betri' eru góðir (inna ýtar
einum rómi), en stórir dómar.

Nam hann grunda djúpa dóma,
dáðmikill í gjörð og ráði;
hæfa sá hann ei hárri gáfu
hugarleik eða vit á reiki.
Tók hann stjórn, og stilti vakran
stýris-taum á rèttar-straumi,
svo skimaði eigi skipið laga
skrykkjagángi híngað og þángað.

Hèlt svo stefnu hár í stafni
höfuðdómari að allra rómi
göfuglegur, að gekk án svifa
græðis-elgur á rastar-svelgi.
Vönd er leið, hvar skip það skríður,
sker eru þar, sem ber að varast:
vinátta, hatur, hættleg múta,
hrekkir og tál, sem vant er að blekkja.

Skyggir tíðum skuggi á leiðir

skilníngs laga og verks tildraga,
mið óglögg, svo maður hygginn
má vart grilla þess á milli.
Öfugstreymi optar naumu
ýta skriði vill til hliðar
undirsjós, ef hraust ei höndin
horf í bendir, vel svo lendi.

Við manngæzku og mestu vizku
mæringur dýrðar- framur stýrði
ár um fimm og fjóra tugi
(fer enn þess orð) laga kneri,
svo að eingin ólög geingu
inn á borðin knarar stinnu;
þúngum skeiðar brast fyrir brjóstum
blekkíng vill og hrekkir illir.

---

Há var tign, þá hinn mikli Magnús
mætur studdi valda sæti,
aðallegur í einka- skrúði,
eins og sól, á dæmistóli.
Lofsæl bregður um loptin háfu
ljósinu góða dagsins móðir,
svo að túnglin hám á himni
hornasljó í birtu glóa.

Þannig sást af þróttarsönnum

þíngprýðanda ljómi standa:
tign í látum, sómi í setu,
sál og líf í hverju máli.
Settust báðar dætur drottins
dýrs við síðu lagastýris,
skyld Rèttvísi og mannkær Mildi.
Maður fær einginn betra geingi.

---

3

---

Manns eru synir
meginverja,
turn er borgar traust;
sigluhjörtur
er sævar prýði,
fákur foldar skraut.

Öldurmannlegir
aldastjórar,
er á samkomu sitja
og margra manna
málum setja,
það er þjóðar sómi.

---

Meðan skúrir
úr skýum drjúpa,
og grös á heiðum gróa,
og álfröðull
rennir geislum
yfir myrkan mána:

Meðan mannvits-sól
mærum geislum
vermir vera brjóst,
og nýtrar
uppfræðíngar
drýpur dögg af hæð:

Stendur Magnúsar
málmi traustari
minníng mönnum hjá.

---

## EPTIR ÍNGIBJÖRGU ILLUGADÓTTUR
(FÆDD 30. MAÍ 1767, DÁIN 19. JÚLÍ 1834).
1834.

---

Hún var gáfuð vel
og göfuglynd,
hög á hannyrðir
og hugvitssöm,
sýndi þrek
í þrautum öllum,
trygg, geðföst
og guðrækin.

---

Sálar-þróttur
og þol í raunum,
ef þú eignazt getur,
trygð, staðfesti
og trúmannshugur,
það er fegra en fè.

Deyr fè,
deya niðjar,
hrörnar heimur og hrynur;
en fagrir kostir
fyrnast aldregi;
gott er guði að treysta.

---

## EPTIR FRÚ GUÐRÚNU SVEINBJÖRNSEN

(FÆDD 30. DES. 1779, DÁIN 11. NÓVEMBER 1838).

1838.

---

1[1].

Tveggja höfðíngja styttan sterk,
stoð aumra, móðir kær,
lyndishrein, guðhrædd, góðfús, merk,
góðkvenda spegill skær,
skrýdd í ljómandi lífsins serk
leiptrar, húmvegum fjær,
hvar unnið hreinum huga verk
heitnum verðlaunum nær.

---

2.

Stillið, kynsystur, harmahljóð,
hèr á ei grátur við;
Oddsdóttir fræga Guðrún góð
gekk inn í herrans frið.
Lèt hún gjörvalla lífsins slóð
lýsa með dýrum sið.

---

[1]) Fyrsta versið er áður prentað í Sunnanpósti, Viðey 1838, 189. og 190. bls., en skáldið hefir breytt því síðar og bætt hinum vísunum við.

Hafðu þann spegil, fremdar-fljóð,
fyrir þitt sjónarmið.

Guðhræðsla, dáð og hjarta hreint
hennar var einkunn fríð,
stöðugt í brjósti ljóst og leynt,
lifandi fyrr og síð.
Hvort sem að blærinn bærðist seint,
eða blèsu veðrin stríð,
hreinlyndið fróma hèlt sèr beint
hvervetna gegnum tíð.

Sannleik elskandi, einurð með
opnaði' hún hjarta-rann,
ekki neins til að græta geð,
eða gremja nokkurn mann.
Frómlyndið orðin flètta rèð
við fölskvalausan sann,
svo þar af einlæg æ varð sèð
elska við náúngann.

Göfuglynd, hugfull, hyggjuglögg
hjarta bar karlmanns rètt,
þegar miðaði hrygðar-högg
hvast á eljunar-klett.
Hagli var líkust hvarmadögg
við harða sorgar-frètt,
en andarþrek við örlög snögg
ei fannst úr skorðum sett.

Sköruglynd, dáðfull, virktavönd
vann heiður sinni stètt,
nærgætna lèt opt hjálparhönd
hjálpar-þurfendum rètt.

. . . . . . . . . . . .

---

# EPTIR ÞORSTEIN PREST HELGASON[1]

(FÆDD. 12. FEBRÚAR 1806, DÁINN 7. MARZ 1839).

---

Hugprúð hetja,
hjartaprúð sál,
hölda hollvinur,
miklu orkaði,
meira hugsaði,
ei var á munni margt.

Skært hann skein,
skein eigi leingi.
Þá var dimt í dal,
er andi drottins
af upphæðum
blès á hið bjarta ljós.

---

[1]) Prentað eptir spjaldi í Reykholtskirkju.

## EPTIR RAGNHILDI BENEDIKTSDÓTTUR GRÖNDAL

(FÆDD 28. MAÍ 1801, DÁIN 15. OKTÓBER 1841).

1841.

---

Var góðfúsrar
göfug sála
ástbundin eiginmanni
og afkvæmum;
lundin hrein,
hjartað gott,
hugur í hæð,
þó í heimi dveldi.

---

Hvort sem skamt líf eða lángt
lènt er um daga skeið,
hvort sem braut blítt eða strángt,
brött fellur eða greið,
hugur þinn, jafnt sem hennar,
horfi til stjörnulands á leið

---

## EPTIR GUÐRÚNU JÓNSDÓTTUR

(YFIRSETUKONU Í SELTJARNARNESS-HREPP, DÁIN 1842).

---

Mörg lifa fögur grös á grundu,
Guðrúnar hönd er færði í ljós[1],
hverrar lífsfjör um lánga stundu
lífgunar-krapti frá sèr jós.
Því hjá kvennskörúngs moldum má
margar lifandi rósir sjá.

---

[1]) Guðrún heitin var ljósmóðir meir en 1200 barna.

S. E.

## EPTIR BJARNA SIVERTSEN

(FÆDD. 23. MARZ 1817, DÁINN 20. DESEMB. 1844).

BROT.

---

Mörg urðu ei árin, en mörg eru tárin, sem renna;
mýki guð, fárlega, sorganna sárin, er brenna.
Líkn veri nú
lifandi, brennandi trú
hjónum, er harmarnir spenna.

Bregður hann optlega ljósum á lopt fyrir lýðum,
safnar þeim síðan, þar sífeld er . . . .
. . . . . . . . .

---

# EPTIR KRISTJÁN KONÚNG ÁTTUNDA
## (DÁINN 20. JANÚAR 1848).

1[1].

Þú veitir, drottinn, gæðin góð
til góða hverjum lýðum;
að þínu boði búin stóð
hver bót á rauna-tíðum.
Þú blandar saman blítt og strítt,
þú bindur saman fornt og nýtt
á eðlis-ferli fríðum.

Þú kónga gafst, þú kónga tókst,
af kærleik jafnt og mildi;
ráðvöndum þegnum reynslu jókst,
rètt sem þín spekin vildi.
Og gjörvöll ríki, lýðir, lönd
sèr lèku í þinni máttarhönd
alveldis undir skildi.

Þú Friðrik gafst, þú Friðrik tókst,
þann frelsisvottinn góða.
Þú Kristján gafst, þú Kristján tókst,
þann konúng mentafróða.

[1]) Þessi saungur er áður prentaður framan við „Sorgarhátíð í minníngu dauða Kristjáns konúngs áttunda", Reykjavík 1848, 3. og 4. bls.

Áttunda Kristján, kónga hnoss,
þú kallaðir í burt frá oss;
það hryggir hjörtu þjóða.

Og Íslands börn við afhvarf hans
umspennir treginn sterki;
því vors hann efndi auðnu lands
í orði bæði og verki.
Íslenzka túngan, alþíng sett,
umbót á skóla og prestastètt
þess verða minnismerki.

Þau merkin lifa lát oss hjá,
þú, líknarstoðin blíða;
þeim verkum láttu viðgáng fá
veltandi strauminn tíða.
Þú ræður stund og stað um heim,
þú stórt og smátt um allan geim
skapar með skipun fríða.

Snú barna þinna í gleði grát;
þèr geðjast hugsorg eigi.
Endurminníngu lifa lát
lofsverka á hverjum degi.
Sú endurminníng efli hug,
sú endurminníng veki dug,
og hjörtun til þín hneigi.

---

2[1].

Um frelsi áður fregn oss bar
fagur vorblær og gladdi,
er alþíng forna viðreist var,
og vinnu til sá kvaddi,
er leit vorn fyrri eymdahag,
en upp lèt renna sæludag.
Þá súngu þakkar-raddir.

Gagn að frelsinu ekki er,
ef það ei mentun styður.
Vott um þjóðerni þjóðmál ber,
það skal ei rækja miður.
Vèr skulum ætíð elska þann,
er það hvortveggja styrkja vann,
en braut ófrelsið niður.

Loptbárum fregn sú líður á,
liðinn sè kónga blóminn.
Snjófjöllin Íslands himinhá
með harma duna rómi;
þau flytja lát hans lands um bygð.
Landsbúi, grátrödd með og hrygð
svara þeim sorgarhljómi.

---

[1]) Þessi saungur er ortur við sama tækifæri, og hinn næsti á undan, en var ekki prentaður.

Kristján áttundi kominn er
til Krists úr þessum heimi.
Um efni vor hann ant lèt sèr,
oss þar ei heldur gleymir.
Eflaust rennir hann augum blítt
ofan til sinnar þjóðar títt
úr háum himingeimi.

Úng skal oss lifa ætíð hjá
hans endurminníng kæra,
og harmastundu hverri á
huggunar-skin oss færa,
sem þegar eptir svarta skúr
sólin fram brunar skýum úr
með æsku-ásýnd skæra.

---

# BARNAMISSIRINN

## (KVEÐIÐ UNDIR NAFNI MÓÐURINNAR).

1849.

---

Hvað skal móður mýkja lund,
mædda sárum trega?
Hversu má eg hryggðar-stund
horfa á æðri vega?

Mèr hvarf yndið eitt og tvent,
eptir sneydd eg hjari;
mig hefir bundið bölið þrent,
blaktir líf á skari.

Sonur einn og systur tvær
sviptust burt í skyndi;
meira sár ei maður fær,
mesta böl þó fyndi.

Hús varð autt og alt sem dautt,
eyðilegt um ranna.
Hrundu tár við feigðar-fár
föður jafnt og svanna.

Hvert skal annað hugurinn sár
hèðan af jörðu leita,
en til þín, sem telur tár,
og trúr ert líkn að veita?

Þú, sem gafst mèr börnin blíð,
brjóstið móður kættir,
síðan þau á tækri tíð
tókst og hjartað grættir.

Til að lækna lífsins pín
leita eg þín í nauðum.
Hvar eru blessuð börnin mín?
Búa þau ei hjá dauðum.

Hvar munu þau nú svala sèr,
sútar mædd af flóði,
annarstaðar en hjá þèr,
elsku-lausnarinn góði?

Þau, sem lágu lágt hjá mèr,
lúð um stund af pínum,
lifandi hátt nú leika sèr
í líknarfaðmi þínum.

Híngað fylgja hugurinn skal
hnossunum, sem eg þrái;
þá mun hrygðar hverfa tal
og harmur liggja í dái.

---

Ljúft skal þreya lènta tíð,
líði böl úr huga.
Allir deya ár eða síð,
eingar tölur duga.

---

## ÖLVÍSA.

---

Vindar skekja,
hrista og hrekja
 hús ósmátt,
skelfur þekja,
 gnurrar gátt,
börn óspekja,
brúði vekja
 og bónda um miðja nátt;
 opt er gaman grátt

Herpast munnar
menta-gunnar
 mögum á;
frjósa brunnur
 minnis má;
varla kunnu
verma þunnu
 vetlíngarnir þá
 *inter frígórá.*

Gómur þornar
minn um morna
 og mála strá;
bezt er að orna
 brjósti þá,

láta forna
flóðið horna
    falla í kverka-gjá
    út um diviká.

Roðna kinnar,
kætist sinni,
    kvikar brá,
mikinn finn eg
    fögnuð þá.
Gef eg minni
g . . . . . .
    geðugt kjaptinn á
    *inter pocúlá.*

---

## VÍNIÐ OG STÚLKAN.

Kærustu minni og krúsar-lá
kemur ei rètt vel saman,
vill mèr önnurhvor víkja frá,
verð eg þá ljótur í framan.
Að báðum mesti missir er,
mætara yndi stúlkan lèr,
en flaskan fleira gaman.

## ELSKAN.
1824[1].

Þú lifir í brjóstinu, logandi sál,
þú lífgar upp veröldu dauða;
þú ornar, þú vermir, þú blossar, sem bál,
og brýzt fram í loganum rauða.
Ef lífrauðu tinnuna[2] lýstur þú á,
ljósir spretta fram gneistarnir þá.

Á bakkanum lækjar á vori eg var,
þá vorblóma liðinn var galli.
Sá margliti gróandi gladdi mig þar;
mèr geðjaðist hljómurinn snjalli[3].
Eg teygaði mjöðinn hinn mjallhvíta þá
móður náttúru brjóstunum á.

Þá lifnaði í brjósti sú logandi sál,
sem lífgaði veröldu kalda;

---

1) ekki síðar ort en 1824.

2) hjartað. S. E.

3) 4 fyrstu vísuorðin af þessu erindi hefir skáldið haft fyrst þannig:

Á bakkanum sjáfar á vori eg var,
þá vorblóma liðinn var galli;
sá ljóshvíti brimgarður leiptraði þar;
mèr líkaði hljómurinn gjalli. o. s. frv.

hún glossar í hjarta, sem blossandi bál,
og blikar, sem vesturhafs alda;
það mann eingan furði, því mjöður var sá
móður náttúru brjóstunum frá.

---

## BRAGARHÁTTUR HÓRATÍUS[1].

1842?

Ásta, eg ann þèr;
unntu mèr, fagra mær;
farðu ei frá mèr,
flyttu þig heldur nær;
því ljós mitt hjarir laust á skari,
líður í burtu, þá minnst um varir.

[1]) Fyrirsögn Sveinbjarnar heitins var: „Metrum Horatianum", og á öðru handriti: „Metrum Alcaicum hjá Horatius".

## MUNARMÁL.

Þú mærust meya á móðurstorð,
og mun fram segja þau hjartans-orð,
er fólust leingi í fylsnum þar,
og fyrða eingi á vörum bar.

Þau leyndust hulin, þau lágu djúpt,
þau lágu dulin við hjartað gljúpt,
og breiddust hríngum um hugar-strönd
og höfðu kríng um sig ástarbönd.

Ef losna böndin, þá losnar mál,
þá lyptist öndin, og flýgur sál
frá hjarta grunni að góma-storð;
þá grær á munni hið fagra orð:

„Þú ert sú meya, sem mest eg ann,
því með þèr deya eg vil og kann,
þó röðull skíni á raka grund
og reiðir hvíni um næturstund“.

## KONUKOSNÍNG.

Einn sèr mey til ekta tók,
annar gjörðist ragur;
hulinn er í herrans bók
hjónaskapar-dagur.

---

## AUMT ER EINLÍFI.

Leit eg yfir landsins sumarblóma,
leiðindi mèr foldar skrautið bjó;
las eg í tómi lærða merkisdóma,
lærdómsiðn mèr samt ei veitti ró.
Hvar er gleði hèr á jörð að finna? —
Hjörtum í, sem ástir saman tvinna.
Hvar er blíða hjartað, sem eg á
að hugga mig, og þar við gleði ná?

---

# VÍSUR
## UM KONU SÍNA.
### 1.

---

Á meðan eg
einmana, vinum fjærri,
vonlausan veg,
villistigum þó nærri,
ráðþurfi rann,
ríkust varð laungun sú:
eitt valið víf,
vel gáfað, blítt í sinni,
unun og líf,
elskunnar trúfast minni;
og það varst þú.

Í augum fjör,
ítra mannkosta boði,
kynsæll á vör
og kinnum morgunroði,
og hárið sítt,
hrynjandi mjúkt sem lín,
ágætið eitt
allstaðar þar eg kendi;
til hennar heitt
huganum títt eg rendi;
það var til þín.

Þá hennar hönd
(hugsaði' eg um þær mundir)
liggur, þar önd
lifandi spriklar undir,
en önnur mund
umvefur háls á mèr:
fángelsi því
fagna eg glaður skyldi,
þeim fjötrum í
feginn eg deya vildi;
það er: hjá þèr.

---

2.

JAN. 1822.

---

Þinn rèð forðum faðir,
fríð mær, kunnug hræra
(ló þá Lofn og Freya)
ljóð eldfjörugum óði.
Má eg ei þá er, meya,
mitt snart, prýði, hjarta,
ást með orðum, fasta,
inna, rjóðra kinna.

---

3.

Bak við fögru brjóstin þín,
bezta, spriklar, elskan mín,
hjarta bezt, sem heimur á;
heppinn var eg því að ná.

Þú skalt aptur eiga mitt,
elskan mín, fyrst eg á þitt; kaups, kaups.
Senn við byrjum samanbúð,
sáran lángar mig til brúð-laups, laups.

4.

Aldrei finnst í fríðra snótna skara
fegri mær, en hjartans ástin mín.
Hennar elska hjá mèr æ skal vara
hjartafólgin, uns að lífið dvín.
Þegar túngan, þreytt við hel að stríða,
þínu nafni fram ei stama má,
þín skal, Helga, heilög minníng blíða
hjarta blakta neðstu rótum á.

5[1].

Þá bleik á hár og blíð á kinn
mín bezta kemur til mín inn,
hlæjandi lifnar hugur minn,
og hana í faðmi vefur.
Til hennar einnar hugurinn flýr,
þá heimur við mèr baki snýr;
hún ein í mínu hjarta býr
og himins sælu gefur.

6[2].

Elskan mín, sem ann eg mest,
á sinn hvergi líka;
hana prýðir fegurð flest,
fær ei nokkur slíka.

[1]) Þessi vísa er tekin eptir minni.
[2]) Prentuð eptir minni.

## 7.

## UNNUSTAN[1]

Björk unnar báls,
með bjartan háls
bú þú í hjarta mínu;
mín missi eg sjálfs
meir en til hálfs,
ef missi eg auðar-línu.

Vittu, þèr að
eg sterkan stað
af steini bygðan hefi.
„Hirtu' ei um það"
(eg hann við kvað),
„þó hretin á þig gefi".

„Því skruggan hörð,
er skelfir hjörð
í skúrum ofsa bráðum,
þó ljósti hún jörð
og landa-gjörð,
þig lætur vera í náðum".

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Sunnanpóst. 1836, 128. bls.; orðamunurinn, sem er í kvæðinu þar og hèr, kemur til af því, að skáldið hefir breytt því á stöku stað síðar.

„Það harða hregg,
er hamlar segg
að halda veginn beina,
mun ofsann leggja
við þinn vegg,
og vinna brigð ei neina“.

„Ei girndar-tál,
er guma sál
vill glepja mörgu fremur,
ei þjóðar prjál,
nè þjassa-mál
um þessar gættir kemur“.

Þinn kossinn frjáls,
björk elda áls,
og augna lindin hreina,
þinn bjartur háls
og blíðan máls
er bótin allra meina.

---

8[1].

Hýrleit mælti hríngagefn,
hvíldi á beðjar dýnu:
„Guði sè lof fyrir góðan svefn,
glatt er hjarta mínu“.

9[2].

(SÍÐASTA LAUSAVÍSA, ER SKÁLDIÐ KVAÐ).
1852.

Hvorki þolir þú heitt nè kalt
hèr á jarðríki orðið,
af því þú hefir svo við svalt
sí-verið kokkhúss-borðið.

[1]) Kveðið, er kona skáldsins vaknaði af værum blundi eptir verkjarkviðu.

[2]) Þessi vísa er prentuð eptir minni.

# BARNAVÍSUR.

## 1.

### KVÖLDVÍSA.

Dags þegar rennur fagur fákur
faxi glóanda' í vestrið inn,
hoppar í augun hreppastrákur[1]
á hverri stúlku, vinur minn.
En hvítur sveinn á svæfla-mar
situr og dregur ísurnar.

## 2.

### KVEÐIÐ VIÐ ÞURÍÐI[2].

Þó eg kalli þrátt til þín,
þú kant ekki að heyra.
Þuríður, Þuríður, Þuríður mín,
þykt er á þèr eyra.

[1]) þ. e. stýrur.
[2]) Prentuð eptir minni.

3.

DÆTUR SKÁLDSINS OG B. GUNNLAUGSSONAR.

Sigga, Sesselja
(sex mun eg telja
eldhnossir unna),
Óluf og Gunna.
Eptir tvær eru,
sem opt að mèr snèru,
Þuríður og Stína;
þar skal stef dvína.

4.

Komdu hèrna, krílið mitt,
komdu litla morið;
enn' er liðið ekki þitt
æsku- blíða -vorið.

## 5.

### KVEÐIÐ VIÐ KRISTÍNU[1].

Kristín litla, komdu hèr
með kalda fíngur þína;
jeg skal bráðum bjóða þèr
báða lófa mína.

## 6.

### KVEÐIÐ VIÐ SÖMU.

Eitthvað tvent á hnè jeg hef,
heitir annað Stína;
hún er að láta lítið brèf
í litlu nösina sína.

[1] Þessa vísu hafa aðrir þannig:
Komdu hèrna, Kristín mín,
með kalda fíngur þína,
legðu í heita lófa mín,
og láttu þèr svo hlýna.

7[1].

KVEÐIÐ VIÐ SÖMU.

Fuglinn segir bí, bí, bí,
bí, bí segir Stína;
kvöldúlfur er kominn í
kerlínguna mína.

8.

KRISTÍN SEGIR TÍÐINDI.

Fljúga hvítu fiðrildin
fyrir utan glugga;
þarna siglir einhver inn
ofurlítil dugga.

[1]) Vísurnar 7 og 9 eru teknar eptir minni.

## 9.

### NAFNADÚKS-VÍSUR.

---

Letrin tvö eru lögð við sjö,
leingi voru í brúki;
stafa sjö, en talna tvö
tjást í þessum dúki.

Ekki rík á funa foss,
en fús á menta-gnóttir,
saumaði þenna klút í kross
Kristín Sveinbjörnsdóttir.

---

## 10.

### UM SIGRÍÐI[1].

---

Krummi situr úti' í for,
kominn að bjargar-þroti:
„Ekki' hefi' eg sèð þig síðan í vor,
Sigga í Landakoti".

---

[1]) Sigríður var fyrst á fóstri í Landakoti á Álptanesi. Vísan er prentuð eptir minni.

11.

1838.

---

Ógn af ísu og hrognum
etið Sigga getur;
hvít er hún orðin af áti,
og deyr, ef fær meira.

---

12.

SKÍRÐ VALBORG ELÍSABET,
31. OKTÓB. 1838.

---

Bið eg þess, að blessun
böl kannandi manna
unni úngum svanna
Ellisif, meðan lifir.
Og Kristur hinn krossfesti,
kostprýðandi lýða,
veiti veg með kæti
Valborg kvöld og morgun.

---

## 13[1].

### KVEÐIÐ VIÐ GUÐLAUGU.

Lofnin glaða lagarbála
leggur til í huga sèr:
Flugna- blaða -blómstur[2] skála
búa vil eg handa mèr.

[1]) Prentuð eptir minni.

[2]) Flugnablóm (e. flugnablómstur) kölluðu ýngri börn Sveinbjarnar heitins blóm eitt, er vex á Skildínganessmelum. Guðlaug hafði eitt sinn tínt mikið af því og borið heim, og ráðgjörði, að búa sèr til úr þeim laufskála; um það var þessi vísa kveðin.

# TIL GUÐMUNDAR JÓNSSONAR LÆRÐA[1].

Leiki litum
leður- vemála
starfi fetla -feld
frenju Varinn;
beri brárendur
bitrum móti
ljóna ljóðmæki,
lávarðaða[2].

---

[1]) þessar vísur eru kveðnar einhvern tíma fyrir 1814 undir annars nafni, og prentaðar eptir minni.

[2]) Röðin í þessari vísu er: Leiki Varinn (a) vemála (b) starfi (c) litum (d) leðurfeld fetla-frenju (e); (og) beri (hann) brárendur (f) ljóna (g) móti bitrum ljóðmæki (h) (hinum) lávarðaða (i).

a, dvergur, sama sem dverghagur. b, hin helgu mál, hèr sama sem skáldskapur. c, kk. sá sem vinnur, sama sem hinn dverghagi ljóðasmiður, sama sem skáld. d, að leika eitt litum er að mála, hèr, sama sem að skrifa. e, bundin kýr (fetill, band, frenja, kýr), leðurfeldur hennar, sama sem kýr (kálfs)-skinn. f, blikandi skildir. g, sama sem manna. h, sama sem ljóðamækir, ljóðasverð, hèr túngan; af því hún er kend við sverð, er líkíngunni haldið. i, á saman við ljóðmæki; lávarðaður sama sem lágvarðaður, þ. e. laut-umkríngdur, af því túngan liggur í munninum.

Hugsunin er: Riti skáldið mèr á kýrskinn (sama sem bókfell, eins og áður var títt), og láti það vera í ljóðum (því menn eru vanir að láta ljóðabrèf ljóðabrèfi í móti).

Berk-at eg blæíng
Börs á hvoli,
vitkan valstöðvum[1];
en það vættir eg,
að fróð-frömuður
Frosta- muni
iðgjald inna
-iðju riti[2].

---

1) Getgáta. Sch.

2) Röðin er: Eg berk-at (a) vitkan (b) blæíng (c) Börs á hvoli (d) á valstöðvum (e); en eg vættir (f) það, að fróð-frömuður Frosta-iðju (g) muni inna iðgjald (h) riti (mínu).

a, sama sem eg ber eigi. b, sá sem veit nokkuð frá sèr, annaðhvort af spáleiksanda, eða töfrakrapti. c, ósamandregið fyrir blængur, eiginlega gljásvartur, hèr sama sem hrafn. d, bör er bæði sonur og maður, og þar að auki hèt faðir Óðins Bör; en eptir Skáldu má kalla einn annars nafni, með því að leggja það til, sem aðskilur þann frá þeim, er honum er gefið heiti af, og það er hèr gjört með viðbótinni á hvoli; en annaðhvort hefir gamanshugur ráðið því, að skáldið kendi Bör við hvol, en ekki við Hliðskjálf, eða það, að hann vildi kveða myrkt og fá Guðmundi stúdent umhugsunarefni. e, axlir, þar sem fornmenn lètu hauka sína sitja. f, sama sem væntir. g, Frosta-iðja er það starf, að smíða Frostafar (af Frosti dvergur, og far skip), en far (kostur) dverga er skáldskapur, og sá sem fremur (fróð-frömuður) Frosta-iðju er skáldið. h, sama sem iðgjöld (sem er venjulegra), ið- herðir merkínguna, og iðgjald er því sama sem nægilegt endurgjald.

Efnið í vísunum er því þetta: Skrifaðu mèr til og láttu

## LJÓÐABRÈF.

1820.

---

Skamt er, síðan skildum við,
skemtun vår að hjali;
fann eg hvern minn lim og lið
lifna af okkar tali.

Þegar kom ek híngað heim,
hvílu sókti eg væra,
datt eg út af; draumi þeim
dís mig gjörði hræra.

Gegnt hvor öðrum vorum við,
vöktum ræðu snjalla;
lèt eg gegnum ljósu hlið
leiptrin sjónar falla.

Mættu brúna-ljósum ljós
frá láði hvarma þínu;
voru þau sem veslíngsrós,
vinda hrakin pínu.

---

það vera í ljóðum (því menn eru vanir að láta ljóðabrèf ljóðabrèfi í móti). Þó eg sè ekki mikill spámaður, vænti eg þess. að skáldið muni borga mèr brèf mitt. Sch.

Sjónar-stjarnan hvikul-hýr
hnekti stöðu sinni,
eins og norður-floga-fýr
á foldar hjálmi brynni.

Hríslaði geislum hvarmasól
á himni rauðum kinna,
glitraði fagurt fofnis-ból
á fitjum vara þinna.

Bærðist höfuð, bifaðist mund,
brjóstið þrúngna stundi,
fætur lèku Hropts við hrund,
hagl af augum dundi.

„Hvaða vættur" (hóf eg mál)
„höfði býr í þínu?
Æ, að þvílíkt yndisbál
ornaði brjósti mínu".

„Hefir þú í Hliðskjálf sezt,
heima skygnzt um alla,
og á svinnri sjónir fest
selju fofnis palla?"

„Annað getur ekki þar
ollað slíku brimi,
þar sem órór æða-mar
um alla geysar limi".

Varð mèr þá í ljósan ljóst
litið spegil hvarma;
stóð þar drós með drifthvítt brjóst,
dáfögur um arma.

Bleikir lokkar, mjúkir mjög,
mitt á herðar náðu,
hvarma gimar hvarma lög
hrynja niður báðu.

Kinnar voru, rauð sem rós
rökum vökvuð morni,
endurvurpu ennis-ljós
ástar vörmu korni.

Þú mèr sýndist þylja: „Jú“.
Þverraði draumur vona.
Fyrst að sagðir þetta þú,
það mun vera svona.

Draumur þessi (mundu) minn,
af Mímis- ausinn -brunni,
held eg nú sè hugur þinn
hjarta neðst í grunni.

Þar um kenna mátt ei mèr,
mèr þó nóttin sýni,
það sem vakan veitir þèr;
vil eg bragur dvíni.

## TIL Ó. STEPHENSENS[1].

### 1.

---

Komdu, áður en kólerá
kemur til þín yfir sjá;
stígðu fákinn ægis á
og upp á klárinn sláðu.
Jeg skal biðja, að bylgju fans
bilti sèr á tagli hans,
og fleyti þèr til föðurlands;
við Fuglaskerjum sjáðu.[2]

Fer eg þá að finna þig;
fyrr um vannstu þekkja mig.
Nú er skepnan skríngilig:
skeggið niður á bríngu,
hundskinns-húfa á höfði væn
(eg hafði' hana út með sárri bæn),
augun í mèr eru græn
út af stúderíngu.

---

[1]) Over-Auditör (hermannadómari), er leingi var í Ebeltoft, og síðast í Varde á Jótlandi, dó 1854, fóstbróðir og skólabróðir Sveinbjarnar heitins innanlands og utan, og aldavinur hans.

[2]) Þessi vísa er prentuð eptir eiginhandarriti, en hinar eptir minni.

Litarháttinn manstu minn:
mín var æ hin rjóða kinn,
en nú hefir skollans s.....
skemt hana fyrir mèr leingi.
Hún lekur sona lon og don;
á læknis-Odd og Þorsteinsson
hrópa eg títt, en hefi' ei von;
mèr hjálpa meðöl eingi.

---

2[1].

---

Og um vænan veltur dal
vatns óþýður streingur,
þar í grænum situr sal
seimahlíð og dreingur.

Sú umvefur höndum háls,
helzt það líkar manni;
kossa gefur frá sèr frjáls
fremdar-ríkur svanni.

Sýngur lóan litla þar,
líka spóinn vellur,
út um móa hèr og hvar
hrafn og kjói gellur.

---

[1]) Úr brèfi.

Ofan í græðis bratta brún
birtu sendir gríma;
sofna bæði hann og hún.
Hèr með endast ríma.

---

3.

---

Þó hlustarverkur og höfuðsótt
hausnum baga vinni,
Ólafur í Eplatótt
er mèr í fersku minni.

Fyrr mun skeiði fíllinn fljótt,
og folinn riddarann teyma,
en Ólafur í Eplatótt
Egilssyni gleyma.

---

4.

---

„Annat var, þá at inni
ölkátir vèr sátum“

tveir í húsi hara[1]
ok höfnuðum svefni.
Runnu mèr af munni
mörg orð gamans forðum,
þá er bauð in blíða
bekknjórun að drekka.

5.

Sátum á ölbekk,
Sveinki og Láfi,
hugum glaðir
í húsi jöfurs[2],
meðan blès
brytinn rauði[3]
mjúkt og hart[4]
á merarlegg[5].

[1]) Domus regia (Regents), stúdentagarðurinn mesti í Khöfn. S. E.

[2]) Sama sem: í húsi hara í næstu vísu á undan.

[3]) Matsali á Regentsi, Möller; hann var áður bumbuslagari og blès á þverpípu. S. E.

[4]) það kalla Danir Mol og Dur. S. E.

[5]) Möller sagði, að hljóðpípan sín væri úr fílsbeini, en við hèldum það vera hrossbein. S. E.

## TIL MAGNÚSAR SÝSLUMANNS STEPHENSENS.
1835?

Verði þèr aldrei vant í heimi
velsældar, auðs af fè og seimi,
ánægjuláns og hvers kyns happs,
Kúðafljót verði krambambúli,
koníak bezta Lækurinn fúli,
Eldvatns drílin að eggjasnaps.

## ÓSKIN.

Eins mjótt þèr verði milli kasa,
sem meðal augna er gatan naum.
Þvagli mjallhvít í þínum vasa
þorskalifur með hverjum straum.
Fáðu aldrei í förum slys,
farðu aldregi góðs á mis.

## TIL ÞÓRARINS SVEINSSONAR[1].

Eg bið, óspart að spenavín
spræni úr frenju júfri,
og sí-blessuð sambúð þín
sè með rúnu ljúfri.

## FYRIR MINNI LÓRENTZENS[2].

Meðan elur sjórinn sel,
sól í heiði skíni,
verzlanin lifi leingi og vel,
Lórentz aldrei dvíni.

[1]) Þórarinn bókbindari var þá nýkvæntur. Vísan er prentuð eptir minni.

[2]) Stórkaupmanns frá Altóna. Kveðið vorið 1843. Prentuð eptir minni.

## UM ÁSGEIR ALÞÍNGISMANN EINARSSON.

1849?

---

Líkur allfám er,
orða þar sem ver
glymur hvast á gómajarðar flesi,
Ásgeir sá, er á
ekki sauði smá,
er kroppa gras á Kollafjarðarnesi.

---

# VÍSUR SKÁLDSINS UM SJÁLFAN SIG[1].

## 1.

## ÞEGAR SKÁLDINU VAR SKORIÐ HÁR.

1805?

---

Fagurlima Heimdals hjó
hrotta seimalindin;
lètti úngum bersa bjó
bana Gríðar yndi[2].

---

[1]) Fjórar hinar fyrstu af þessum vísum eru prentaðar eptir minni, og orti Sveinbjörn heitinn þær á únga-aldri.

[2]) Röðin er: Seimalindin (a) hjó (b) fagurlima Heimdals hrotta (míns) (c); Gríðarbana yndi (d) bjó úngum bersa (e) lètti (f).

a) Kvennkenníng. b) klippti, skar; nafn konu þeirrar, er skar hár skáldsins, felur hann síðar í vísunni. c) hrotti Heimdals er höfuð, því Heimdalur var lostinn mannshöfði til bana: fagurlimi skógur, skógur höfuðs er hár. d) Gríður tröllkona, bani tröllkvenna er þór, yndi þórs er eiginlega það, sem þór hefir yndi af, en hèr er það haft um konu. sem ann þór, þ. e. þórunn, því Fröken þórunn Stephensen var sú, er skar skáldinu hár, og hann kallar seimalind. e) úngur er hèr sett fyrir sveinn (þ. e. Svein-), því sveinn er úngur piltur; bersi er sama sem björn; þannig kemur fram nafn skáldsins, Sveinbjörn. f) bjó lètti, nfl. með klippíngunni.

Sch.

2[1].

Rollu feldar frenju jóðs[2],
fögrum skráða rúnum[3],
ber eg inn til bóka-rjóðs[4],
er býr í fugla-túnum[5].

3.

KVEÐIÐ, ER SKÁLDIÐ VAKNAÐI SEINT.

Snemma taka dreingir dag;
dauð er Onars rúna[6].
Þjalarhljóð og hamarslag
heyri eg úti núna.

[1]) Tilefni til þessarar vísu var það, að Sveinbjörn heitinn var sendr með bók í kálfskinnsbandi hollenzku, sem farið var að losna, til bókbindara, er var í loptherbergi.

[2]) Rolla er samanvafin blöð, frenja kýr, kýr-jóð kálfur, kálfs-feldur kálfskinn.

[3]) rúnir hèr sama sem bókstafir; skráða s. s. skrifaða.

[4]) eiginl. sá, sem litar bækur rauðar, hèr s. s. bókbindari.

[5]) Fugla-tún loptið úti, en hèr haft um loptið (loptherbergið) inni, þar sem bókbindarinn var. Sch.

[6]) Kona Onars, sem og er nefndur Annar, var Nótt; nóttin er dauð s. s. nóttin er liðin. Sch.

Hani kyrjar himnalag;
höktir sög í meiði;
þjalarhljóð og hamarslag,
hèrna er margt á seyði.

---

4.

KVEÐIÐ VIÐ SLÁTT.

---

Vill nú einginn ljá mèr ljá
litla stund úr degi?
Happadís er horfin frá;
hjörinn bítur eigi.

---

5.

## KVEÐIÐ VIÐ VARARRUÐNÍNG Á INNRA-HÓLMI.
## 1812.

---

Vorum á sandi,
þar lögur að landi
í lygnu fèll bifi;
brugðum axl-brandi,
en undan, sem andi,
hrökk unnbein í svifi:
líkt sem frumfjandi,
þá fèll hann úr standi
að fárheljar klifi,
þviti fór þandi,
en greiddust fley grandi
af glymsævar rifi.

---

## 6.

### SVARAÐ BRÈFI[1].
### 1824.

---

Vest er það að vita og sjá,
að *variantes*[2] til ei ná.
Virzt mèr, drottinn, vera hjá,
vertu mèr nú, sem Jósúá
á dalnum.
Láttu standa lon og don
ljósa sól yfir Askalon,
þá mun burt ei varpa von
vesalíngurinn Egilsson,
nè seggurinn horns í salnum.[3]

---

[1]) þessar vísur hafði Sveinbjörn heitinn skrifað aptan á brèf, er Eggert Jónsson læknir, sem þá var í Viðey, hafði skrifað honum, og getið þess, að konferenzr. M. Stephensen mundi fara að vanta orðamun í handritið að Jónsbók (lögbókinni), sem hann var þá að undirbúa til prentunar, og sem Sveinbjörn heitinn var að skrifa upp, en Eggert að bera saman með honum.

[2]) þ. e. orðamunur.

[3]) „Hornkamers“ heitir herbergi eitt í Viðeyarstofu; í því svaf Eggert heitinn.

7.

Í AUGNVEIKI.
1831.

---

Það hlægir mig, þá hèðan ferk,
helgar það sagnir boða,
að eg fæ guðs hin góðu verk
gleraugnalaust að skoða.

---

8.

---

Rennur ei að mèr rammur ótti,
þó . . . . . . . . . . .
fletti upp grön og teygi tönn.
Undan honum eg skal láta
ekki baun á nokkurn máta,
eða víkja úr spori spönn.

---

## 9.

## UM STÁLPENNA.

1833.

---

Færði mèr um fleyjörð
fjóra snápa sundjór[1];
stálnefi[2] nýta gaf
nafngöfigastur Rafn[3].
Áður mjúka flugfjöður
fèkk mèr úr væng sèr
(nærri sèr það tók tak)
tafngírugastur hrafn.

---

Penna niður stíng eg stáls,
stirður er hann á letri;
hefir margan hrannar báls
hendir fundið betri.

---

[1]) Skip Möllers lausakaupmanns, sem kom híngað til lands 21. jún. 1833. S. E.

[2]) Stálnefur, sá sem hefir nef úr stáli; svo kalla eg stálpennann, og áður snáp; því stálpenni er ei nema nefið af penna, rúmlega það, sem skorið er upp á legg fjaðrarinnar.
S. E.

[3]) Rafn, riddari af Dannebroge og doktor, sendi mèr 4 stálpenna. S. E.

## 10.

### FERÐA-ÓLYST.

### 1833[1].

Heldur vil eg heima vera,
þó hafi eg ekki stórt að gera,
en í Flóa að flækjast um,
klæðin vot á kroppi bera,
klárinn eins og tryltan hèra
gana láta í götunum.

## 11.

### RÚMGLEÐIN.

Á svæfilknör mèr sæti vel eg,
þá svaslig ást mitt fángar negg;
mitt elsku-líf í faðmi fel eg,
og fagra kinn við brjóstið legg.
Þannig dúrum hlið við hlið,
hvílum saman, höfum gaman,
vefjum saman legg og lið.

[1]) Um haustið, þá gullsmiður (þ. Thomsen) reið austur í Flóa, og eg varð eptir. S. E.

## 12.

### KVEÐIÐ Í RÚMI SÍNU.

Hugurinn líður hèr og þar,
hvikull eptir vanda;
eg er að bíða birtunnar,
búinn upp að standa.

## 13.

### ÓLAFS-STAFUR[1].
### 1845.

Beinvölur, sem beiddi mig
bezti vinur neyta,
mín skal elli- styðja -stig,
stafur Ólafs heita.

[1]) Haustið 1845 heimsókti Sveinbjörn heitinn Over-Auditör Ó. Stephensen í Ebeltoft, fornvin sinn, og gaf Ólafur honum þá að skilnaði staf úr beini með rafurhún til menja. Þann staf kallaði Sveinbjörn heitinn ýmist Ólafs-staf eða Ólafs-naut.

SAMA ÖÐRUVÍSI.
(26. SEPTEMBER S. Á.)

Læt eg Ólafs- styðja -staf
stirða fætur mína;
þann mèr vinur góðan gaf
grip í minníng sína.

## 14.

SKÓLAMEISTARA-EMBÆTTIÐ.
1845.

Láti þau mig í Lectors stað,
listamennin fróðu,
þá er hverjum auðsèð, að
ekki er völ á góðu.

15.

MÁLRÚNIR[1].

*Sól* í *hláku elg* og *ís*
*ángur* tíðum vinnur;
*eikin, klakinn, röst, sem rís,*
*reiðar slagið* finnur.

Átta vikum eptir jól
(enn þess geta mátti)
*klak-sár ís* við *sæfar sól*
*son* ókaldan átti.

## KVEÐIÐ UM FERÐINA FRÁ KAUPMANNAHÖFN TIL ÍSLANDS 1819[2].

Hefla gnúði hundur svo
hæl á báru-ljóni,
að eptir daga tíu og tvo
tók eg höfn á Fróni.

[1]) Í fyrri vísunni hefir skáldið bundið nafn sitt, en föðurnafnið í 3. vísuorði síðari vísunnar.

[2]) Þessa vísu hafði Sveinbjörn heitinn skrifað sèra Gunnlaugi Oddsen til Khafnar; hèr er hún tekin eptir minni.

# KVEÐIÐ Á SIGLÍNGU TIL KAUPMANNA-HAFNAR 1845.

## 1.

### BROT[1].

Hann, er sterkum hjálmunveli
hörðum stýrir byljasvip,
strauma reisir röst í eli,
ræður svo, að bjargast skip,
hátt á báru býr mèr sæng,
breiðir yfir styrkan væng.
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .

[1]) Þetta brot er líklega ort aðfaranótt hins 10. eða 10. dag ágústm.

2.

(12. ÁGÚST.)

---

Helena[1] með höfuðtraf
hvala klýfur bíngi,
gegnum Íslands hleypur haf[2]
hart í útnyrðíngi.

Leiðir yfir ofurhaf
eins á nótt og degi,
sá er fleira gott mèr gaf
guð á lífsins vegi.

---

3.

(15. ÁGÚST.)

---

Vikna laukar, vökna brár
völvu Gýmis landa,
svignar brandur, bogna rár,
bólgnir vefir standa.[3]

---

1) Svo hèt skipið.

2) Sjórinn milli Íslands og Færeya heitir Íslandshaf, en sjómenn kalla það „Spanska sjóinn". S. E.

3) Þá var landnyrðíngur hvass og sjómikill. S. E.

## 4[1].

(SAMA DAG.)

---

Hèr á bláum báruvöllum,
borinn skips af veikri fjöl,
lángt aᵭ háum heimafjöllum
hugann læt eg renna spöl.
Man eg Fróns hin fögru tún,
Freyu tár og hýra brún.
Hèr á sollnum sæ
sit eg í köldum blæ.
Grætur Rán, þá reiᵭ er hún.

Mig um reyᵭar víᵭa vega
voldug leiᵭir drottins hönd,
hættum eyᵭir hjálpsamlega,
hvers kyns greiᵭir farar bönd.
Því skal heiᵭur honum tjá
í hverri neyᵭ, á landi og sjá.
Svo í stríᵭu,
sem í blíᵭu
lof hann skilt af lýᵭum á.

---

[1]) Í hvössum landnyrᵭíngi. S. E.

---

5.

(ENN SAMA DAG.)

Þó eg hlaupi hæst í trèð
og herði sjónarlínu,
Fugley ekki fæ eg sèð,
felst hún auga mínu[1].

6.

(OG ENN SAMA DAG UM KVÖLDIÐ.)

Helena með höfuðfald
harða tekur ríngi,
á Norðurhafi[2] heldur vald
hæft í landnyrðíngi.

[1]) Fugley er vestur af Hjaltlandi. Vísan er kveðin, þegar skipverjar sáu hana. S. E.

[2]) þ. e. Norðursjórinn.

7.

(18. ÁGÚST.)

Máni skín á marar flöt,
mjög það gleður lýði;
á skýunum eru gráleit göt;
gert er það af prýði[1].

8.

(SAMA DAG.)

Lækka tekur Líðandi[2];
lízt mèr vel á þetta;
skútan rennur skríðandi;
skilur norræn getta[3].

[1]) Vísan er gjörð aðfaranótt hins 18. ágústm.

[2]) Líðandi heita lágar fjallahæðir á Noregi, og er þar við kent Líðandisnes. S. E.

[3]) getta er sama sem genta, stúlka, á norsku. S. E.

9.

(ENN SAMA DAG.)

Lækka tekur Líðandi,
lángt er burtu Skaginn[1];
skipið klýfur skríðandi
skuggafullan æginn.

10.

(OG ENN SAMA DAG UM KVÖLDIÐ).

Helena með höfuðbönd,
hjúpuð dregli mjóa,
sjóinn sníður, eins og önd,
inn um Skagaflóa[2].

[1]) þ. e. Jótlandsskagi (Vendilskagi). S. E.

[2]) Skagaflói heitir flói sá, sem er milli Líðandisness og Jótlandsskaga. S. E.

11.

(19. ÁGÚST.)

Helena, lík hafsins mey,
hvítum skautuð faldi,
liggur grafkyr, eins og ey[1],
undir sólar tjaldi.

12.

(21. ÁGÚST.)

Helena með snöggu snuggi
snýr að vestri höm;
veður fram hjá vökukuggi
við Hlèseyar[2] þröm.

[1]) því þá var bláhvíta logn, er þetta var kveðið. S. E.

[2]) Ey í Jótlandshafi. Fyrir norðan Hlèsey eru grynníngar þar liggur vökuskip ár og dag út, og er kveyktur viti á siglutoppi þess, þegar nátta tekur; á maður að halda fyrir utan vökuskipið; var þessi vísa kveðin, er vèr sigldum þar um. S. E.

## HÚSAVIST Í KAUPMANNAHÖFN.

1845.

Eg horfi niður í dimman dal,
þar dauðir eiga sæti,
hafinn upp á hæsta sal
í Heilagsanda- stræti[1].

## KVEÐIÐ, ER EG NÁÐI KONÚNGSFUNDI,

17. NÓVEMBER 1845.

Fèkk eg loks að finna kóng;
fátt mèr varð á munni.
*Exordium* ekki *long -*
*um*[2] eg hafa kunni.

---

[1]) þessi vísa er kveðin heldur 23. en 24. september, því Sveinbjörn heitinn segir svo (í brèfi til konu sinnar): „Eg leigði mèr hèr herbergi í „„Lille Helligseistes Stræde No. 157"" á 3. loptsal . . . .; eg flutti í dag (þ. 23. september). . . . . Eg horfi ofan í kirkjugarðinn („dimman dal", o. s. frv. í vísunni), sem liggur fyrir neðan gluggana, hinu megin strætisins. . . . . . . þegar eg kom hèr upp, datt mèr þessi vísa í hug". S. E.

[2]) Exordium longum, lángan formála.

(SAMA ÖÐRUVÍSI.)

Jeg hugsaði mèr að hitta kóng;
hans eg náði fundi.
En *exordium* ekki *long -*
*um* eg hafa mundi.

(SAMA ENN ÖÐRUVÍSI.)

Þá eg hitti Kristján kóng,
kvað eg skamt að orði;
því *exordium* ekki *long -*
*um* eg hafa þorði.

## KVEÐIÐ Á SIGLÍNGU TIL ÍSLANDS[1].

1846.

1.

(11. júní.)

Þó að vogur væri stór,
og vestangúlpur blèsi,
Jóhannes[2] með fullu fór
fram hjá Lambanesi[3].

Meðan lætur hafnar hest
hafs um bylgjur sveima,
gættu þess og geymdu bezt,
guð, sem jeg á heima.

Styrktu fríðrar frúar hag
fyrstu lífsins stundu,
sem á þenna þáði dag[4]
þekk á Ísagrundu.

Gleddu hjarta hjarta míns
í hverri neyð og raunum;
fái hún unun anda þíns
æðstum sèr að launum.

[1]) Allar þessar vísur eru prentaðar eptir blýritnum ferðabókarblöðum á þessari ferð.

[2]) Svo hèt skipið, sem Sveinbjörn heitinn kom út á, eða „Gylti Jóhannes“.

[3]) Lambanes er norðast á Hjaltlandi. S. E.

[4]) 11. júní var afmælisdagur frú Egilsens.

2.

(13. JÚNÍ.)

Hörðum spentur hafinu á
hafs og vinda pínum,
er eg í anda heima hjá
hjarta-parti mínum.

3[1].

(20. JÚNÍ.)

Varla sopið alt er öl,
þó í sè komið tunnu;
daginn næsta fór eg á fjöl
fyrir hvítasunnu.

Nú höfum vikur þreyða þrjár
Þórólfs hælidala;
oss hefir reidt um ýmsar krár
Ægis bylgjan svala.

Eg hèr bæti aungu við,
úti er þessi staka.
Ráði guð, hvar lætur lið
land um síðir taka.

[1]) Þessar vísur eru kveðnar suður undan Eystrahorni á Íslandi. S. E.

4.

Jóhannes með laungu lot
lá á vatni grunnu;
daginn næsta fór eg á flot
fyrir hvítasunnu.[1]

---

Þegar lukkan lèk mèr dátt
lífs í bezta geingi,
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .

---

Þegar gylta súð um síð
á suður- fróni lendi,
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .

---

[1]) Þessi vísa og vísubrotin næstu tvö eiga eitthvað skylt við undanfarandi vísur, en voru aptast á ferðabókarblöðunum.

# VÍSUR UM SAUNG[1].

## 1.

1849?

Opt er kallað: *„en, to, tre,*[2]
ekki er þetta svona, nei;
*h* og *c* þið hittið ei;
haldið þið áfram, svei, svei, svei“.

## 2.

Held eg sem helgan dóm
hörpunnar sætan óm;
:|: þann til að heyra hljóm,
hlypi jeg suð'r í Róm :|:.

[1]) Allar vísurnar „um saung“ eru teknar eptir] minni, og eru gerðar, þar sem skáldið hlustaði á saungkennslu eða hljóðfæraslátt í næsta herbergi.

[2]) Les e i n, t ú, t r e i.

3.

UNDIR NAFNI HÖRPUSLAGANS.

Eg el í rænu rúmi
svo ramman harmaspreing;
eg sit í svörtu húmi
við sætan hörpustreing.
Af þessu styttist stundin
hjá stúlku jafnt sem dreing;
við þetta lèttist lundin,
eg leik á hörpustreing.

## HÖFUÐSKÁLD.

Gelur Jóns[1] við guma börn
gullbjartur hani;
Sigurðar[2] dillar svanur á tjörn,
svartagalls bani;
Benedikt[3], sem bjarg-örn,
brunar flug-gani;
fyrir þessum hal hvörn
held eg verða í jani.

[1]) Jón prestur Þorláksson.
[2]) Sigurður sýslumaður Pètursson.
[3]) Benedikt Gröndal assessor.

## BJARNI THORARENSEN.

Hefir fræði fyrðum seld
fróðleiks gæða kjarni,
látið glæða andar eld
andann kvæða Bjarni.

## BROT.
1847.

Hríð var laung, þar er háði
hljóðvarps lotu snarpa
óðsnjall orða hlýðir[1]
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .

[1]) Óglögt í handritinu.

## GERÐARFÖR
### EPTIR LÁRUS SIGURÐSSON[1].

Skoðaðu þann, sem loptin lèt
loga fögrum brenna,
og Gerði bauð um fálka flet
fram til Sælands renna.

Sá rèð prýða öllum auð
óð, er mátti skarta;
en lèt ei haus af hvítum sauð
á horgemlínginn svarta.

## SÈRA PALL SKÁLDI[2].
### 1838.

Kemur á nóttu kvæðadís,
kröptug, tignarleg, fjörug, vís,
sú þekkir sína dreingi.
Ljær hún skáldinu líf og sál,
ljósar hugmyndir, fallegt mál
og frægð, sem lifir leingi.

---

[1]) Lárus heitinn Sigurðsson hafði ort kvæði á fæðíngardegi Friðriks sjötta; það kvæði byrjar svo: „Glid ei saa hastig bort, o elskte Sol", og kallar Sveinbjörn það Gerðarför, og hefir hann kveðið um það þessar vísur.

[2]) Kveðið í Viðey, þá sèra Páll var að yrkja. S. E.

## NJÓLA

EPTIR BJÖRN YFIRKENNARA GUNNLAUGSSON.

1843.

Eins og sól, um aðaldjúp
uppheims bóla flogin,
tendraði Njóla í helgum hjúp
himinsjóla login.

## SKÁLDFRESS OG FREYUKETTUR.

Skáldfress kettur kyssa
(keimur er að því) breima
(oss lízt óðgerð þessi
eigi greppileg) Freyu.
Högna loðir í læðu
(laus verður ást í blástrum)
önd (þykir af því standa
ílt fár) veiðihárum.

# KÖTTURINN OG SJÖSTJARNAN.

Sjöstjarna ef sætum á
silfurfögrum hnetti,
óhætt væri okkur þá
Óðs- fyrir -brúðar ketti.

Þó hann stökkin tíu og tvö
tæki í nógum vindi,
upp til þeirra systra sjö
samt ei komast myndi.

Nema einhver Ásaþór
undir belginn tæki,
og svo köttinn orkustór
upp til himins ræki.

En þú grúinn stjarna stór,
stráður fofnis dýnu,
kæfðu bæði kött og Þór
í klára ljósi þínu.

# TEKINN MÁLSTAÐUR NÚMARÍMNA SIGURÐAR BREIÐFJÖRÐS.

Sjálfrar Iðunnar annar ver
auméngjann Sigga þyrnum stíngur
(hvössum málbroddum hreifir slýngur),
ljóð hans saxar og sundur sker.
Niður að dimmri Niflheims strönd
nennir að krækja um bjarta morgna;
skrímsli sèr leiðir ljótt við hönd,
*lygi* gallsvarta, djöfulborna.

Þennan andskotans versta varg
vígir hann sínum mentabróður,
þylur vanstiltan vígsluhróður,
hóf leggur undir harðast farg.
Vorkun og mannúð vísar burt,
vígamannlega streing fer toga,
afbryðisamur[1] orðið hvurt
yddir og skýtur máls af boga.

Hann vissi þó, að Braga brúð
blómgresi las á Sygnár[2] eingi,
og á Horndránga horfði leingi,
starsýn, og kaldra kletta skrúð.

---

[1]) Svo sem annar maður Iðunnar. S. E.

[2]) Seine, fljót hjá París. S. E.

Hann vissi þó, að hróðrar goð
hveitibrauð át með dýru sufli
klæddur í lín, og reif sèr roð
röggvuðum skyktur vaðmáls-kufli.

Hann vissi það, að volgan blæ
kýs ástkærasta beðjan Braga
á beði rósa mjúkum draga
ljúft inn í vit sèr æ og æ.
Veit hann þá ei, að vegleg snót
veltir sèr títt í hvanna-stóði,
og hefir einatt helgan fót
hvítu laugaðan jökulflóði?

---

Verði *Styrr* stóri jan,
sem staglast á Flórían[1];
lítið tel eg hans hrós,
þótt haldi með Fransós[2].

---

[1]) Flórían var frægur rithöfundur með Frökkum; hann reit meðal annars söguna um Núma Pompilíus, sem Sigurður Breiðfjörð hefir snúið í ljóð í Númarímum.

[2]) Frakkar er á þjóðversku Franzosen.

---

# SKÁLDSKAPARDÓMAR.

## 1.

Þetta birtir bragarskort,
blómaskert og heldur þurt,
það er stirt og illa ort,
ekki vert að láta burt.

## 2.

„Edda prýðir“, allir lýðir segja;
én hana að brúka of mjög er
eins og tómt að jeta smèr.

## 3.

Skaparinn ekki það skyn gaf mèr,
skáldskap að dæma, sem vera ber;
en hitt hann mèr gaf, svo gjörla eg þekki,
hvort grautur er soðinn, eða fullur með kekki.

## DÓMUR[1].

Gott var það, að bar mèr blað
bænar-orðin góðu;
og lítill skaði, að *-ar* og *-að*
ekki í skorðum stóðu.

## EG ANN OG EG KANN[2].

Óðar drós þú „unntir“,
ekki að slíku eg tel,
en þú ekki „kunntir“
að henni fara vel.
Bágt var það, en bót er sú:
yrkja kunni afi þinn,
þó ekki „kunntir“ þú.

[1]) Í ljóðakveri Sveinbjarnar segir svo: „Kristján Björnsson skrifaði neðan á brèf til mín:

Þèr afhendir búið blað
bagur hróðrar smiður;
í friðarstandi farsældar
faðmi drottinn yður.

Crisis“, það er fyrirsögn skáldsins.

[2]) Kveðið í Kaupmannahöfn 25. október 1845.

## UM KVEÐSKAP SINN[1].

1844.

Þú biður mig að semja sálm,
sem ei skal bjóðast flónum;
það er: að benda breyskan álm
úr beykiviðar spónum;
þegar rifið á þönum er,
það hrökkur sundur, eins og gler;
og þá fer nú ver.

En örin, sem þó átti fyrst
í eitthvert hjartað fljúga,
um merg og bein, í blóðið þyrst,
og brjóstið gegnum smjúga,
hún finnur sæman samastað,
seint og hægt veltur ofan í hlað;
það er nú það.

[1]) Þessar vísur sendi Sveinbjörn heitinn yfirdómara Þ. Sveinbjörnssyni, er hafði beðið hann að yrkja sálm, sem syngja skyldi, þegar alþíng væri sett sumarið eptir. En Sveinbjörn heitinn afsakaði sig með vísum þessum, er hann sendi í staðinn fyrir sálminn.

## LÓUVÍSA[1].

1844.

Meðan eg sit hèr og sýng um þig, litfögur lóa,
leiktu þèr hvorki við örnu, nè smyrla, nè kjóa.
Vör um þig ver.
Vertu kyr heldur hjá mèr,
og spreyttu þig þar við hann spóa.

## BRAGRAUN.

1848.

1.

Seint mun þverra Són og Boðn[2],
seint munu Danir vinna Hveðn[3].
Fyrr mun laxinn flýa úr Goðn[4]
og Finnar öllum sneyðast hèðn.

[1]) Organsleikari P. Guðjohnsen hafði sent Sveinbirni heitnum nótur yfir lag þetta, og beðið hann að yrkja undir því sálm til alþíngissetníngar sumarið eptir, eins og þ. Sveinbjörnsson (sjá næstu neðanmálsgrein á undan). En Sveinbjörn heitinn sendi Guðjohnsen að eins þessa vísu.

[2]) Sjá Snorra- eddu, Reykjavík, 1848, 47.—49. bls.

[3]) Ey í Eyrarsundi, er liggur undir Svíþjóð.

[4]) Á á Jótlandi.

(SAMA VÍSA ÖÐRUVÍSI.)

Seint mun þverra Són og Boðn,
seint munu Danir vinna Hveðn,
seint mun þverra síld í Goðn,
seint mun Finnum leiðast hèðn.

2.

Svartan leit eg fljúga fugl,
fluginn þandi, líkt og segl;
augum vendi hann að Hugl,
og hafði á lopti beittar negl.

## UM BAKMÁLGAN ÓVILDARMANN[1].

Þú heimafædda húsgángsvömm,
hjartbleyði, ferð á svig;
hitt þykir deigri hætta römm,
að hafa frammi sig;
lætur því hreistruð gómsnáks glömm
gnauða krókboginn stig.
Þækti mèr ekki að skömmum skömm,
skyldi eg finna þig.

---

[1]) „In maledicum obtrectatorem", fyrirsögn skáldsins.

## SLETTIREKA.

Sá, sem að nuddar nefi
 í náúngans koppi,
krækir kánkvísri drambtrjónu
 í kvarnarsteins auga;
hángir þar, og hángir æ
 á hálu misnesi,
og augum gýtur eldrauðum
 á uglu sína.

---

Hanar og svanir halda hóp,
ernir og tranar leita;
komast ei man í kransinn þann
kvikindið allra sveita.

---

## FRÍÞEINKJARINN.

Trúðu bæði á stokk og stein;
steinar aldrei deya;
haltu þèr fast við hold og bein,
hvað sem aðrir segja.

## MANNLÝSÍNG.

---

Þú mig biður (það er skylt
þína bæn að gera),
Kirkjuvíkur kristinn pilt
karakterisèra.

Trúarbrögðin hans eg held
hvikulari en skarið:
eitt í gærdag, annað í kveld,
alt er á morgun farið.

Himnaríki er hèr og þar,
hèrna og úti á Sviði[1].
Andskotinn er ekki par;
alt er að tarna á riði,

Hann í kvenna ástum er
áfjáðari en hrútur;
af ákavíti í hann fer
átta potta kútur.

Hann í N....... hefir bú,
hleður barna grúa;
uns af jörðu öll er trú,
ætlar þar að búa.

---

[1]) Svo heitir djúpmið á Faxaflóa.

Hans eg listir tamar tel,
trautt er karl óslýngur:
málar, reiknar, ritar vel,
r . . . . . . . og sýngur.

---

## STÖKUR.

---

Veröldin arga varð honum hál,
og vildi för hans tálma.
Anakreon má um hans sál
yrkja passíu-sálma.

---

Sá hefir brandi brytjað öld,
bifað landi málma;
borið á sandi skarðan skjöld,
skotið grandi hjálma.

---

## EINGINN VERÐUR ÓBARINN BISKUP.

Lysti þig, steinn, eg leggi þig
í lag á bæarveggjum,
ofurlítið láttu mig
laga þig til með sleggjum.

## HEILRÆÐI.

Þegar hugann harmur sker
og hverfur sálar dugur,
borða og drekka bezt þá er;
batnar við það hugur.

Eins og þegar á söltum sjá
sjósótt kvelur rekka,
ekkert ráð er annað þá,
en að jeta og drekka.

(SAMA ÖÐRUVÍSI.)

Þegar hrafnar Óðins á
öndu leita þína,
vilja bíta, berja, slá
og bannsett nefin sýna.

Varast, þeirra vángageir
verði þèr að meini.
Sólgnir eptir sækjast þeir
sálar augasteini.

## „SKRIPTIN ÞÍN ER SKÖKK OG SLJÓ“.

Hlykkjast skript, sem hrökkáll
hríngi sig um stein kríng;
það er þokkalegt.

## LAUST ER LÁNSGLIS.

Maður lánar opt hjá öðrum,
annara margir veifa fjöðrum.
Hefi eg leingi haft þá grunu.
Hyggstu betur gera munu?

## „ALLA AÐ SAMA BRUNNI BER.“

1843.

Kýrin heimtir gras, gras,
geingur frek um tún og eing.
Hrafninn segir kras, kras,
keingboginn af sultarspreing.

## „EINGINN DREGUR, ÞÓ ÆTLI SÈR", O. S. FRV.

1838.

---

Guð af mestri mildi
manna greiddi hag;
vel hann öllum vildi
veita nótt sem dag.
Ei hann geðjast öllum þó;
af því draga einginn kann
annars fisk úr sjó.

Mergð af fiskum fylti
foldar vötn og lá;
lèk sèr laxinn gylti
lagar miðum á.
Guð ei öllum geðjast þó;
af því draga einginn kann
annars fisk úr sjó.

Maður á lýsu láði
lítinn upsa fèkk;
annar aungvu náði;
að honum fast það gekk;
hánkaði vað og heim sig bjó.

„Einginn dregur“, aumur kvað,
„annars fisk úr sjó“[1].

Ríka blessun bjóða
bæði vötn og lá;
margir minníng góða
mega þar af fá.
Guð ei öllum geðjast þó;
af því draga einginn kann
annars fisk úr sjó.

---

[1]) þessa vísu hefir og skáldið haft þannig:
Maður einn á miði
mikinn afla fèkk;
annar á sama sviði
snauður þaðan gekk;
hánkaði upp og heim sig dró.
Eingan draga aumur kvað
annars fisk úr sjó.

## GEYA HVELPAR Í GREYHUNDUNUM[1].

1850.

Heyra má nú hvolpa glamm
hátt í greya nárum,
líkt og Gormur flutti framm
fyrir þúsund árum.

## ÍSLANDS FATIS AGIMUR.

1850.

*Tempestate trudimur,*
tóa leitar sauða.
Íslands *fatis agimur,*
úlfar í holti gnauða.

[1] Sbr. Fornmannasögur, XI. bindi, 10. og 12. bls.

## ÞJÓÐÓLFUR ÚTLÆGUR.[1]
1850.

Þjóðólfur nagar neglur á sèr,
numinn í burt frá sprökkum.
En landstíðindin leika sèr,
sem lömb á vatnaþökkum.

## SÍNUM AUGUM LÍTUR HVER Á SILFRIÐ.

Hjá virðum sumum vizkan dýr
vegleg gyðja heitir;
öðrum er hún kostakýr,
kálf og mjólk sem veitir.

[1]) Prentuð eptir minni; sbr. Þjóðólf 2. ár, 34. og 35. blað, bls. 144.

## MIKIÐ SKAL TIL MIKILS VINNA.

1851.

Að hreppa vizku hunds fyrir bein,
hugsa það einginn skyldi.
Óðinn gaf burt sinn augastein[1],
af því hann fræðast vildi.
Með auganu, sem var eptir þá,
ellefu sinnum betur sá
draughúsa drottinn gildi.

## LAUSA-STÖKUR.

Ef að vanta varmafaung,
vist og heyaforðann,
„Þorra-dægur þykja laung,
þegar hann blæs á norðan"[2].

[1]) Sjá Völuspá, 22. v., og Snorra-eddu, Reykjavík, 1848, 10. bls.

[2]) Fyrri hluta þessarar vísu gerði Sveinbjörn heitinn, er hvorki hann nè kona hans mundu upphafið, sem á við síðari hlutann. Vísan er prentuð eptir minni.

Með skrykkjum kippist veröld við,
veltur á ýmsum röndum,
aptur og fram, og út á hlið,
eins og Loki í böndum.

---

1851.

---

Skörugleg er skepnan öll
af skaparanum gjörð.
Eða veiztu nokkurt vænna tröll,
en vora móður, Jörð?

---

## FYRSTA VÍSA, ER SKÁLDIÐ KVAÐ.

1802.

---

Árni[1] karl er viltur víst,
verr en nokkur sauður;
heldur hver ein hríngarist
hann sè nærri dauður.

---

[1]) Árni þessi var vinnumaður hjá yfirdómara M. Stephensen, er hann var á Leirá. Hann viltist um kvöld í kafaldi. Vísan er prentuð eptir minni.

Titra hvinir, leiptra lopt,
löndúngs stynur beðja,
þá ólinar Hlakkar hropt
heljar vinur kveðja[1].

---

## UM VINNUKONUR, SEM GEINGU AF GLEÐILEIK.

Gánga heim frá gleðileik
gæsir þvotta-stampa;
lýsir af þeim, sem kveyktum kveyk
í kúastofu-lampa.

---

## STJÖRNUSKOÐARINN.[2]

Gyrgir þunni glápir á skýaveldi;
r . . . . . . . . á himnahrút
hálf-glottandi mælir út.

---

[1]) Tilefnið til þessarar vísu var það, að yfirdómari M. Stephensen skaut byssu til marks, og tók undir í Akrafjalli, er skotin riðu af (því þá var hann á Innra-Hólmi). Tekin epir minni.

[2]) Tekin eptir minni. Þessi vísa og hin næsta á undan eru báðar kveðnar í Khöfn á árunum 1814—19.

## GRAFSKRIPT.

Hundur í þýzku hrökk upp af
(heillin mín komdu nú með traf
að þurka vatn af vaungum).
Hann át og drakk, en aldrei svaf,
eilífa þýzku frá sèr gaf,
og *der, die, das*[1] hann saung um.

## HEILLAÓSK.
1846.

Vellskorð, sem viði kann
vel að haga um eldsrann,
fái hún ætíð böls bann;
eg ber það fyrir hvern mann.

[1]) þ. e. greinirinn í þýzku, eins og hinn, hin, hið í íslenzku.

# UM ÞAÐ ER SKRÍLL DANA BRAUT GLUGGA HJÁ GYÐÍNGUM[1].

Hljóp þá út úr höttum grjót,
hent var því með snilli;
loptið gerðist svart, sem sót,
sást ei handa milli.

Svo var áður myrkrið megnt
Móisis að ráði,
þegar mýbit forðum frekt
Faraónem hrjáði.

Brotna rúðan mundi mjó,
mèlinu varð hún smæri;
jeg hef heyrt með Jeríkó
Jósúa þannig færi.

---

[1]) Vísur þessar eru ortar, þegar frèttist híngað um aðsúg þann, er gjör var að Gyðíngum í septemberm. 1819, bæði í Kaupmannahöfn og annarstaðar; sbr. „Íslenzk Sagnablöð, fjórðu deild“, 31.—34. dálk. En einkum mun það hafa ýtt undir Sveinbjörn heitinn að yrkja þær, að vinur hans, Ólafur Stephensen, sendi honum vísur eptir sig um uppnám þetta, og er ein þeirra svo:

Í þessu bili heróp: „H e p p“
heyra Daninn lætur.
„En eg frá þessu aldrei slepp“,
öskruðu Síonsdætur.

## UM APA[1].

1826.

---

Eitt Óðins dýr frá Afríká
til Íslands kom;
og sveinar vilja og sætur fá
að sjá þann vom;
en kindin lymska flot vill fá
og fisk og smèr;
hún ullarlagði liggur á,
það lítum vèr.
Svei aptan þeim ótætis-apa.

Það háska-dýr til höfuðs lagt
eg höldum sá,
en nafnið þess (mèr svo er sagt)
er simíá[2].
Það ullu með og fæðu fer
af fósturjörð,
en eptirskilur ekki hèr
nema apaspörð.
Svei aptan þeim ótætis-apa.

---

[1]) sem kom til Flensborgar við Hafnarfjörð S. E.
[2]) Simia er latínska nafnið á apa.

## VINTERFELDUR OG SVERIN[1].

Himni frá
fjölstirndum
sá Vinterfeldur
og Sverin bæði,
undrunar-fullir,
umstillíngar,
athugafullir
ítran kappa.

En guð vóg
grimma hildi
viður stjörnu-hreim
hvarratveggju.
Seig þá að hauðri
hlutur Prússa;
upp vatt sèr skál
Austurríkis.

---

[1]) Winterfeldt og Schwerin voru ágætir hershöfðíngjar Friðriks mikla, Prússakonúngs.

## ATTNESKIR MÁNUÐIR.

1849?

Sumri hæfðu hundraðsblót[1],
höfð á grönnum skipti[2],
Þeseifur við missiris mót
meyar gagni svipti[3].

Seyði bauna[4] haust upp hóf,
harður stormur gnúði[5],
Ægis[6] forkur öldu skóf,
aflið sterka knúði.

Vetur hjóna hnýtti band[7],
haga skaut upp blóma[8],
eltir hirtir alt um land,[9]
Artemis til sóma.

---

| | |
|---|---|
| 1. Ἑκατομβαιών<br>2. Μεταγειτνιών<br>3. Βοηδρομιών | sumarmánuðir. |
| 4. Πυανεψιών<br>5. Μαιμακτηριών<br>6. Ποσειδεών | haustmánuðir. |
| 7. Γαμηλιών<br>8. Ἀνθεστηριών<br>9. Ἐλαφηβολιών | vetrarmánuðir. |

Vorið kvaddi Múnyks-mey[1],
minnzt var Þargels-tíða[2],
sólhlíf borin[3] bleik, sem hey,
um borgarstræti víða.

---

1. Μουνυχιών
2. Θαργηλιών } vormánuðir.
3. Σκιροφοριών

Sbr. Bojesens græske Antiquit., Kh. 1841, 143.—144. bls.

## ÚR GRISKU.

## EPTIR HÓMER ÚR ODYSSEIFS-KVÆÐI.

---

### ÚR FYRSTU KVIÐU[1]:

Δὴ τότε κακκείοντες ἔβαν οἶκονδε ἕκαστος.
424. v.

---

Síðan fóru seggir heim til sinna kofa,
því flestir voru fúsir af þeim að fara að sofa.

---

### ÚR FIMTU KVIÐU[2]:

Ἠὼς δ' ἐκ λεχέων πάρ' ἀγαυοῦ Τιθωνοῖο.
1. og 2. v.

---

Morgungyðjan reis úr rúmi
ríkum Tíþón frá,
til að mýa myrkra-húmi
mönnum og guðum hjá.

---

[1]) og [2]) prentaðar eptir minni.

ÚR ÁTJÁNDU KVIÐU.

Οὐδὸς δ' ἀμφοτέρους ὅδε χείσεται· οὐδέ τί σε χρή.
17. v.

---

Annara má í augum þèr
ekki blæða þokki;
báðum rúm hèr ærið er
okkur á dyrastokki.

---

## MINNISLJÓÐ YFIR MIDAS[1].

Χαλκέη παρθένος εἰμι, Μίδεω δ' ἐπὶ σήματι κεῖμαι.

---

Stend eg, úr eiri mynduð mær,
Mídasar legstað á.
Meðan himinskúr foldin fær
og frjóvgast eikin há;
máni svífandi og sunna skær
senda ljós himnum frá,
vötnin bakkafull velta, og sær
veitir að ströndum lá:

Mun eg harmsælum haugi á
hýrast og una mèr,
og segja þeim, sem hèr fer hjá:
„Hèr Mídas lagður er“.

---

[1]) Úr smákvæðum þeim, sem Hómer eru eignuð (Ἐπιγράμματα, Γ.).

(SAMA ÖÐRUVÍSI.)

---

Meðan skúrir
úr skýum drjúpa,
og göfug trè gróa,
og sig sjá lætur
sól rennandi,
og ljóss-máni lýsir;

Meðan fljót falla
full á barma,
og lögur á land geingur:
Mídasar stend eg
mey á leiði,
öll úr eiri gjör.

Þar eg þrumi
þurrum augum,
gnæf á grátnu leiði,
lýsi fyrir líðöndum,
að liggi hèr
Mídas moldu ausinn.

---

## EPTIR SAPPHO.

Φαίνεταί μοι κῆνος ἴσος θεοῖσιν.

II. kvæði[1].

Sá gumi líkur guðum er,
gullfögur augun þín er sèr,
og málið sætt af munni þèr
og mildan hlát'rinn nemur;
því hjartað mitt á flótta fer,
felmtrað í brjósti lyptir sèr,
þá eg þig lít, og málið mèr
af munni varla kemur.

Um hörund leikur loginn tær,
lömuð er í mèr túngan mær,
grand ekki sjá mín augun skær,
fyrir eyrum hljómur sýður;
um kroppinn svita köldum slær,
af kvíða-hrolli skinnið rær,
fölna'g sem grasið, fjör og blær
af feigum nösum líður.

---

[1]) Prentað í Snót, 1850, 128. bls.; en hèr eptir eiginhandarriti.

# EPTIR ANAKREON.

## 1.

Θέλω λέγειν Ατρείδας.
I. kvæði.

---

Yrkja eg vilda'g
um Atreifssonu;
kveða eg vilda
um Kaðmus frægan;
en hreimsterkir
hörpustreingir
ástir einar
undir súngu.

Stilta'g áðan
streingi af nýu,
og end'r um skóp
alla hörpu.
Þylja tók eg Herakless
þrautir gjörvallar;
en harpa nam ástir
endurkveða.

Læt eg því kvaddar
kenpur allar;
því harpan um einar
ástir sýngur.

## 2.

Φύσις κέρατα ταύροις.

II. kvæði.

BROT.

---

Hófr gafst hestum,
en horn griðúngum,
hèrum hvatfæri,
dýrum óarga
upphaf tanna;
flugmagn fuglum,
fiskum að sveima,
hyggjandi hölum,
. . . . . . . .

Hvað gafst þá nettum
nornum banda?
. . . . . . . .
freyum þorna,
skjöldum öllum skarpari,
sköptum öllum stinnari.

## EPTIR THEOKRITUS.

Ἁ πενία, Διόφαντε, μόνα τὰς τέχνας ἐγείρει.

XXI. kvæði.

BROT.

Fátæktin vekur iðnir ein,
erviðið manni sjálf hún kennir;
því að atvinnu ergjan mein[1]
ei leyfir svefn, þeim störfum nennir;
og þó á nóttu stutta stund
stíngi sèr dúr á augun bæði,
áhyggjan rís, og blíðum blund'
bregður og öllu svefna næði.

Í vandarkofa kúrðu tveir
karlar, er lifðu sjós á fángi;
upp við laufvegginn lögðust þeir,
og lágu á þurru blöðru-þángi.
Hjá þeim lá þeirra handargagn:
hampriðnar vörpur, skrínur, færi,
slýug net, dorgir, aunglar, agn,
undnar kelpur og þarfa-snæri.

. . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . .

[1]) Sama sem meinleg.

## EPTIR MOSKUS.

### SKÁLDIÐ Í SKINNSTAKKNUM.

Τὰν ἅλα τὰν γλαυκὰν ὅταν ὥνεμος ἀτρέμα βάλλῃ.

V. kvæði.

---

þegar golan gráa
gárar vatnið bláa,
    hugurinn frá mèr fer:
þá fer lystin ljóða;
lángtum heldur góða
    lognið líkar mèr.
Djúp þá grátt
dunar hátt,
    öldur skella,
    froðu-fella,
frá er eg þá með lögum[1].

[1]) þetta sýnist vera breytíng sömu vísu:
þegar blærinn blíði
blaktir hægt á víði,
    hugur einn eg er:
[gef eg gyðju ljóða
góðan dag, því hljóða*
    lognið laðar að sèr.
En djúp þá grátt
dunar hátt,
    öldur skella,
    froðu-fella,
fer eg um öxl að líta.

*) Fyrir þessar 2 hendíngar hefir skáldið og haft þannig:
lags og ljóðagreina
læt og gyðju eina;
    því, o. s. frv.

Flý eg fláan græði,
finn eg meira næði
  á skóg og grænni grund;
þar er fast und' fæti,
fögur skógar-læti,
  svalt í ljúfum lund';
þó að þar
þjóti snar
  blær um grundir,
  ótal undir
ángar sýngja furu.

Aum er sjómanns æfi,
elur hann dvöl á sævi,
  skip er húsið hans;
valt er veiði að stunda;
vil eg heldur blunda
  und' breiðum bjarka krans;
lindin blá
mèr leikur hjá,
  eyrað gleður
  glaumi meður;
gaman er þar að vera.

## EPTIR HERODOTUS.

Ἔρριπται δ' ὁ βόλος, τὸ δὲ δίκτυον ἐκπεπέτασται,
θύννοι δ' οἰμήσουσι σεληναίης διὰ νυκτός.

I. bók, 62. kap.

---

Voð er varpað
veiðifángs til,
Loka lögvèlar
leika á þönum;
að munu leiptrar
laupandi koma
á móður Dags
mánabjartri.

---

(SAMA ÖÐRUVÍSI.)

---

Voð er varpað
veiðifángs til,
þanin lögvèl Loka;
að mun leiptur laupa
í lýsu Dags
móður mánabjartrar.

---

## EPTIR LUCIANUS.

(TIMON, 41. GR.)

Ó, mitt gullið góða!
gripur bezti þjóða,
eins og glampinn glóða,
þú glóir dag sem nóttu,
aptanstund sem óttu.
Komdu hèr, hèr, hèr! komdu hèr, hèr, hèr!
komdu hèr! eg klappa þèr,
koss af vörum hljóttu.

---

## Φθεγξεῖταί τι (σάφ᾽ οἶδα) καλον· διαθρύπτεται ἤδη·

1850.

Fallega mun sýngja sú,
sè eg til þess merki;
upp nú belgist brjóst á frú,
búngar út í serki.

# DÆMISÖGUR[1].

## 1.

### ASNINN MEÐ GOÐALÍKNESKJUNA[2].

Asni bílæti bar um stræti,
bljúgur það tilbað maður hver.
Hann fram hjá rauk með hofmóðs-læti.
heyrði þá kallað eptir sèr:
„Þó goð þú berir, goð ei ert;
gættu vel að því, hver þú sèrt“.

## 2.

### MAÐURINN OG KISA, KONA HANS[3].

Maður kisu kvongaðist;
kærar ástir tókust fyrst.
En þegar mjálma mýslu sá,
manni sínum hljóp hún frá.
Eðlisháttum einginn hlutur aptra má.

[1]) Fimm fyrstu dæmisögunum er snúið úr Gabriæ Græci Tetrastichis (fabulis).

[2]) Þetta er 6. dæmisagan hjá Gabrias.

[3]) 16. dæmisagan hjá Gabrias.

3.

## HÆNAN, SEM ÁTTI GULLEGGIÐ, OG HINN ÁGJARNI[1].

Hæna gulllegt átti egg;
ágjarnan það gladdi segg.
Allur hann á hæli snýst,
hrópar: „Það mig varði sízt;
af tæra gulli troðfull ert, það tel eg víst“.

Sækir hníf og hana sker,
horfa grant í sárið fer.
Ekkert gull, en eintómt blóð;
eins og dæmdur maðurinn stóð.
Gróðavonin grennir tíðum gildan sjóð.

---

1) 21. dæmisagan hjá Gabrias.

4.

## STJÖRNUSPEKÍNGURINN OG FERÐAMAÐURINN[1].

Spekíngur starði stöðugt á
stjörnur í lopti fjær;
dálega biltu datt hann þá,
drap í sèr bæði lær.
Ferðamaður gekk honum hjá,
hugvekjur gaf honum þær:
„Þèr er betra að því að gá,
sem þèr er hóti nær“.

5.

## ÚLFURINN OG ASNINN[2].

Úlfur dró flís úr asnafæti;
aleflis-högg í staðinn gat.
„Ei sómdu mèr þau læknis-læti,
lèt mèr það bezt, að fást við mat“.
Svo kvað úlfur; en sannast hèr:
sjaldan fer vel, þá tilbreytt er.

[1]) 22. dæmisagan hjá Gabrias.
[2]) 38. dæmisagan hjá Gabrias.

6.

## GIMBRIN OG HIRÐIRINN.

Eitt sinn gimbur hvarf úr hjörð;
hirðirinn fer um alla jörð;
gripinn finnur samt ei sinn,
segir hann þá: „Drottinn minn,
þú skalt hafa þrèvett kið, ef þjófinn finn“.

Lítur hann þá, hvar leon fer,
lambið hafði í kjapti sèr.
Hræddur varð við þjófinn þá,
þrisvar guð hann kallar á:
„Þú skalt hafa þrèvett naut, ef þar kemst frá“.

## 7.

### KRABBINN OG TÓAN.

Krabbinn vildi verða lamb,
vappaði yfir malarkamb;
fór að bíta grasið grænt;
greyinu þókti um lífið vænt.
Duldist svo í dýrum haga dýrið kænt.

Kom þá tóa kvíðaþunn,
kauðann lagði sèr í munn;
mælti krabbinn mæddur þá:
„Mèr var bezt að vera í sjá.
Sjaldan, bræður, betur fer, þá breytt er frá“.

## ÚR LATÍNU.

### EPTIR PLAUTUS.

. . . . *Fac sis vacivas aedes aurium.*
*Pseud.*, *I*, 5, 54.

1851.

---

Til þín orð sem eru fús,
ei svo þurfi stranda,
láttu opin eyrna hús
á þèr, vinur, standa.

---

### (SAMA ÖÐRUVÍSI.)

---

Til þín orð sem eru fús,
eigi svo að strandi,
auð og liðug hlusta hús
hjá þèr, vinur, standi.

---

(SAMA ENN ÖÐRUVÍSI[1].)

Ef þú vilt, að orðin mín
eigri þèr til handa,
ættu húsin eyrna þín
opin þá að standa.

[1]) Síðasta vísubreytíngin er tekin eptir ljóðakveri skáldsins, en hinar tvær fyrri eptir brèfi til vinar hans.

## EPTIR HORATIUS.

### 1.

*Solvitur acris hiems grata vice veris et Favoni.*
*Od. I, 4.*

---

Undir latínska laginu.

Þiðnar á vorinu þelinn í jörðu
í þægum vestan-gusti,
og eiki-hlunnar ýta þurrum kjölum.

Búsmalinn unir ei básunum á,
nè bóndason við eldinn,
nè eingjar grárri eru loðnar hèlu.

Venus nú dansandi flokkana færir
í fögru mána-skini,
og Ljúfurnar siðlátu sjást með Skógargyðjum.

Þær dansleikinn stíga, svo stynur und' fold,
meðan stækan aflinn jötna
vellheitur brælir Vúlkanus í smiðju.

Skylt er, að girða nú gljáandi koll
með grænum murtukransi,
eða blómstri því, er grær á þíðri grundu.

Skylt er að offra nú Fánusi fórn

í fölvum skógarlundi,
hvort sem hann girnist gimbur eða hauðnu.

Helblái dauðinn, hann hurðina knýr
á höllum konúngmanna,
minn sæli Sextius, sem á kotúnga hreysum.

Skammvinna lífsdvölin leyfir oss aldregi
lánga von að byrja;
því dettur á nótt og dauðarökkrið svarta.

Þá þú til dauflegra draugheima kemur,
þar daprar vofur flögra,
til kæmeistara þú kosinn ei verður með tólfum.

Þar ei við Lucidam augun þín una,
það ástargoðið sveina,
er senn um hjartað hýru gerir meyum.

———

2[1].

*O navis! referent.*
*Od. I, 14.*

---

Eiga nýar aptur þig
öldur, knör, að færa á mar?
hvílíkt óráð, hvettu stig
heim í vör og kúrðu þar.

Sèrðu ei, hve illa ment
eru borð, hve svigna rár,
búnar til að brotna í tvent,
brakar laukur[2] veðra sár?

Hvernig efldan ægisvöl
af sèr húfur[3] bera kann,
nema veikan vefji kjöl
vara-bönd og styrki hann?

Húna rifinn hjúpur er;
þú hefir eingar lyptíng í
bjargvættur til þarfa þèr,
þraut ef ránar hefst á ný.

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, og borið saman við Klausturp. 1820, 20.—21. bls.

[2]) siglutrè.

[3]) skipssíða.

Þó að fágað furutrè,
fagurlima[1] jóð ágætt,
af sem hrokar, í þèr sè,
ætt og nafn ei tjón fá bætt.

Steindum kneri vogmars-ver[2]
varla treysta skelfdur mun.
En ef fer ei feigð að þèr,
fyrir hvern þín gættu mun.

Þín, sem áður ollir mèr
órór, leiða, sakna'g nú,
og læt mèr ant, að voða-ver[3]
vorpinn skerjum forðist þú.

---

[1]) skógar.

[2]) sjómaður.

[3]) hættulegan sjó.

3.

*Sumite materiam vestris, qui scribitis, æquam.*
*Ars poët. 38.—40.*

---

Yrkisefni
skyli aldasynir
við sitt hæfi velja;
því at eigi var ein
orka lagin
ýtum í ár daga.

Hóflig byrði
at húsi kemst,
þótt vanknár vegi;
en afrendan hal
sá ek frá of stórum
steini móðan stíga.

---

## EPTIR OVIDIUS.

### 1.

*Pyramus et Thisbe, juvenum pulcherrimus alter.*
*Metamorph. IV, 55.—77.*

---

Heyrða eg segja
í sögum fornum
Pýrami frá
og fríðri Tisbu:
hann var ítr-skapaðastr
úngra sveina,
en hún fegrst mær
á fold alin.

Bygði hús hvârt
hárrar borgar
halr og víf,
svo að þau veggr um skildi;
þá hafði borg
með brendu grjóti
Semíramis rík
ramla studda.

Kveyktu kunnleika
og kærleiks-þel
milli vífs og vers
vistir nánar;

og ástir þaðan
í úngum hjörtum
uxu einum degi
öðrum framar.

Teingt hefðu saman
tryggvar ástir
föstum festum,
ef þeim feðr leyfðu;
en þeim feðr
fyrirmundu,
það er fyrirmuna
feðr nè knáttu.

Jafnt brann beggja
brími ástar:
mæltu merkíngum,
mæltu bendíngum.
Logi lá niðri,
svo að lofðar nè vissu;
lágt í leynum
logaði at meirr.

Hafði múrveggr,
er á milli var
húsa, í hleðslu
hlotið sprúngu;
þess hafði galla

guma eingi
orðið áskynja
æfi lánga.

Þessa gættu fyrst
gjörðarlýtis
(fundvís er ást)
þau, er framla unnust.
Lögðu leið orðum
um litla smugu,
hvísluðust óhult
með hljóðskrafi.

Opt stóð Pýramur
annars vegar,
en hins vegar
hæversk Tisba;
þá fann hvort
úr hins munni
anda ánganda
að sèr leggja.

„Hví viltu, veggr,
viðr bægja
okkr, sem elskumst“?
intu bæði.
„Leyfðu, að líkamir
(er-a lítils beðið)

lim við lim
leggist okkrir“.

„Eða, sè of beðið,
að okkrir mætist
munnar til
mjúkra kossa;
þèr eigum þakka
(þakklát skulum),
að liggur leið orðum
til ljúfra hlusta“.

---

2.

*In cursus animus varios abit . . . . .*
*Metamorph. IX, 152.*

---

Hugurinn lömbum smalar smátt,
smýgur vítt um geima,
rennir skeið í ýmsa átt,
ekki er hann tíðum heima.

---

3.

*. . . . . . Careat successibus opto,*
*quisquis ab eventu facta notanda putat.*
*Heroïd. II, 85.—86.*
1845.

---

Aldrei heill á sjálfum sèr
seggja nokkur taki,
ef hann góðar athafner
urðar á hurðarbaki.

Fái þeir í fótinn mein
(flestir munu það sæma),
verkin sem af einum ein
afdrifunum dæma.

---

## 4.

*Sero respicitur tellus, ubi fune soluto.*
*Amor. II, 11, 23.—26.*
1845.

Of seint er þá til lands að líta,
leyst þegar knarar festin er,
og boginn stafn um hafið hvíta
hlaupa geyst út í bláinn fer;
þar er sjómenn, með huga hálfum,
hræðast vindanna kaldlynt þel,
og utanborða sjá að sjálfum
sitja jafnnáið Rán og Hel.

## 5.

*Certa tibi a nobis dabitur mensura bibendi.*
*Ars am. I, 589.—90.*
1845.

Hafðu, ef þèr veitt er vín,
vinur, reglu slíka:
vinna skulu verkin sín
vit og fætur líka.

(SAMA ÖÐRUVÍSI.)

Neyttu, ef þèr veitt er vín,
vinur, minna ráða:
vinna láttu verkin sín
vit og fætur báða.

---

6.

*Qui nimium multis, „Non amo“, dicit, amat.*
*Rem. am. 648.*
1845.

---

Þrávalt ef segir einhver, að
„ekki er mèr gulls um Hlín“,
ávalt er segin saga það,
sá er kvennþjóðar vin.

---

7.

*Passibus ambiguis fortuna volubilis errat.*
*Trist. V, 8, 15.*
1849.

Opt það sannast máltak má
(menn þess allir gæti):
gæfan veltur einatt á
óstöðugum fæti[1].

8.

*Nescio qua natale solum dulcedine cunctos.*
*Epist. ex Pont. I, 4 (3), 35. og 36.*

Leika landmunir
lýða sonum,
hveim er fúss er fara.
Römm er sú taug,
er rekka dregur
föður-túna til.

[1]) Prentuð eptir minni.

9.

*Hæc dea, quum fugerent sceleratas numina terras.*
*Epist. ex Pont. I, 7 (6), 29.—36.*
1845.

Þegar goðin flýðu frá
foldu dygða snauðri,
vonargyðjan ein varð á
ástalausu hauðri.

Veldur hún, að veltir hnauss,
viðjum bundinn, tórir,
og vonar, fótur verði lauss,
er vefja fjötrar stórir.

Skapar hún, að skipbrotsdrótt,
skoluð hafs í legi,
höndum baðar hart og ótt,
hvergi land þótt eygi.

Læknar opt með ráðið ramt
ráðalausir hika,
vonar án ei eru samt,
þó æðin hætti að kvika.

10.

TIL TUTICANUS.

*Epist. ex Pont. IV, 12.*

---

Frá mèr aldrei færðu blað,
færi eg það í sögu:
það er fjári að fást við það,
að fá þitt nafn í bögu.

En væri nokkuð virðíng sú,
í vísu að standa minni,
einginn fyrða fyrr en þú
fá þann heiður kynni.

En nafnið þitt og þetta lag
þýðast illa saman;
að koma því inn í þenna brag
það skal ei vera gaman.

Það er sjömm, að Sónarlá
sundur nafnið búti,
og láti *-canus* fara frá
fremra stúfnum *Túti.*

Að hlaupa á stafnum, hægt er það,
en held eg sómi valla,
það er að tölta' yfir tíkarvað,
*Túticanum* að kalla.

Atkvæðið þó yrði skamt,
sem ætti lángt að vera,
*Túticanus* illa klíngir samt
í kvæði fram að bera.

Að bilta hljóði, breytið er,
og brjálað orðum getur,
og *Túticanus* ei fer
einu hæti betur.

Ef brjálaði eg við bragarspjöll
bezta vinar nafni,
hafa mætti eg háð og sköll,
og heita klaufa jafni.

Því hefir dvalið Dvalinsker
dýrt í minnis-eigu;
nú skal bæta þetta þèr,
og það með fullri leigu.

Kunníngi, það kætir mig
kvæði um þig að ljóða.
Úngur þekti eg úngan þig;
eitthvað skal þèr bjóða.

Því um allan aldur þann,
sem okkur hlotnast kunni,

þèr, sem bróður bróðir ann,
af beztum hug eg unni.

Tíðum góð mèr gafstu ráð,
gekkst við mína síðu,
og leiddir mig, þá bernskan bráð
brauzt við mèlin stríðu.

Opt eg laggaði Óðins kút
að aðfinníngu þinni;
og línu dróstu einatt út
eptir beiðni minni,

Þegar andagiptin góð
greiddi drápu-smíði,
og kendi þèr að laga ljóð,
ljóðsnillínga prýði.

Áfram svona lífið leið
(lund við áttum saman),
þar til hæra í höfuð skreið
og hrukkaði skinn í framan.

Ef ei hrærist hugur þèr
hót af þessu máli,
einhver járnsál í þèr er,
eða gollur af stáli.

En fyrr má bæði frost og stríð
fara úr þessu landi
(það mèr tvent í þessum lýð
þykir óberandi);

Fyrr má norðan- hlýna -hríð
og harðna sunnangola,
og mótgángs aldan mín óþýð
mýkri verða að þola:

En þú viljir vini frá
vinar snúa geði.
Æ, að böggull aldrei sá
á mig hlaðast rèði!

Fyrir blessuð goð eg biðja vil,
berðu mig fram í hjali
hjá vísa þeim, sem vís er til
að verða í goða-tali.

Hann, sem æ þèr heiður bjó,
hrakníng mína sjái,
að eg úr þessum ólgu-sjó
óska-byrinn fái.

„Hve skal mála- hefja -leit?“
heyri eg þig segja. —

Svei mèr, ef eg það sjálfur veit,
sem eg á að deya.

Veit eg ei, hvað vilja skal,
vantar ráðið búna;
eigið gagn er uppi á dal,
ekki finn eg það núna.

Í raununum trúi eg reiki á tvist
ráð og þróttur nýtur;
vita skaltu, að vitið fyrst
vesalínga þrýtur.

Ferst mèr illa að fræða þig,
farinn er dagur hálfur.
Flyttu málið fyrir mig,
en findu vaðið sjálfur.

---

# EPTIR JOHN BARCLAY[1].

## ÚR ARGENIS[2].

## 1820.

---

Áður en heimur allur laut
ógnar-veldi Róma,
og tý-strángur Tíber braut[3]
traustan landa-dróma,

Af útlöndum farið fley
fögru gæddan hrósi
svein[4] á land við Sikiley
setti í Gelár-ósi[5].

---

[1]) John Barclay fæddist 1582; hann var skozkur að ætt og uppruna. Hann var latínuskáld gott og ritaði heimsádeilur og „rómana“. Einn af þeim kallaði hann Argenis eptir konúngsdóttur, er hann lætur hafa verið á Sikiley. Argenis var síðasta ritið, er hann lauk við, og er það gefið út í Rómaborg, sama árið og Barclay dó, 1621.

[2]) Þetta er upphafið á 1. kapít. í Argenis.

[3]) Þ. e. áður en Tíberá varð frægari, en úthafið (landadrómi), sem varð, eptir það að Rómverjar höfðu brotið undir sig mest allan heiminn, sem þá var kunnur.

[4]) Sá sveinn var Arkombrótus, er síðar reyndist bróðir Argenisar, konúngsdóttur.

[5]) Gelá fellur suður í Miðjarðarhaf um Sikiley.

Búníng, vopn og hlífar hans
háseta með liði
flutti sveina sveit til lands
af sollnum drafnarviði.

Elgjum söðla öflug bönd
undir bóga rendu,
hófu á lopt og áls af önd
upp til strandar sendu.

Sveinninn ekki vanur var
volki sjávar straungu;
halt af riðu höfuð bar
hafs af skvaki laungu.

Vildi sofna sverðatýr
á sævar þurrum beði,
honum þegar geystur gnýr
glepja svefninn rèði.

Blundi værum haggaði hljóð,
hugann óró fylti;
loks þá nær það að honum óð,
öllum svefni spilti.

---

2[1].

---

Meðan valin vinarorð á vörum lèku,
hvor í flas á öðrum óku[2],
ástar-blíðu faðmlög tóku.

Feingu síðan tómstund til, að tali gæta,
hvar þeir skyldu hjals um leita,
og hverjum ætti svör að veita.

Hvors í annars hvarma speiglum hygg eg skini
fegurð hins; en báðir blína,
báðir sèr af undrun týna.

Hvors á annars horfðu báðir hýrum augum
fegurð, úngdóm, afl í taugum,
eld í sjónar- fólginn -baugum.

---

[1]) þessar vísur eru þýddar hèr um bil úr miðjum sama kapít. og hinar fyrri.

[2]) þessir tveir, sem hèr er getið um að hafi faðmazt, eru þeir Arkombrótus og Políarkus, unnusti Argenisar. Höfðu stigamenn nokkrir ráðizt á hann í skógi, en hofgyðja Lofnar, er Tímóklea hèt, var í fylgd með Políarkusi, og hún var sú, er vakti Arkombrótus með ópi sínu, þar sem hún hvatti hann að koma Políarkusi til hjálpar. En er Arkombrótus kom til Políarkus, hafði hann drepið meiri hluta stigamannanna, en hrakið hina á flótta; urðu þá þeir fundir þeirra, sem hèr segir í vísunum, þó hvorugur þekti annan.

Jafnmörg ár á baki báðir bera knáttu,
ein var tign í andlitshætti,
ólíkt þó að nokkuð þætti.

Eitt var þó, sem öllum mátti undur færa,
að með fríðleiks skærum skara
skyldi hreystin saman fara.

Ekki síður auðnu prísar ágætt kvendi[1],
sem afreksmanna óska-fundi
óvænt saman koma mundi.

Hèt hún því með hinna leyfi, að heingja skyldi
upp í Lofnar[2] innsta tjaldi
ímynd beggja á litlu spjaldi.

Ýmis þó að atvik bægðu, efnd að veita,
undir málverk yfirlita
eina stöku lèt hún rita.

---

[1]) þ. e. Tímóklea.
[2]) það er Erycina Venus.

## LAURENTIUS ENGELSTOFT.

*Hos quoties spectas vultus ad sacra Camoenæ*[1].

---

Svo opt sem þú,
er til sala kemur
helgrar mentamóður,
frostheimum frá
eigi fjölskrúðugur,
þenna svip um sèr;

Svo opt þú seg:
sá var ráðs míns
bjargvættur bezti,
sá æ um var
iðna minna
áss og einverji.

Hans var gjöf,
að eg gjarn mátta'g
úngrar orku neyta;
hans var gjöf,
að eg hans vilda'g
ítru nafni unna.

---

[1]) Sveinbjörn heitinn kvað þessar vísur upphaflega á latínu.

*. . . Docti male pingunt,*
*sed bene distingvunt.*

---

[Ægisbála eyðir kær,
ekki má því leyna[1]:
lærðir mála krummaklær,
en klausur dável greina.

---

[1]) Skáldið hefir og haft fyrstu og aðra hendínguna þannig:
E y ð i r t á l a, ý t u m k æ r,
e i e r þ v í a ð l e y n a: o. s. frv.

## ÚR ÍSLENZKU.
## EPTIR ÞÆTTINUM AF ÞORSTEINI SKELK[1].

1.

Þorstein skelk eg sitja sá
á sinni næturskrínu í pínu;
rauðeygður var þrjóturinn þá, við Þjánarey.
Slitnum tjöldum sló eg undir Sámsey.

Í loganum sá eg Starkað standa,
studdi öxlum niður með hviður;
lèk um ökla bölið branda, við Bölverksey.
Slitnum tjöldum sló eg undir Sámsey.

2.

Sá eg þig væla
votum augum,
rauðeygð skauð,
for ríkum skata;
látt bartu höfuð,
lafðir á stigum,
þá er harri fór
með himinskautum.

[1]) Sbr. Fornmannasögur III, 199.—203.

# ÚR DÖNSKU.

## KIRKJUGARÐS-VÍSUR[1].

EPTIR C. A. LUND:

Höjt lyder Bedeklokkens Slag[2].

1838.

---

Heyri eg hljóm í húmi
hvellan af aptansbjöllu;
blundfús á beð skundar
búandmaður daglúinn.
Þegir alt; hefir augu
aptur kátur fugl látið.
Leðurblakan[3] ein líður
lètt í hríng mig kríng um

Fær mèr áhuga ærins
efni kyrr staður svefna[4],

---

[1]) Prentaðar eptir eiginhandarriti, samanbornu við Sunnanpóst, 1838, 29.—30. bls.

[2]) Sbr. „Rahbeks danske Læsebog. Andet Bind. Khavn 1825", á 248.—251. bls.

[3]) Leðurblaka (á dönsku Aftenbakke, líka Aftenflagrer og Flagermus, á latínu vespertilio) kallast í Fèlagsr. (eldri) 10, 89. bls. flögurmús. Það eru spendýr, og þau einu þess kyns, er flogið geta, og hafa snoðnar skinnblöðkur í stað vængja; þau hýrast inni um daga, en fljúga út í rökkrum og á nóttum. S. E.

[4]) Staður svefna, kirkjugarður. S. E.

þar er hold til hvíldar
hnígur búanda lúins.
Verk dagsett hefir hann verkað[1],
vær er honum hvíldin kæra,
sýkn er hann sorga, og vaknar
síðan ei til stríða.

Höggvinn marmari harmar
hans lát ei með gráti;
sèst á svartri kistu
sveit ókunnugt heiti.
Hnípin á helgu drjúpir
hauðri[2] björk in snauða;
þrífast þyrnar á gröfum
þèttflóknir í jörð sokknum.

Halur margur mun þó hvíla
hèr þeim, er tignar- bera
-bönd, meir að breytni vandur
og betri í hjarta setri.
Hver veit nema hrynji tárin
heitari á græna reitinn,
en á burgeyss sjálfbyrgins
bein und' marmara steini?

---

[1]) Verkað, unnið. S. E.

[2]) Heilagt hauður, kirkjugarður; það er títt í útlöndum, að planta trjám í kirkjugörðum. S. E.

Mær sefur mörg hèr væran,
meya prýði hjá lýðum,
ei sú með gulli nè glysi
gekk lokka sèr þokka.
Geð-ró lýsti bros brúðar,
blíðri sál, dygð án prjáli.
Við gröf, gleði snauður,
grætur enn makinn hennar.

Mitt þegar loks og látið
liðið verður hèr niður
saung með og helgri hríngíng
hold, og ausið moldu:
mín skal og endur- að mínu
-minnast opt grátnum kinnum
leiði[1], og harm í hljóði
hèr ástvinur bera.

Opt mun og ítra snóta
öld finnast hèr á kvöldum
glöð, og um raunmörg ræða
rök forn og sköp norna[2]:
minnast á ást (en ástar
er sæt-bitur kæti),

---

[1]) Að mínu leiði, við gröf mína. S. E.

[2]) Hèr mun meinast bæði það, sem drifið hefir á daga sjálfra þeirra, stúlknanna, og gömul æfintýri, er orðið hafa í fyrndinni. S. E.

minnast á dýrs (því deyr ei
dygð) unnusta trygðir.

„Skáld liggur hèr“ (með hreldum
huga meyar þá segja),
„mærð sá er marga gerði,
mein og vann ei neinum“.
Mína þá gröf enn göfga
góðlegum fegins-hljóðum;
kyrja, þau er úngur orta'g,
upp fljóð beztu ljóðin.

Máni kemur þá mæni
myrkum fram undan kirkju,
en hvatt með hug kættum
heim víf frá gröf svífa,
kveðandi: „Guð þig gleðji,
gott skáld, ljóss í valdi.
Vær sè þèr hvíld, uns heyrir
hljóm að efsta dómi“.

---

## KVÖLDVERS.

EPTIR FOERSOM:

Nu lukker sig mit Öje[1].

1851.

Nú legg eg augun aptur.
Ó guð, þinn náðar-kraptur
veri mín vörn í nótt.
Æ, virzt mig að þèr taka,
þinn eingil láttu vaka
yfir mèr, svo eg sofi rótt.

---

[1]) Sbr. „Hjorts danske Börneven. Sjette Oplag. Khavn, 1852", á 211. bls.

## EPTIR I. ST. MUNCH[1].

1825.

Hjá sèrhverju fólki, suður og norður,
er frá skillausri háttsemi hafið sig gat
til hóglátrar fèlags-lífs reglu,
dafnar hugvitið háa, og ljómar
á húmvegum lífsins hin innri sól.

Lít á þá gömlu undurseyu
allnærri jökulsins demantstóli,
hverrar húmdali ei heimsækir Blómgyðja,
nè huldar þokudömpum strendur.
Var ei sú fornskálda fósturjörð?
Mun Róm eða Grikkjaland lofsúngið leifa
listamann við Snorra Sturluson?
Er ei Þorvaldssonur, undran Vallands,
hraunþakins Ísalands arfi?

---

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanborið við Klaust-urp. 1825, bls. 82.

# STENDUR SÓLIN KYR?

EPTIR ELMQVISTS LÆSEFRUGTER.

1838.

---

Eitt sinn *Gestur* kom að kró,
þar *Kaprasíus* heitinn bjó,
gekk þar inn og bergði á bjór,
bóndanum síðan kenna fór,
að sólin stæði, en storðin geingi
um stjarna kór.

Kom hinum illa kenníng sú:
„Kollvarpar þú helgri trú?
af sjálfs guðs orði sýni eg þèr,
að sólin kríng um jörðu fer;
því strax, sem Jósúa strángur bauð,
hún stóð sem sker“.

*Gestur* aptur annsa tók:
„Eins er þetta og stafur á bók;
sólin stóð, sem kappinn kvað;
en komdu nú, og sannaðu það,
að hann byði aptur henni
að arka af stað“.

---

Hèr af læra maður má
merkilega kenníng þá,
að eitt af tvennu er annaðhvurt,
þá alt er hismið tekið burt[1],
að ljósið stóra líður í kríng
eða liggur kjurt.

---

[1]) Eitt af 4 eiginhandarritum, sem þessar vísur eru prentaðar eptir, hefir fjögur fyrstu vísuorðin af þessari vísu þannig:

Hèr af marka maður kann
merkilegan lærdóm þann,
að af tvennu er annaðhvurt,
þá alt er dustað rykið burt, o. s. frv.

---

## DRAUMGUÐINN.

EPTIR FR. PALUDAN-MÜLLER.

(Oneiros í Amor og Psyche, upphafið)

1834.

Þoka er í dölum,
dögg á grasi,
vestanblær í viði;
mjúkt sá andar,
uns máttfarinn
deyr í dimmri nótt.

Sofa verar
og -vetna hvað-,
sorg á fjall um flúin;
grúfir þar
yfir gnýpu-tindi,
og dagsbrúnar bíður.

Þá hún lætur,
er henni ljós morgun
aptur fjörs um fær,
í hvarmdaggar
hjúfurskúrum
yfir drótt um dreifast.

## UM BIÐIL, SEM FÈKK HRYGGBROT[1].

EPTIR FASTING.

En Cæsar kom og saa og vandt.

Hann Cæsar kom og sá og vann,
þó sögunni upp þú flettir.
Eins komstu og sástu, mikli mann,
en mergurinn varð eptir.

---

[1]) Sbr. „Rahbeks danske Læsebog. Förste Bind. Khavn, 1818“, á 616. bls.

## ÚR SVENSKU.

Ser jag den gryande dagen förut[1].

1849?

---

Ei fyrir dagsmorgni komanda kvíð,
kvíðalaust nýttu þèr hverfandi tíð.
Ilmríkan reyr,
rauðlagar ánga,
flýt þèr að fánga.
:|: Sóleyar fölna, þú sjálfur ert leir :|:.

---

[1]) Þessi vísa er prentuð eptir minni.

# ÚR ÞÝZKU.

EPTIR PAUL GERHARDT.

Befiel du deine Wege.

1833?

---

Vona, mitt hjarta veikt og tvist,
vona, og bugast eigi.
Guð lætur hverfa hretið bist
á hrygðarinnar degi.
Ef þú setur guð sjálfan á
í sorgum vonina þína,
þú munt á hæstum himni sjá
hans náðarstjörnu skína.

Þó allir vondir andar hèr
alt vildu gott aflaga,
aungvu þeir mega orka sèr,
því öllu guð nam haga.
Alt, sem staðráðið hefir hann
og hyggst til leiðar færa,
einn hann framkvæmir; einginn kann
úr skorðum það að hræra.

---

# SÁLMUR[1].

EPTIR GELLERT.

1819.

Guð, sem allri gæfu ræður minni,
gef eg ætíð treysti forsjá þinni;
vilji þinn æ veri minn, og
veit hvert sinni
unun í því finni.

Alt þín speki, elska, máttur leiðir,
öllum miskun skepnum þínum greiðir;
hví skal klaga hót um daga?
Herrann lagar
gæfu lífs um leiðir.

Mitt frá eilífð skapað hlutfall hefur,
hvað sem býður þú, mig friði' umvefur;
lán og mæðu mazt þú bæði,
mèr hjálpræði,
guð, í öllu gefur.

Líki þèr svo, lát mèr ekkert granda,
legg ánægju daga mèr til handa;
en ef vinna velferð minni

[1]) þessi sálmur er prentaður eptir sálmabókinni, Nr. 344 (14 í viðbætinum), „en hefir þó verið nokkuð umbreytt", segir Sveinbjörn heitinn í ljóðakveri sínu, frá því sem hann hafði hann upphaflega.

vèl, eg finni
hjá þèr huggun anda.

Þín náð bauð, oss jarðar gleðji gæði;
gæzkan alt eins skóp oss lífs vankvæði,
sjálfs ef eigi sök mig beygir,
sáttur þreyi' eg;
þú lèr þolinmæði.

Missi eg heill, sem mildin þín gaf blíða,
mótgáng þú ef vilt eg skuli líða;
þá eg beiði, úr böli neyðar
bezt munt greiða,
bót ei láta bíða.

Mun brátt þrotið má ske fjörið æða;
mildi guð, þitt verði boð, því hæða
sè vist valin, viss mèr talin,
sú von er alin;
hví má hel mig hræða?

---

# SÁLMUR.

EPTIR GELLERT.

1819.

---

Guð, þú í hendi mitt gjörvalt líf ber,
gef, að eg auðmjúkur feli mig þèr;
  lát mig það velja, sem vilji þinn er,
  verk þín öll æ sèu kær mèr.

Stjórnan þín máttug, vís, elskuleg er,
öllu, sem skapaðir, miskun þú tèr.
  Hví skal eg mögla? þú minn faðir ert,
  mèr alt til heilla bezt fær gert.

Hlutfall mitt skapað frá eilífu er;
alt hvað þú býður, til góðs verður mèr.
  Lán mitt og ama vó alvizka þín;
  alt, hvað þú sendir, er heill mín.

Viljir þú, armæða víki mèr frá,
veittu, að ánægður lifi eg þá;
  en ef það velferð er minni á mót,
  mèr veri þín huggun sönn bót.

Gæzka þín útbýtir gleði með oss,
gæzka þín áleggur mótlætis-kross;

þraut ósjálfvalda eg þegjandi ber;
þolgæði veitir þú, guð, mèr.

Firrist eg gæfu, sem fèkk eg af þèr,
faðir, ef mótlæti sendir þú mèr,
mèr bót armæðu muntu þó ljá,
mína bæn heyra, og líkn tjá.

Bráðum ef enda skal æfileið mín,
alvaldi guð, verði ráðstöfun þín;
fyrst eg í vissri trú von sælu finn,
velkominn dauði skal æ minn.

---

## DRAUMGLEÐIN[1].

EPTIR GELLERT.

Mit Träumen, die uns schön beträgen.

Draumasjón, er títt má tæla,
Tímon eitt sinn gleðja vann;
lifnaði upp í svefni sæla,
sem hann vakinn aldrei fann.

Leit hann upp úr rekkju rísa
ríkan fjársjóð skyndi með;
bæ sinn tók nú hann að hýsa,
höll í svefni byggja rèð.

Skyldu-þegna hópur hræddur
hefir í forsal lánga bið,
uns að Tímon ei fullklæddur
eldinn lætur bakast við.

Drós, í vöku ángurs efni,
opt sem vakti brellin þrá,
Tímons krýna sæld í svefni
um síðir ástum virðist þá.

Var, sem Tímon vakinn fyndi

[1]) Prentuð eingaungu eptir Klausturp. 1820, 36.—38. bls., „en er þó nokkuð umbreytt", segir skáldið í ljóðakverinu; „eg man ekki, hvernig kvæðið var hjá mèr".

væna brúði faðma sig;
hrópar hann þá: „Mitt hjartans yndi,
hef eg loksins unnið þig“?

Tala sá, er hjá honum hvíldi,
heyrði svefni Tímon í;
honum greiða gera vildi,
glepja draum, og kallar því:

„Láttu þetta þig ei tæla,
það er draumur, hrestu þig“.
„Svei nú“, Tímon mundi mæla,
„mikið illa lèkstu mig“.

„Spillir draums, því unun eyddir?
óra þess eg fann ei par;
og því hót ei hug um leiddi,
hún að tómur draumur var“.

* * *

Þann ósjaldan, sannleiks vinir,
sýnið greiða fyndinn þó:
að lýsið oss með lærdóms skini,
en laungum spillið vorri ró.

Hver bað yður hugar-villu
hjarta kærri vísa frá,

sem meiru gagni, minna illu
má oss valda tíðum hjá?

Hálfa veröld herja mætti,
hver alt sjá vill tállaust þar;
mörg ánægja manninn kætti,
miður því að skygn hann var.

Hvað í vígum hugsar hetja?
heims sè mestur kappinn hann.
Leyfið, dug til hans að hvetja,
honum drambsins fögnuð þann.

Hvað mun brúðurinn hugsa glaða?
hennar ver að unni sèr.
Leyfið henni villri vaða,
veslíngnum það skemtan er.

Hvað unnusti hugsar Lísu?
hún sè gæða skírlíf mey.
Ef þú annað veizt með vísu,
varast hátt því flekir ei.

Hvað mun þeinkja heimspekíngur?
hirð mig les, en virðir bær.
Leiki hann villur við sinn fíngur,
verka-lyst það honum fær.

Hyggið að um hölda sveitir,
hvað til dáða brynjar þær?
Hvað opt ró eða huggun veitir?
hugarburður, draumur kær.

Oss er nóg, að gleði gera
glisleg tíðum augnaspil;
maður gott er vart að vera,
væri blekking eingin til.

---

# SKÁLDMANNA-HLUTUR[1].

EPTIR FR. SCHILLER.

Nehmt hin die Welt! rief Zeus von seinen Höhen.

1838.

---

Prúðbúin jörð í skarti skein,
skóg-dýra fjöld á mörkum undi,
bar aldinviður bjúga grein,
af byrðarauka þúngum stundi.
Glóandi hlógu grösin þar,
gróðrarblærinn var þeim svo hægur;
kyrrláta lá að landi bar,
loptið var frítt og byrinn þægur[2].

Mildur guð þá til manna kvað,
miskun sína þeim gerði bera:
„Yðar sè[3] jörð og jarðar hvað,
jörðin skal yður heimil vera.
Hana eg yður öllum gef;
eflið svo líf án nokkurs trega.
En það skilyrði eitt eg hef,
að þèr skiptið nú bróðurlega“.

Alt, sem vetlíngi valdið gat,

---

[1]) Tekinn eptir eiginhandarriti, samanbornu við Sunnanpóstinn 1838, 142.—144. bls.

[2]) þessi fyrsta vísa er frumkveðin.

[3]) „Nemið þèr“, o. s. frv. Sunnanp.

vatt sèr á kreik, og fór að búa;
ei gamalmennið eptir sat,
á sèr þó fyndi nokkurn lúa.
Akurmaður hljóp eptir plóg,
ávaxta jarðar hlaut hann gæði.
Veiðimaðurinn skauzt í skóg,
og skaut þar dýr á beru svæði.

Kaupmaður setti far á flot,
fylti knörinn með gnótt og seimi;
bóndinn sèr fór að byggja kot,
bjó um sig vel í þessum heimi.
Presturinn sínar tekjur tók
(trúi' eg um sumar misjafnt geingi)[1].
Konúngur skatta skötnum jók,
skildi þó til, að hver sitt feingi.

Nú kom, laungu' eptir skipti skeð,
skáldið lángt að úr ferðastjái;
en ónumið varð þá ekkert sèð,
eigendur voru' á hverju strái.
Á fótskör guðs hann fleygir sèr,
og fer að kveina í hjarta sínu:
„Ætlarðu að gleyma einum mèr,
allratrúasta barni þínu"?

[1]) Í ljóðakveri skáldsins eru þessi 2 vísuorð líka þannig:
Sýslumaðurinn tekjur tók;
um tollana ætl' eg misjafnt geingi.

„Mig þar um saka mátt ei grand
(mælti svo guð), þó helzt of leingi
dveldi fyrir þèr draumaland,
þá dróttum jarðar veittist geingi.
Hvar varstu, meðan heimi hèr
hinir mennirnir skipta gjörðu"?
„Jeg var (kvað skáldið) þá hjá þèr,
þessari lángt í burt frá jörðu".

„Jeg horfði stöðugt augum á
ásýndar þinnar bjartan ljóma;
þíns himnaríkis heyrði eg þá
hljóma í eyrum dýrðar róma.
Vorkenn mèr, guð, þó gagntekinn
af geislabirtu ljóss þíns skæra
upp til þín numinn andi minn
ekkert um jörð sig vildi kæra".

„Jörðin er skipt (guð greiddi svar),
gagnsemin öll af sjó og láði,
verzlunarlèn og veiðifar
veitt er öðrum að mínu ráði.
En ef þig lángar meður mèr
í mínum himni að eiga vistir,
hann æ skal standa opinn þèr,
svo opt þig þángað vitja lystir".

---

# SKILNAÐUR HEKTORS OG ANDROMÖKKU[1].

EPTIR FR. SCHILLER.

Willst dich, Hector, ewig mir entreiszen.

1845.

---

*Andrómakka:*
„Ætlar þú, Ektor,
æfinlega
slíta þig burt
frá beðju þinni,
og hinnig hverfa,
er hamramur Akkilles
verpur valköstu
að vinar hefndum“?

„Hver mun þá læra,
er líða stundir,
ættstuðul úngan,
af þèr sprottinn,
bönd að blóta,
bröndum verpa,
er þig Hel hefir
herfjötri spent“?

*Hektor:*
„Gakk mèr, góð kona,
geir að færa,

[1]) Samanber Ilíons-kviðu, fyrri deild, 153.—157. bls.

banvænan brand
bragna kindum.
Hratt vil eg hlaupa
að Hildar leiki;
hvílir mèr á herðum
hátimbruð borg".

„Guðir skulu okkarn
arfa geyma.
Fyrir föðurland
fellur Ektor.
Við munum þrjú,
þó verði síðar,
á Ódáins-akri[1]
aptur um sjást".

*Andrómakka:*

„Eg mun aldregi
aptur hlýða
púnglegum hljómi
þinna vopna;
einn liggur geir þinn
inni í höllu;
hnignar 'ro Príamuss
höfuðkempur".

---

[1]) þannig kallar skáldið Elysium (Ελύσιον), er Grikkir og Rómverjar álitu að væri bústaður hinna sælu eptir dauðann í undirheimum; sbr. Odysseifs-kvæði, IV, 261.—263. v.

„Því þú munt
þángað gánga,
er dagur ei framar
dróttum lýsir,
þar Grátstraumur[1]
gnauðar um urðir,
og ást þín deyr
í Óminnis-hyl“[2].

*Hektor:*

„Þrám mínum öllum,
allri hugsan,
þeirri eg haft hefi
og hefi enn,
mun eg í Óminnis-
elfu varpa,
en ást mín kemur
aldregi þar“.

„Heyr á, hve ólmast
orir fèndur

---

[1]) S. s. Kókýtus, á í undirheimum (sbr. Odysseifs-kvæði, X, 246. v.), er Grikkir og Rómverjar kölluðu svo, af því á sú var niðmikil, og óunaðsamt þar að vera.

[2]) S. s. Óminnis-elfa í næstu vísu á eptir, er Grikkir og Rómverjar nefndu Leþe, og hjeldu, að hinir framliðnu gleymdu allri æfi þeirra ofan-jarðar, er þeir kæmi í undirheima og drykki úr henni.

bröttum bölvísir
að borgarveggi.
Gyrð mig geiri,
grátt-attu meir.
Deyr-at ást Ektors
í Óminnis-hyl".

---

## SKUSSARNIR.

EPTIR UHLAND.

Der weisze Hirsch.

1845.

---

Að skjóta geingu skatnar þrír,
í skóginum lá göfugt dýr.
Þeir eikinni lögðust þar undir há,
og alla hið sama þá dreymdi þrjá:

1. „Mig dreymdi, eg af mèr gerði gyss,
þá geysaði hjörturinn fram, *hviss, hviss*".

2. „Og þegar hann hlammaði og hundurinn gó,
eg hleypti' á hann byssunni strax, *pó, pó*".

3. „Og þegar eg sá, hvar á lýngi hann lá,
í lúðurinn blès eg, og sagði *drárá*".

Svo lágu þeir allir og hjöluðu um hjört,
en hjörturinn fram hjá þeim rendi þá ört;
og áður en festi þeir á honum sjón,
hann undan var stokkinn um hæðir og frón.
*Hviss, hviss! Pó, pó! Drárá!*

---

# ÚR ENSKU.

## SÓLIN.

### EPTIR OSSIAN.

---

Þú, sem veltist um himins hvolf,
hrínglögð, sem skjöldur feðra minna,
hvaðan er, Sól, þín geisla gnótt,
og ljósið þitt, sem lýsir æ?
Þú stígur upp í stoltar-prýði,
og stjarnan hver á himni skýlir sèr,
og túnglið bleikt og kalt í bylgjum vesturs hnígur;
en sjálf þú líður áfram ein, þèr ekki neinn
förunautur fylgja kann á skeiði.

---

Fellur eik á fjalli,
fjöll með árum hrynja,
hafið þverr og vex á víxl,
og máninn sjálfur hverfur himnum af,
en þú ert æ þèr sjálfri söm,
þú fagnandi brunar og bjartleikans unir á skeiði.

---

Þegar veröldin verður dimm
af veðra dökkvum ham,
og þruman veltur geysi-grimm,
og glossar eldíng fram,
þá lítur þú í þinni fegurð fram
af skýunum, og skopar að hörðum stormi.

---

## SÈRA SUÐRI[1].

Old South, a witty churchman reckon'd.

Ræðu hèlt sèra Suðri forðum
(sá var fyndinn og kænn í orðum)
konúngi öðrum Karli hjá.
En af því of margt í var henni
alvarlegt fyrir konúngmenni,
fèkk hún ei hirðar hjörtun á.

Klerkurinn (það er segin saga)
sèr brátt úr stól, að ísur draga
höfðíngjarnir og hirðin með;
heyra þeir lítt af herrans orði,
hrjóta, svo tekur undir í borði;
hættir hann þá, og hrópa rèð:

„Vekið þèr, bræður (brá hann tali),
burðugan jarl af Lodurdali.
Hverju sætir slíkt, herra minn!
Skelfilegt er svo hátt að hrjóta,
að hilmir svefns síns má ei njóta;
þèr vekið, kæri, konúnginn".

[1]) Prentað eptir eiginhandarriti, samanbornu við Sunnan-póst, 1835, 63. og 64. bls.

